# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XXXVII. ÁRGANGUR

---

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

---

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**

Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephansson, skáld
Frú Stephanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson
Dr. A. H. S. Gillson, U. of M. President
Einar Jónsson, myndhöggvari
Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri
Einar Sturlaugsson, prófastur
Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1955

## A. Heiðursverndarar

His Excellency the Right Honourable Vincent Massey, landstjóri Canada
His Excellency the Right Honourable The Earl of Athlone, K.G.
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.

## B. Heiðursfélagar

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, New York
Prófessor Halldór Hermannsson, Cornell University, N. Y.
Prófessor Sigurður Nordal, sendiherra Íslands, Kaupmannahöfn
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Sydney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld, Winnipeg, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Akureyri, Ísland
Jónas Jónsson, fyrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D.C.
Dr. Rúnólfur Marteinsson, Winnipeg, Manitoba
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
Árni G. Eylands, Reykjavík, Ísland
Gunnar B. Björnsson, Minneapolis, Minnesota
Vilhjálmur Þór, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. John C. West, forseti Ríkisháskólans í North Dakota, Grand Forks, N.D.
Próf. Ásmundur Guðmundsson, biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Prófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, aðalræðismaður, Stokkhólmi, Svíþjóð
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor emeritus, Saskatoon, Sask.
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, dómari, Rugby, North Dakota
G. J. Oleson, Glenboro, Manitoba
Einar P. Jónsson, ritstjóri Lögbergs, Winnipeg, Manitoba
Stefán Einarsson, ritstjóri Heimskringlu, Winnipeg, Manitoba
Dr. Stefán Einarsson, prófessor, Baltimore, Md.

C. Styrktarmeðlimir 1955

Dr. Richard Beck,
Grand Forks, N.D.

Miss Sæunn Bjarnason,
Gimli, Man.

Mr. og Mrs.
Davíð Björnsson
Winnipeg, Man.

Mr. Ásgeir Gislason,
Leslie, Sask.

Mrs. T. J. Gislason,
Morden, Man.

Próf. Finnbogi
Guðmundsson
Winnipeg, Man.

Mr. Páll Guðmundsson,
Leslie, Sask.

Miss Elin Hall
Winnipeg, Man.

Mrs. Anna Halldorson,
Winnipeg, Man.

Mr. og Mrs.
Ólafur Hallson,
Eriksdale, Man.

Mr. Grettir Leo Johannson
Winnipeg, Man.

Mr. J. Walter Johannson,
Pine Falls, Man.

Mr. John Johnson,
Winnipeg, Man.

Mrs. Th. Jónsson
Winnipeg, Man.

Mr. og Mrs.
Guðmann Levy
Winnipeg, Man.

Mr. Thorsteinn S.
Mýrman,
Steep Rock, Man.

Mr. Haraldur Ólafsson,
Mountain, N.D.

Miss Guðbjörg Sigurðsson,
Winnipeg, Man.

Mr. F. E. Snidal,
Steep Rock, Man.

Mr. Björgúlfur Sveinsson
Winnipeg, Man.

Ónefndir, Winnipeg

D. Ævifélagar

K. Valdimar Björnsson,
Minneapolis, Minn.
U. S. A.

Dr. Helgi P. Briem,
Consul Gen. of Iceland,
Stockholm, Svíþjóð

Grettir Eggertson,
Winnipeg, Man.

Eric Ísfeld,
Winnipeg, Man.

Grettir Leo Jóhannsson,
Icelandic Danish Consul
Winnipeg, Man.

J. W. Jóhannsson,
leikhússtjóri,
Pine Falls, Man.

Mrs. B. E. Johnson,
Winnipeg, Man.

Guðmann Levy,
Winnipeg, Man.

Anna Margrét Levy,
Winnipeg, Man.

Gunnar R. Pálsson,
New York, U. S. A.

Rev. P. M. Pétursson,
Winnipeg Man.

Árni Sigurðsson,
Seven Sisters, Man.

Dr. P. H. T. Thorlakson,
Winnipeg, Man.

**E. Ársfélagar**

1. CANADA

**Brandon, Man.**

Dr. Friðrik Fjelsted
Dr. E. J. Skafel

**Cypress River, Man.**

Stefán Eiríksson

**Eriksdale, Man.**

Mr. og Mrs.
Chris Halldórsson

**Frobisher, Sask.**

Hjörtur Bergsteinsson

**Gimli, Man.**

Miss Sæunn Bjarnason

**Hayland, Man.**

Sigurður B. Helgason

**Hnausa, Man.**

Miss Sigurrós Anna Vídal
Sigvaldi Vídal

**London, Ont.**

Christian Sivertz

**Markerville, Alta.**

Mrs. Rósa S. Benediktson
Jakob K. Stephanson

**Montreal, Que.**

Mrs. H. L. Robson

**Osland, B.C.**

Kristján Einarsson
Friðrik Kristmansson

**Piney, Man.**

Jón Ásmundson
Mrs. B. E. Björnsson
Skafti V. Eyford
Victor Freeman
Kristinn Norman
P. S. Pétursson
Pétur Stefánsson
Mrs. Emma Thorvaldson

**Riverton, Man.**

Mrs. K. S. Benedictson
Pétur Jónsson
Friðrik P. Sigurðsson
Skúli Skúlason
Mrs. S. O. Thompson

**Siglunes, Man.**

Davíð Eggertsson
Miss Guðbj. Eggertsson
Ásmundur Freeman

**Skeena River, B.C.**

Fríða Phillipson

**Tantallon, Sask.**

Helgi Vigfússon

**Vancouver, B.C.**

Mrs. Kristjana Anderson
Magnús Elíasson
Mrs. Matth. Friðriksson
Thor Guðmundsson
Mrs. H. S. LeMessurier
Mrs. Anna Matthíasson
Bjarni Sveinsson

**Victoria, B.C.**

Dr. J. P. Pálsson

**Wynyard, Sask.**

Jakob J. Norman

2. BANDARÍKIN

**Alexandria, Va.**
Leifur Magnússon

**Arlington, Va.**
Mrs. J. Sigmundsson

**Baltimore, Md.**
Dr. Stefán Einarsson
Málfríður Illugadóttir Carnes
Hildur Guðlaugsdóttir Dunbor

**Berkeley, Calif.**
Próf. Sturla Einarsson
Rev. S. O. Thorlakson

**Boston, Mass.**
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Kórmakur Ásgeirsson
Einar Barnes
Ari Bjarnason
Kapt. Jóhannes Björnsson
Valgeir Einarsson
Andrés Guðmundsson
Kapt. Thor Guðmundsson
Jónas Hallgrímsson
Björn D. K. Haralz
Kapt. Gunnl. Illugason
Kapt. Guðm. Jóhannsson
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theódór Jónsson
Guðmundur Pálsson
Pálmi M. Sigurðsson
Snorri Einarsson
Jakob J. Thorvaldson
Kapt. Óskar Gíslason

**Bottineau, N. Dak.**
Óskar B. Benson
Albert Árnason

**Buena Park, Calif.**
Mrs. J. Gillis

**Cambridge, Mass.**
Próf. Francis P. Magoun, Harvard College Library
Próf. Taylor Starck

**Chicago, Ill.**
Emil Beck
Sigurthor M. Hinrickson

**Clarkfield, Minn.**
Mrs. Jóhann Gunnlaugson

**Cismont, Va.**
Próf. Frederic T. Wood

**Cottonwood, Minn.**
H. B. Hofteig

**Davis, Calif.**
Dr. V. S. Ásmundsson

**Fargo, N. Dak.**

W. A. Myrdal
Próf. Th. W. Thordarson

**Grand Forks, N. Dak.**

University Library

**Ithaca, N. Y.**

Cornell University Library

**Jackson, Mich.**

Andrew H. Palmi

**La Kota, N. Dak.**

Einar Johnson

**Lincoln, Nebr.**

Próf. Joseph Alexis

**Los Angeles, Calif.**

Gunnar Bergman

**Minneapolis, Minn.**

Gunnar S. Bardal
Ásmundur Bjarnason
Björn G. Björnsson
Hjálmar Björnsson
Rev. Sveinbjörn Ólafsson
Guðmund Peterson

**Minneota, Minn.**

Gunnar S. Bardal
Sr. Guttormur Guttormsson
Einar Hallgrímsson
J. P. Ísfeld
Jóseph Jósephson
S. Frank Josephson
John A. Johnson
John L. Johnson
Jón Metúsalemson





**National City, Calif.**
John S. Laxdal

**New Brunswick, N. J.**
Prófessor Helgi Johnson
Rutger's University Library

**New Haven, Conn.**
Próf. Adolph B. Benson
Yale University Library

**New Ulm., Minn.**
Hon. A. B. Gíslason

**New York, N. Y.**
Edvard Frímannsson
Garðar Gíslason
Jón Guðbrandsson
Ólafur Johnson
Hannes Kjartansson
Gunnar Magnússon
Dr. E. Thorláksson

**Oklahoma City, Okla.**
Ólafía Jóhannsdóttir Mansfield

**Park River, N. Dak.**
Theodore Eyjólfsson

**Philadelphia, Penn.**
Próf. Axel J. Uppvall

**St. Paul, Minn.**
Minnesota Historical Society

**Topeka, Kans.**
J. B. Linderholm

**Washington, D.C.**
Mrs. Shirley Block

**Williamsburg, Va.**
Próf. Jess H. Jackson

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

ÞRÍTUGASTI OG SJÖUNDI ÁRGANGUR, 1955

Ritstjóri: Gísli Jónsson




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1956

# Myndirnar



PRENTAÐ HJÁ THE COLUMBIA PRESS LTD., 695 SARGENT AVENUE, WINNIPEG

# Efnisyfirlit

DR. STEFÁN EINARSSON:

# Halldór Kiljan Laxness

## Nóbelsverðlaunahöfundur

I.

Halldór Guðjónsson (Kiljan Laxness) var fæddur í Reykjavík 23. apríl 1902. Þrem árum síðar fluttust foreldrar hans að Laxnesi í Mosfellssveit og þar ólst Halldór upp. Foreldrar hans voru eigi efnafólk, en komust vel af og höfðu virðingu samsveitunga sinna. Faðir Halldórs var listhneigður, spilaði á fiðlu og þótti syninum mikið til hans koma. Snemma beygðist krókur Halldórs til skrifta, og var hann ekki gamall, þegar hann fyllti allan pappír sem hann náði til, ef ekki vasaklúta líka, með skrifum sínum óendanlegum. Aftur á móti var hann ekki mikið gefinn fyrir sveitastörfin fremur en margir bókfúsir unglingar á hans aldri, og gat þótt latur og hyskinn við þau. Það var ekki nema sjálfsagt að foreldrar hans sendu þennan námfúsa ungling til Reykjavíkur til að læra, enda hæg heimatökin fyrir þau í næstu sveit, en fyrstu tímarnir sem hann tók í Reykjavík munu þó eigi hafa verið helgaðir skriftum heldur hljómlist; hann lærði að spila á píanó og hefir aldrei með öllu lagt þá eðlu list á hillu, því nú spilar hann Bach heima hjá sér á kvöldin þegar áheyrendur eru gengnir til náða. En ást hans á hljómlist talar víða úr verkum hans auk greina sem beint eru henni helgaðar. Annars var aðaltilgangur Reykjavíkurveru Halldórs að búa hann undir gagnfræðapróf við Menntaskólann; það tók hann vorið 1918 og sat svo næsta vetur (1918—19) í fjórða bekk A, og varð það eini veturinn hans í skóla. Þann vetur voru í fjórða bekk fyrir utan hann skáldin Andrés Guttormsson Þormar, Gunnar Árnason frá Skútustöðum, Ríkharður Beck, Sigurður Einarsson, Sigurður Ívarsson, Sigurjón Jónsson frá Snæhvammi, Sveinbjörn Sigurjónsson og Tómas Guðmundsson, en í fimmta bekk Guðmundur G. Hagalín og Jóhann Jónsson, og í sjötta bekk þjóðskáldið Davíð Stefánsson. Um þetta hefur Tómas kveðið:

*og geri aðrir Menntaskólar betur*
*ég minnist sextán skálda í fjórða*
*bekk.*

Af þessum skáldum batt Halldór heitast vinfengi við Tómas Guðmundsson og Jóhann Jónsson, sem varð skammlífur og tók mestallt af hinum merkilega skáldskap sínum með sér í gröfina. Á skólaárunum kom Halldór líka fyrst í Unuhús og kynntist þar, auk húsbóndans Erlendar Guðmundssonar, heimagöngum svo sem Jak. Jóh. Smára, Stefáni frá Hvítadal og Þórbergi Þórðar-

syni. Jak. Smári hafði birt kvæði eftir Halldór í **Landinu**, þar á meðal lofkvæði til Vilhjálms Þýzkalandskeisara á afmæli hans 13. apr. 1917. Er þetta fyrsta kvæði sem ég hef rekist á eftir Halldór á prenti, undir dulnefninu Snær svinni, og hefst svo:

Heill sé þér Vilhjálmur hugumstór
hugprúði frændi og bróðir og vinur.
Stynur nú loft og storð og sjór,
stærist nú afl um leið og hrynur.
(5 erindi)

Næst er Þrá í **Landinu** 23. árg. 1918 eftir Snæ svinna, upphaf:

Sálin mín þráir í svarta
svipdimma bergið;
þráir í stálkynja, stælta
styrkinn þinn klettur.
Láið ei þrá minni lýðir!
Lítið á klettinn!
— þaðan sem bergmálið blíða
berst oss til eyrna. (4 erindi)

Þriðja kvæði Halldórs kom í **Fréttum** 31. okt. 1918 og kallaðist „Hafaldan“ eftir Halldór Guðjónsson frá Laxnesi:

Eg horfði út á hafið,
hlustaði á brimniðinn þunga,
andvarpið sára
frá úthafsins tröllvaxna lunga.

Halldór hefur sjálfur vitnað í þetta skemmtilega kvæði sitt, ort í grátljóðastíl, í „Skáldskaparhugleiðingum um jólin 1950“ (í **Degi í senn** 1955). Þetta virðast vera fyrstu kvæði Halldórs. Í óbundnum stíl virðist hann fyrst hafa skrifað „Barnablaðið „Sólskin“ “ í **Æskunni** júní 1916 (bls. 46—47), þar næst „Opið bréf til æskulýðsins á Íslandi“ (áskorun um að hætta að blóta) í **Æskunni** ágúst 1917 (bls. 62—4), a. m. k. fyrri greinin undir nafninu H. Guðjónsson frá Laxnesi. Þá koma tvær smásögur eftir Snæ svinna, „Launin“ í **Dýraverndaranum** 1917, 3: 72—5 og 1918,4: 1—5 og „Seifur“ í **Dýraverndaranum** 1918,4: 65—70.

Vorið 1919 kom fyrsta bók Halldórs á prent á kostnað höfundar, **Barn náttúrunnar.** Henni var vel tekið af Arnfinni Jónssyni og J. J. Smára, en illa af Jóni Björnssyni í **Morgunblaðinu.** Þetta ár missti Halldór föður sinn, en dreif sig samt í fyrsta sinn til útlanda, til Hafnar. Þar með var Halldór lagstur í flakk sem heita má að haldist hafi jafnan síðan, nema hvað hann komst ekki utan á stríðsárunum síðari og verri. Efast ég um að nokkur slíkur heimshornamaður finnist meðal íslenzkra skálda eða rithöfunda, þótt þeir Egill Skallagrímsson og Einar Benediktsson hafi getað gefið honum göfugt fordæmi. En þrátt fyrir flakkið las hann, horfði og skrifaði stanzlaust. Veturinn 1919 las hann Strindberg sér til óbóta eða sálubóta í Helsingborg í Svíþjóð, þann vetur skrifaði hann og í Kaupmannahöfn flestar af smásögum þeim er fyrst komu út í **Morgunblaðinu** en síðan sérprentaðar sem **Nokkrar sögur** (1923, endurprentaðar í **Þáttum** 1954). Veturinn 1920—21 var Halldór barnakennari í Hornafirði eystra, en dvaldist sumarið eftir heima hjá sér í Laxnesi. En veturinn 1921—2 fór hann, Þjóðverjavinurinn, til Þýzkalands til þess að nota sér lággengi marks-

ins eftir stríðið. Þar reyndi hann að skrifa **Rauða kverið** í anda Strindbergs en tókst ekki. Hafði veran í Þýzkalandi mjög ömurleg áhrif á hann vegna báginda þjóðarinnar eftir stríðið. Vorið 1922 fór hann vegabréfslaus með þýzku skipi til New York, ætlaði á vit einhvers vestur-íslenzks kunningja síns, en var snúið aftur á Ellis Island. Í þeirri för samdi hann „Judit Lvoff" er kom út í **Nokkrum sögum.** Þegar hann kom að vestan fór hann fyrst til Danmerkur og var þar í hálfgerðu reiðileysi, peningalítill og ráðlítill þar til Drottinn fyrir milligöngu Jóhannesar Jörgensen, hins kaþólska skálds, sendi hann í klaustrið St. Maurice de Clairvaux í Luxemburg. Þar dvaldist hann frá 7. desember 1922 til 5. október 1923. Hér lét hann snúast til kaþólskrar trúar og var skírður með pomp og pragt í hvítaváðum 6. janúar 1923 Halldór Kiljan Marie Pierre Laxness. Fyrstu kynni hans af kaþólsku höfðu orðið er hann hafði fundið **Imitation Christi** eftir Thomas a Kempis í bókaskáp hjá Einari Ólafi Sveinssyni og lesið hana sér til sálubótar á útmánuðum 1922. Í klaustrinu vann Halldór kappsamlega að bók sinni **Undir Helgahnúk,** sem út kom 1924, sú bók er mjög kristileg í anda. Í klaustrinu kynntist Halldór fyrst Jóni Sveinssyni, höfundi Nonnabóka; sem fór með honum til Parísar og sendi hann síðan í skemmti-bænar-för til Lourdes, áður Halldór sneri heim á leið norður á bóg. En á þessari norðurleið kom hann við í karþúsínaklaustrinu í Sussex í Englandi og var þar um jólin. Þar náði trúaræði Halldórs hámarki sínu, og hefur hann sagt frá því í „Heiðin jól og kristin" í **Vettvangi dagsins** (1942). Síðan fór Halldór heim og var heima næsta ár (marz 1924—apríl 1925). Þá gaf hann út **Undir Helgahnúk,** sem fékk miðlungi góða dóma, mönnum líkaði ekki stíllinn, einhver fann að því við Halldór að hann hefði látið kýrnar leika við hvern sinn fingur í stöku; þá stöku tók Halldór upp í aðra útgáfu **Kvæðakvers** síns. Árið 1924 var mikið merkisár vegna þess að þá kom út **Bréf til Láru,** með illvígri árás á kaþólsku kirkjuna. Það var ekki von til þess að hinn nýbakaði lærisveinn gæti þagað við slíkum ádrepum, enda skrifaði hann gegn þeim **Kaþólsk viðhorf** með imprimatur Meulenbergs biskups. Heima í Unuhúsi þóttu þau tíðindi mest að Halldór skyldi snúinn til kaþólsku, og voru allmargir kallaðir til að fylgja dæmi hans (þar á meðal Þorsteinn, kallaður Bæjer eða Bautasteini) en enginn reyndist útvalinn nema Stefán frá Hvítadal. Raunar hafði Halldór fleiri hnöppum að hneppa um þessar mundir en vörn kaþólsku. Hann var að reyna að taka stúdentspróf haustið 1924, en féll á því; sömuleiðis rubbaði hann upp 25 kapítulum af bók sem nefndist **Heiman ég fór,** en lagði hana á hillu þegar hann fór að fást við **Vefarann** og gaf hana ekki út fyrr en 1952 í „endurminningu liðinna daga." Enn orti hann veturinn 1924—5 kvæðið „Unglingurinn í skóginum" og varð honum það dýrt, því þegar þingmenn lásu kvæðið í **Eimreiðinni** þóttust þeir aldrei hafa lesið þvílíkan leirburð og hættu við

að veita Halldóri 1500 krónur í styrk til Ítalíufarar.

En þótt stúdentsprófið og styrkurinn færi út um þúfur, átti Halldór að hefja nám við Própaganda Háskólann í Róm vorið 1925. Í stað þess fór hann til Taormina á Sikiley og sendi þaðan heim svo skarpar ádeilugreinar til íslenzkra blaða um drengjakoll og stuttkjóla að sumum eldri kvinnum dámaði ekki ósóminn. En fyrst og fremst skrifaði hann hér **Vefarann mikla frá Kasmír**, bók sem olli tímamótum í íslenzkri skáldsagnagerð vegna nýjunga í stíl og óvægni í skoðunum, svo að hún varð jafnvel enn meiri hneykslunarhella 1927 en **Bréf til Láru** hafði verið 1924. Á leið heim frá Sikiley kom Halldór við í klaustrinu í síðasta sinn; þar kvaddi hann í síðasta sinn hinn mikla meinlætamann læriföður sinn, þann er minnti hann helst á Jón Ófeigsson kennara, og hefur staðið fyrir honum síðan sem ein göfugasta manngerð jarðar. Vorið 1926 kom Halldór heim með **Vefarann** en gekk svo illa að fá útgefanda, að hann varð að prenta hann á sinn kostnað eins og fyrstu bók sína. Meðan beðið var eftir prentun á **Vefaranum** fór Halldór í leiðangur austur á land. Þar orti hann kvæðið „Hallormsstaðaskógur“ á Egilsstöðum á Völlum 26. ágúst 1926, en í því segir hann meðal annars:

Héðan í frá er fortíð mín í ösku
og framtíð mín er norðurheimsins
ljóð . . .
Bros mitt er ljúft sem brennivín á
flösku
ég býð þér dús mín elskulega þjóð.

Eftir dvöl á Héraðinu fram í nóvember hélt Halldór sem leið liggur um Fljótsdalsheiði, Jökuldalsheiði og Möðrudalsöræfi norður um land. Varð hann á þessari leið hríðtepptur í Sænautaseli á Jökuldalsheiði, og skrifaði hann um þetta ritgerðir, sem fyrst komu í **Alþýðublaðinu** en síðan í ritgerðasafni hans **Dagleið á fjöllum** (1937). **Vefarinn** kom út á útmánuðum 1927 og dámaði fæstum. Laxness hafði um langa hríð skrifað fyrir íhaldsblöðin **Morgunblaðið** og **Vörð**. En þegar **Vefarinn** fór að koma út, þá birti Jónas Jónsson úr honum langar glepsur í **Tímanum** 23. apr. 1927 til þess að sýna fólki hvernig „skáld stjórnarinnar“ héldi á penna. Næsta dag stóð í **Morgunblaðinu:** „Jónas frá Hriflu tilfærir í **Tímanum** nokkra af verstu klámköflum Kiljans og smjattar á þeim. Það er sjálfsagt. Hver elskar sér líkt.“ . . . Þótt skeyti þessu væri sýnilega stefnt til Jónasar en ekki Halldórs, þá tók Halldór ummælin til sín og stefndi blaðinu fyrir meiðyrði. Neitaði hann því afdráttarlaust að nokkuð klám (pornografi) væri í **Vefaranum.** Blaðið var að vísu heldur sáttfúst og ritstjóri **Varðar**, Kristján Albertsson átti eftir að bjóða bókina velkomna á viðeigandi hátt, en upp úr þessu fór að slitna vinskapur Halldórs við íhaldsblöðin og hann fór að senda greinar í **Alþýðublaðið** þar á meðal greinaflokk um „Raflýsing sveitabæjanna,“ sem var róttækur mjög.

Með þenna són í eyrum út af **Vefaranum** fór Halldór vestur um haf með „s.s. Montclare“ frá

Glasgow til Montreal í maí 1927 og orti á leiðinni:

Atlantshafið eg einatt fór
eins og að drekka vatn . . .

og „Atlantshafið“:

Sigli eg einn um Atlantshafið auða,
um Atlantshafið fagurgræna rauða,
hafið mitt ríka, hafið bláa snauða . . .

Áður en varði var hann kominn upp á ferðina til Winnipeg, eins og segir í „Ontario“:

Eimlestin flytur einatt þreyttan
mann
með átta tennur gulls og mjóa
fingur;
Abdúlla reykir, ice-cream étur hann.
Er ekki sál hans skrýtinn
vítahringur?

Næst er hann staddur við Winnipegvatn:

Eldhús hjá vatni: vitur kona og góð
veitir oss kaffi og mjólk úr þykkum
bollum,
og notar tímann til þess að gera upp
reikninga við goð þeirra kristnu.

Og í Árborg í Ný-Íslandi skrifar hann „Nýja Ísland“ og fellir þar inn í „Barnagælu frá Nýja Íslandi:“

Búkolla mín bububu
Búkolla í fjósinu . . .

Í Winnipeg yrkir hann fagurt ættjarðarkvæði samnefnt borginni sumarið 1927:

Málið sem kendi þér hún amma
þín . . .
Þjóðin sem hefur léð mér lögin
sín . . .
Landið sem hefur fætt hann föður
þinn . . .

Og þegar hann kemur til Los Angeles í Californíu haustið 1927 þá yrkir hann „Í áfánga“ og þykist þá kominn leiðar sinnar, enda lýkur því kvæði svo:

Og sorgir vorar munu bráðum
engar.

Í Canada varð Halldór fyrir djúpum áhrifum af þjóðrækni Vestur-Íslendinga. Sjálfur ætlaði hann sér ekkert minna en að komast að því að skrifa fyrir kvikmyndina í Californíu; skrifaði hann fyrstu drætti af Sölku-Völku til þess. En úr þessu varð minna miklu en hann ætlaði að sinni, þótt nú sé Salka komin á sænska kvikmynd fyrir fám árum. Aftur á móti gat hann hefnt sín með því að skrifa ádeilu um kvikmyndina amerísku, og um amerískt þjóðlíf yfirleitt, eins og það kom honum fyrir sjónir á þessum vordögum kreppunnar miklu (hrunið kom 1929). Kveðst hann hafa orðið sósíalisti af því að sjá menn ganga atvinnulausa í skemmtigörðum Californíu, en ekki af því að lesa Karl Marx, enda var það **Untergang des Abendlandes** sem hann las í Californíu en ekki **Das Kapital**. Raunar kynntist hann líka á þessum árum í Californíu sósíalistanum **Upton Sinclair** og sendi afmælisgrein um hann fimmtugan til íslenzkra blaða (**Heimskringlu** og **Alþýðublaðsins**). Þessi grein þótti nokkrum Vestur-Íslendingum svo svæsin í pólitík, að þeir sendu hana til innflytjendaskrifstofunnar í

Washington, D.C. En þau yfirvöld álitu þá eins og nú hinar „kommúnistisku" skoðanir Laxness svo hættulegar að vísa bæri honum úr landi. Urðu dagar hans því ekki lengri í Californíu. Nokkrar sárabætur mun Halldór þó hafa fengið í greinum þeim er Upton Sinclair sendi blöðum um málið og í fyrirgreiðslu félags þess, er vakir yfir mannréttindum manna í Bandaríkjunum. Halldór hafði talið Upton Sinclair með fremstu höfundum í Ameríku; þessu neitaði Richard Beck, sem þá var skömmu orðinn doktor í enskum bókmenntum í Cornell og enn nýlegar prófessor í norrænum málum við háskólann í North Dakota. Urðu nokkrar hnippingar með þeim skólabræðrunum út af þessu. Nokkrar af þessum vestur-íslenzku greinum Halldórs eru prentaðar í **Dagleið á fjöllum** og þar með merk grein um Stephan G. Stephansson, er dó árið sem Halldór kom vestur.

Halldór tók skip um Panamaskurðinn og var heim kominn fyrir ársbyrjun 1930. Það ár kvæntist hann fyrri konu sinni Ingibjörgu Einarsdóttur Arnórssonar. Eftir það var hann til húsa í Reykjavík, unz hann upp úr stríði (1945?) bygði sér og flutti í húsið Gljúfrastein í Mosfellssveit, í landi jarðarinnar þar sem hann var upp alinn við „Steininn helga" sem hann skrifaði ungur þátt um. En þótt Halldór gerðist heimilisfastur í Reykjavík, gekk honum illa að leggja niður heimshornamennsku sína. Um það er til frásagna vísa Tómasar skálds:

Eitt (skáldið) skrifar bækur sínar
í Moskva, London, Laugarvatni
og Prag
og í lestinni til Vínar.

Koma hér þó að sjálfsögðu ekki öll kurl til grafar. Þannig skrifaði hann **Fuglinn í fjörunni** í Leipzig — París — Grindavík 1931, **Straumrof** í Kaupmannahöfn 18.—25. jan. 1934, **Sjálfstætt fólk** I,1 á Laugarvatni og í Barcelona, sumarið 1933, I,2 í Barcelona og Kaupmannahöfn, veturinn 1933—34, II,1 Róm og Nizza veturinn 1934—5, II,2 í Reykjahlíð og Laugarvatni, snemmsumars 1935. **Ljós heimsins** er ritað á ferð til Suður-Ameríku á leið á alþjóðaþing rithöfunda P.E.N. klúbbsins í Buenos Aires, haustið 1936, **Höll sumarlandsins** í Moskva, veturinn 1937—8, **Hús skáldsins** á Laugarvatni og Þingvöllum, síðsumars 1939, **Fegurð himinsins** í Reykjavík og grend, veturinn 1939—40. Á stríðsárunum komst Halldór hvergi utan, en **Íslandsklukkan** og framhald hennar var skrifað í Hveradölum, Akureyri, Eyrarbakka, en botnuð heima á Gljúfrasteini.

Eftir gandreið Halldórs um heimspeki og kaþólsku hefði mátt ætla að hann myndi eigi eiga langa viðdvöl í sósíalismanum. Sú varð þó raun á, þótt ekki vildi hann ganga í kommúnistaflokk Íslands (sbr. **Verkalýðsblaðið** 10. maí 1932), a. m. k. ekki fyrr en hann hefði kynnt sér ástandið í Rússlandi af eigin sjón. Þangað fór hann það sumar og varð ekki fyrir vonbrigðum um stefnuna; skrifaði hann **Í Austurvegi** (1933) um förina en neytti reynslu sinnar við samn-

ingu **Sjálfstæðs fólks.** Þegar Halldór hafði Sölku-Völku tilbúna beitti Jónas Jónsson sér fyrir því að hinn nýstofnaði Menningarsjóður (1929) gæfi hana út, en Halldór skrifaði fimmtíu ára afmælislofgrein um Jónas (1935) í **Dagleið á fjöllum.** En ekki gátu þessir mætu menn átt langa samleið í íslenzkum menningarmálum og pólitík. Menningarsjóður gaf ekki út **Sjálfsætt fólk,** en Jónas skrifaði um það langan ritdóm (af því tæi sem Halldór kallaði síðar langhund) í **Nýja Dagblaðinu** 16. febr.—8. maí 1936 og kallaði „Fólk í tötrum". Þar dáist Jónas að sjálfstæðismanninum Bjarti, en harmar mjög tötralýð Halldórs og minnir hann á að ekki sé víst hve lengi Alþingi fáist til að styrkja slíka framleiðslu. Þessum dómi svaraði Kristinn Andrésson með „Rauðsmýrarmaddaman hefur orðið" í **Verkalýðsblaðinu** 13. og 16. marz 1936.

Á krepputímunum greip Halldór oft í streng vinstri manna, svo sem í **Rauðum pennum** (1935—8) þar sem hann telur skáld ónýt, nema þau dragi taum fátæks fólks, elski það og nái ástum þess. Árið 1937—8 fór Halldór enn til Rússlands og skrifaði um það **Gerzka æfintýrið** (1938). Þar í er menningu Rússlands og bókmenntum ætlað ríflegt rúm, en Halldór uppgötvar að um margt stendur hin frumstæða rússneska og íslenzka alþýða á sama stigi og eru báðar óuppvinnanlegur akur fyrir rithöfund sem lýsa vill margbreytilegum manngerðum. Hallberg hyggur að þessi vitra hafi haft sín áhrif á mannlýsingarnar í **Höll sumarlandsins** er skrifuð var í Moskva.

Árið 1938 voru umbrot meðal vinstri manna á Íslandi. Kommúnistar leystu upp flokk sinn en nokkrir þeirra mynduðu nýjan flokk með róttækari sósíaldemókrötum eða Alþýðuflokksmönnum. Kölluðu þeir hinn nýja flokk sinn Sameiningarflokk alþýðu eða Sósíalistaflokkinn, en blað þeirra var **Þjóðviljinn.** Í þennan flokk gekk Halldór og taldi sig róttækan sósíalista en ekki kommúnista. Um sama leyti varð Halldór einn af stofnendum bókmenntafélagsins Máls og menningar, sem gaf út tímarit og ýmsar stórmerkar bækur, þar á meðal úrvalsljóð Stephans G. Stephanssonar og **Arf Íslendinga** eftir Sigurð Nordal auk sósíalistisks áróðurs. Varð þetta skjótt fjölmennasta bókmenntafélag landsins og sérstaklega gott íhlaup ungum mönnum að birta fyrstu ritsmíðar sínar. Margir íhaldssamari menn virtu svo sem hér væri um hættulegan kommúnistiskan áróður að ræða, en enginn hófst handa nema Jónas Jónsson. Hann lét hið virðulega gamla Þjóðvinafélag og Menningarsjóð rugla saman reitum sínum og hefja nýja útgáfu til að keppa við kommúnistana. Komu út fyrstu bækur þessa félags 1940 með **Andvara** og þrem þýddum bókum eftir L. Strachey, A. Huxley og Hamsun. Studdu samvinnumenn Jónas að þessari útgáfu, en enn liðu fimmtán ár áður sjálfstæðismönnum (íhaldsmönnum), dytti í hug að stofna bókmenntafélag af þesu tæi (Almenna bókafélagið 1955).

Um þessar mundir 30. nóv. 1939—

marz 1940 réðst Rússland á Finnland til mikillar skelfingar fyrir jafnvel marga vinstri menn að maður tali ekki um framsóknar- og sjálfstæðismenn. Þjóðræknir menn gátu þá ekki ályktað öðru vísi en svo, að ef kommúnistar og vinstri menn gætu horft rólegir upp á yfirgang Rússa í Finnlandi þá mundu þeir ekki harma þótt Rússar tæki Ísland. Halldór dró taum Rússa á þessum verstu tímum og jók það ekki vinsældir hans, en skáldastyrkur hans var skorinn úr 5000 niður í 1800.

Til allar hamingju fyrir samkomulagið í landinu var þess ekki langt að bíða að Hitler gerði innrás á Rússlandi, en þeir Churchill og Roosevelt fögnuðu Stalin eins og heilögum engli í fóstbræðralag sitt. Og þá skildist þessum háu herrum, a. m. k. Churchill að Finnland var í raun og veru „skammbyssa beind að hjarta Rússlands.“ Fóstbræðralagið bar og fagra ávexti á Íslandi og mun ég víkja að því í sambandi við **Íslandsklukku** Halldórs.

Því miður stóð vinskapur Austurs og Vesturs ekki nema tæpt ár. Rússar gerðu sínar „uppreistir“ í leppríkjum*) sínum, þá vildu Ameríkumenn ekki færa sig af flugvöllum sínum og herstöðvum. Fyrst leigðu þeir Keflavík 1946, þá stofnuðu þeir Atlantshafsbandalagið, og 1951 voru hermenn komnir aftur til Keflavíkur til að vernda landið gegn Rússum.

Það ár sótti Halldór friðarþingið umdeilda í Stokkhólmi og talaði þar gegn Vesturveldunum fyrir vígbúnað þeirra. 1953 fékk hann bókmenntaverðlaun friðarþings í Vín fyrir þátttöku sína í þessum málum. 1953 hafði hann verið nefndur sem líklegur til að hljóta Nóbelsverðlaunin í bókmenntum, en Churchill fékk þau. 1954 var hann enn nefndur, en Hemingway varð hlutskarpari. Loks fékk hann verðlaunin 27. okt. 1955.

II.

Fyrsta bók Halldórs, **Barn náttúrunnar** (1919) ber þess vott að vera skrifuð („ósjálfrátt“, eins og Halldór mundi nú segja) af seytján ára dreng. Að vísu gátu jafnvel eigi góðgjörnustu samtíðar spámenn, eins og Smári, séð það fyrir að hér væri Nóbelsverðlaunaskáld í reifum, þó má með lagi finna það í bókinni sem síðan einkenndi Halldór mjög: sérkennilegar persónur, sterkar andstæður, ofsa, jafnvel fáránlegar myndir og heimspeki í lok bókar.

Heimspekileg í anda sveitarómantíkur og Hamsuns var líka sagan um Heiðbæs listamann í **Nokkrar sögur** (1923), en flestar þeirra voru prýðilega vel skrifaðar (sumar þó „ósjálfrátt“ að sjálfs dómi). Sumar eru ljóðræn prósaljóð, nokkur blæbjört, önnur dökk og tragisk. Fyrirmyndir gátu verið Obstfelder, Tagore eða austrænar ritningar helgar.

Eins og viti fram á veg lýsir á þessum árum ritdómur sá, er Halldór ritaði um Hamsun, **Konerne ved Vandposten** (í Morgunbl. 15. sept. 1921). Áður hafði hann verið hrifinn af sveitarómantík Hamsuns

*) Um uppreistina í Eistlandi er nú nýkomin út ágæt bók heima gefin út af Almenna bókafélaginu eftir Aats Oras, **Örlaganótt yfir Eystrasaltslöndum,** Rvík 1955.

í **Markens Gröde**, nú sér hann ekki annað en siðferðilega hnignun í list hans. Þetta má kalla fyrsta skref Halldórs á veginum til kristins dóms. Næsta skrefið er lestur bókarinnar **Um eftirlíkingu Krists (De imitatione Christi** eftir Thomas a Kempis, eitt af höfuðatriðum kristni), sem hann, eins og áður segir, fann í bókaskáp hjá vini sínum Einari Ólafi Sveinssyni, hafði með sér til Þýzkalands og las í marz 1922, í Berlín. Þriðja skrefið er svo skírnin í klaustrinu, sem áður er frá sagt. Í Þýzkalandi hafði Halldór verið að fást við heimspekilega bók nokkuð í anda Strindbergs, **Rauða kverið**, sem aldrei kom út.

En í klaustrinu skrifaði hann **Undir Helgahnúk** (1924). Í þessari bók dró Halldór sína eigin andlegu þroskalínu frá barnatrúnni (sem hann síðar meir afneitaði) um hrjóstur efans fram til endurheimts kristins dóms í kaþólsku kirkjunni. Saga drengsins er andstæða sögu föður hans, prestsins, sem byrjar á að fara í hundana í Kaupmannahöfn eins og fleiri góðir Íslendingar og endar sem pokaprestur í íslenzkri sveit — engin óvenjuleg saga. Í bókinni er ljóðrænt veður og ljóðrænn hugblær, enda kallaði Halldór hana bókina um hátíðina á bak við dagana. Í bókinni gefur Halldór rómantískri viðkvæmni lausan taum í síðasta sinn. Viðkvæmni hans er ávallt síðan blandin hranaskap, sem oft gengur hunzku næst.

Saga Atla er sjálfssaga undir rós. Miklu opinskárri er þó sjálfsæfisagan í **Heiman ég fór**, með tveim aðalpersónum, höfundi og Steini Elliða, og í **Vefaranum mikla frá Kasmír** (1927), þar sem höfundurinn er orðinn að Steini Elliða. Á það má minna að eftir skírnina var nafn höfundar Halldór Kiljan María **Pétur** Laxness, en í lok **Vefarans** stendur skrifað: "TU ES PETRUS: ET SUPER HANC PETRUM ÆDIFICABO ECCLESIAM MEAM. Það útleggst: Þú ert Steinn og á þessum Steini mun eg reisa kirkju mína." Þetta er letrað á Péturskirkju í Róm. Í þessari miklu játningarbók má fylgja höfundi sárfættum um refilstigu heimspekinnar, frá austrænni speki og þýzkri heimspeki, frá ofurmennsku Nietsches og jafnaðarmennsku Marx inn í skaut hinnar einu sáluhjálplegu móður, kaþólsku kirkjunnar. Því miður er það ekki nógu trygg höfn, því jafnvel í skauti hennar heldur baráttan áfram milli Drottins og konunnar, milli hæstu hugsjóna og mannlegra freistinga. Í þessari baráttu dæmir höfundur dýrðina Drottni en konunni auðvirðlegan ósigur. En meðferð hans á konu og manni er slík, að hann fær bakþanka og spyr sjálfan sig að verkinu loknu, hvort Guðinn sé í raun og sannleika mikilla fórna virði. Í þessu innhverfa verki voru áhrif frá Evrópuhöfundum eldri og yngri auðsæ, enda vitnaði Halldór beint til þeirra að sið miðaldahöfunda. Schopenhauer, Strindberg, Otto Weininger, Johannes Jörgensen, Papini áttu allir þátt í grautargerð hugheimanna, en þýzka kjarnsæisstefnan (expressionisminn) franski surrealisminn og Þórbergur Þórðarson höfðu kennt honum að gefa stílsnilld sinni lausan tauminn. Samkvæmt surrealismanum, sem

Halldór var spesíalisti í á þessum árum, áttu menn helzt að skrifa beint úr djúpum undirvitundar sinnar því nær ósjálfráða skrift, lausa við hömlur skynseminnar. Að vísu játar Halldór að tæplega nokkuð frá sinni hendi nema dálítið í kvæðunum „Unglingurinn í skóginum" og „Rhodimenia palmata" og einstaka glepsur í **Vefaranum** geti kallast yfir-raunsæilegt. Enn hitt er ekki að efa að þessar kenningar — og dæmi Þórbergs — hefur leyst allar hömlur, kippt burt öllum stíflum frá flóðgáttum anda hans, enda mælskuflóðið eftir því. Þessi nýi fossandi stíll er alveg óþekktur í eldri skáldritum hans, en finnst á bréfum frá sama tíma, enda er mikið af Vefaranum í bréfastíl, og þegar Halldór var að hugsa um að skrifa hann, bað hann vini sína að senda sér bréf sín af því að hann ætlaði að nota þau í slíkt verk.

Síðan **Bréf til Láru** kom út 1924 hafði engin bók valdið þvílíkum stormi undrandi hneykslunar og **Vefarinn** þegar hann kom 1927. Þetta var eigi aðeins hinum nýja stíl að kenna, heldur líka hinu, að hér bárust Íslendingum hugmyndir sem löngu höfðu fullhneykslað lesendur í Evrópu, svo sem kvenhaturskenningar Strindbergs og Weiningers og kenningar Freuds um hin illu undirdjúp mannssálarinnar. Hér bættu ekki um kenningar hinna frönsku dekadenta svo sem lof kynvillunnar, en þær voru nýjar af nál.

Mönnum sem dáðu anda fornbókmenntanna og vöktu yfir samhenginu í íslenzkum bókmenntum, leizt ekki á blikuna. Guðmundur Finnbogason reit hinn fræga dóm sinn: „Vélstrokkað tilberasmjör," en Nordal kvað höfundinn hafa farið á túr í Evrópumenningu illri og góðri og ekki skilað aðföngunum fullmeltum. Meira skilnings naut Halldór af hinum yngri mönnum eins og Tómasi skáldi Guðmundssyni, en enginn fagnaði honum þó svo sem Kristján Albertsson aðalgagnrýnir íhaldsmanna en merkilega frjálslyndur í bókmenntadómum: „Loksins, loksins, tilkomumikið skáldrit, sem rís eins og hamraborg upp úr flatneskju íslenzkrar ljóða- og sagnagerðar síðustu ára! Ísland hefur eignast nýtt stórskáld — það er blátt áfram skylda vor að viðurkenna það með fögnuði. Halldór Kiljan Laxness hefur ritað þessa sögu á 24. aldursári sínu. Ég efast um að það komi fyrir einu sinni á aldarfjórðungi að skáld á þeim aldri semji jafnsnjallt verk og þessi saga hans er. Á 64. gráðu norðlægrar breiddar hefur það aldrei fyrr gerst." Og ennfremur: „Þróun tímaborins íslenzks sögustíls tekur hálfrar aldar stökk með þessari bók Halldórs Kiljan Laxness." (**Vaka** 1927, 306). Ég efast um að ástæða hafi verið til að láta sér þykja vænna um Nóbelsverðlaunin en um þenna dóm ungra Íslendinga við framkomu fyrsta stórverks höfundarins. Sjálfur sagði Laxness einhverntíma þegar hann var að reyna að fá **Vefarann** þýddan á ensku, að hann efaðist um að **Vefarinn** væri síður sönn European Tragedy en **American Tragedy** Dreisers væri amerísk. Og í hinni miklu bók sinni um **Vefarann** (1954) telur Pétur Hallberg það vafasamt hvort nokkuð annað land á Norðurlöndum eigi

rit, er gefi svo sterka og marghliða mynd af hugmyndaheimi eftirstríðsáranna í Evrópu.

Halldór kallaði **Vefarann** bókina um „dýrðina á ásýnd hlutanna.“ Með þessu átti hann við að öll veröldin væri dásamleg, hvort sem mönnum þætti hún ill eða góð, ljót eða fögur, og því lagði hann sig í líma að spegla allt þetta og allar hinar margvíslegu lífsskoðanir í frásögn **Vefarans.** Úr hinni margrödduðu symfóníu veruleikans kaus Steinn Elliði yfirmannlegan bassa Drottins, en Halldór raddir mannanna:

Mannabörn eru merkileg,
mikið fæðast þau smá,
þau verða leið á lestri í bók
og langar að sofa hjá,
þau vaxa óðum og fara í ferð
full af söknuði og þrá.
Við fótatak þeirra fagna eg
þá finn eg hjarta mitt slá.

Þetta orti hann á leið til Ameríku 1927, en í Californíu skrifaði hann á árunum 1928—9 **Alþýðubókina**, sem átti að vera grundvöllur þessarar nýfæddu trúar hans á manninn og boðskapur sósíalismans á Íslandi. Hún kom út 1929, gefin út af Jafnaðarmannafélagi Íslands, sem þá var kjarni Alþýðuflokks Íslands.

Í bók þessari var grein um íslenzkt þjóðerni mögnuð af kynnum höfundarins við þjóðlausa Vestur-Íslendinga. Þar var líka merkilegt mat á Jónasi Hallgrímssyni og ástarjátning höfundar til hans. Þessar tvær greinar voru svo að maður mundi ekki hafa vænst þeirra af alþjóðlegum jafnaðarmanni, en þjóðræknisþátturinn hefur síðan farið sívaxandi í ritum Halldórs, enda lítur hann ekki á jafnaðarmennsku sem andstæðu þjóðræknnar heldur fullkomnun hennar. Í **Alþýðubók** var enn fremur skörp ádeila á amerísku kvikmyndina og ameríska þjóðskipulagið frá sjónarmiði sósíalistans Uptons Sinclair, en líka jafnhörð ádeila á íslenzka þjóðhætti frá sjónarhrauni amerískrar tækni og verkframfara . . . Stíllinn, oft fáránlegur og gróteskur, minnti ósjaldan á stíl H. L. Menckens, vitringsins frá Baltimore, bezta niðurskurðarmanns Ameríkana á árunum 1920—30.

Árið 1930 kom út **Kvæðakver** eftir Halldór, nýstárlegt vegna þess að hann var eina skáldið sem reynt hafði að yrkja í nýtízku stíl. Að vísu hafði Þórbergur gert uppreist gegn hefðbundnu ljóðformi, en uppreist hans lá í því að hann fyllti þessi gömlu form með öfugmælum og vitleysu. Laxness aftur á móti skapaði ný form, ekki sízt í surrealistisku kvæðunum „Unglingurinn í skóginum“ og „Rhodimenia palmata“. Unglingurinn í skóginum varð, svo sem fyrr segir, honum dýr, hann tapaði á honum 1500 króna styrk frá Efri deild Alþingis, vegna tannskemmda þingmannanna, að því er hann skýrði fyrir sér málið í **Alþýðubókinni.** Þá var enginn vel tenntur í þeirra deild nema Sigurður Eggerz, sem greiddi honum atkvæði. Þegar „Rhodimenia palmata“ kom út, þá þekkti **Alþýðublaðið** enn svo illa sinn vitjunartíma, að það birti „Hattbardodendron millipilsianum“ eftir Halldúr Dellian (8. apríl 1926). Í sama dúr kom

„Kiljeniana Laxata" eftir Leir-Fúsa í **Dagblaðinu** (13. apríl 1926). Mælt er ennfremur, að vinnukona í Mosfellssveit hafi þakkað sveitunga sínum kverið með þessari vísu:

Þitt hef ég lesið, Kiljan, kver
um kvæðin lítt ég hirði.
En eyðurnar ég þakka þér,
þær eru mikils virði.

En eyðurnar hafði Halldór skilið eftir handa lesandanum sjálfum til að yrkja í. Menn hermdu eftir þessum kvæðum, og lásu þau með ánægju, sumir stórhneykslaðir, en lítið munu ung skáld hafa af þeim lært, fyrr en kannske eftir 1940, enda voru þau lítils virði hjá öðru sem Halldór skrifaði á þessum árum.

Fram að þessu hafði Halldór skrifað meira um sjálfan sig og sína eigin þroskasögu, en nokkuð annað skáld íslenzkt nema ef ske kynni Sigurður Nordal í sögu af Álfi á Vindhæli („Hel"), og Þórbergur Þórðarson í **Bréfi til Láru. Heiman ég fór, Vefarinn,** jafnvel smágreinar í blöðum voru svo persónulegar og sjálfhverfar að Kristján Albertsson gat ekki orða bundist, en hirti hann fyrir sjálfshrós og sjálfspeglun. En nú tók Halldór að beina augum sínum að íslenzku þjóðlífi, minnugur sinna nýju fræða um mikilvægi mannsins og nauðsynjar þess að elska hann eigi minnur en Drottinn áður. Þetta nýja tímatal í ritþróun Halldórs hefst með **Alþýðubókinni** í ritgerðum, en með skáldsögunni um Sölku-Völku í sagnagerð. Sú saga kom í tveim bindum **Þú vínviður hreini** (1931) og **Fuglinn í fjörunni** (1932). Ekkert lá beinna við fyrir ungan jafnaðarmann en að taka íslenzka sjávarþorpið og íbúa þess til athugunar fyrst af öllu. Flest þorpin höfðu vaxið eins og gorkúlur á haug í fiskiverum fjarðanna, utan um verzlun kaupmanns og útgerð síldar- eða þorskveiðimanna. Hingað þyrptust landlausir og rótlausir bændur og lausamenn til þess að gerast þurrabúðarmenn. En þessi lýður var höfuðlítill her þar til leiðtogar jafnaðarmanna fóru að reyna að róta við þeim, en það var ekki að öllum jafnaði fyrr en á stríðsárunum fyrri eða fyrr en eftir stríð. Nokkrir íslenzkir höfundar höfðu sagt sögur af innreið jafnaðarstefnunnar eða þó einkum atgangi jafnaðarmanna leiðtoga í þorpunum, sumir frá sjónarmiði íhaldsmanna, sumir frá almennu og enn nokkrir frá sjónarhól jafnaðarmanna sjálfra. Fæstum hafði tekist að mála trúa mynd af fólkinu sjálfu, en einmitt það tókst Halldór á hendur með þessari bók sinni, með stórfenglegum árangri. Með breiðum, sterkum dráttum og dumbgráum litum málar hann þorpið klúkandi milli fjalls og fjöru í illhryssingi íslenzkrar náttúru. Ekkert virðist við fyrstu sýn tilgangslausara en lífið í þessu þorpi, en höfundurinn kann listina að lyfta smáheimi sínum og gæða hann tilgangi allrar mannlegrar tilveru. Á sama hátt eru manngerðir hans oftast táknrænar á það ofan, að hann lýsir þeim af mikilli raunsæi, af djúpri samúð undir niðri en oft með köldu glotti eða jafnvel hunzku á ytra borði. Þetta sérkennilega tvísæi, þessi einkennilega samblöndun samúðar og hlutleysis, ef ekki hunzku,

er langáhrifamesta stílbragð Halldórs, og það einkennir flestar bækur hans þar sem ádeilu kennir; hefur það gert þær oft fáránlegar og öfugmælakenndar, og er sú orsök til að hann hefur orðið slíkur fleinn í holdi landa sinna, þeirra er ekki fylgdust með honum í skoðunum, að hann hefur því nær ávallt hneykslað þá með nýjum bókum sínum. List hans í persónugerð er mikil, hvort sem hann virðist draga menn sína og konur eftir lifandi fyrirmyndum, eða höggva þær til sjálfur. Salka er einfalt náttúrubarn að eðli, en ávalt vaxinn öllum þeim erfiðleikum sem að henni steðja. Hún er tákn heilbrigðrar alþýðu þorpsins, og andstæða móður sinnar, sem ferst fyrir sakir veikleika síns. Steinþór, sjóari, drykkjurútur, skáld og bulla er viðamikill maður í heimi þorpsins, en mér virðist hann heldur bera merki axarhöggva höfundar en Salka. Arnaldur er kommúnisti, hugsjónamaður, sem vantar bein í nef. Menn hafa bent á meðferðina á honum og Bogesen, kaupmanni þorpsins, til þess að sýna að höfundur fer ekki í manngreinarálit eftir skoðunum sínum, heldur lætur það viðgangast að fulltrúi íhaldsins sé miklu meiri maður og skemmtilegri en fulltrúi hinnar einu sönnu trúar sósíalismans. En þetta er eitt af mörgum dæmum þess að Halldór metur meir innri lögmál verks eða manngerðar heldur en boðskap þann er verkið á að boða frá sjónarmiði jafnaðarmennskunnar. En yfirleitt má segja að hið sósíalistiska sjónarmið hafi gefið honum einstaka nýja útýn yfir íslenzkt líf, og mér er mjög til efs að myndir hans úr íslenzku þjóðlífi hefðu orðið jafnlifandi og skarpar ef hann hefði ekki séð þær frá þessum nýtízku kögunarhóli sínum. Og virðist mér þetta sérstaklega skýrt um **Sölku-Völku** og **Sjálfstætt fólk**. Til eru þó menn, eins og Kristján Albertsson, íhaldsmaður, sem ætlar að þetta sjónarmið hafi spillt list hans, skal og eigi fortaka að þess kunni að finnast dæmi. Stíll **Sölku-Völku** var allólíkur stíl **Vefarans**, en nýr og ferskur með bragði af Reykjavíkurmállýzku, þótt víðar væri föng til hans dregin. Væri ekki ólíkt, að eitthvað hefði slæðst með af Vesturlandi ef það er rétt, sem mælt mun vera, að Óseyri við Axlarfjörð sé að nokkru dregin eftir Bolungarvík við Ísafjörð.

Tvær smærri bækur komu á hæla Sölku-Völku: **Fótatak manna** (1933) og leikritið **Straumrof** (1934). Bók hin fyrrnefnda er safn af smásögum, þó einni í lengra lagi „Ungfrúin góða og húsið". Það er meistaralega írónisk saga um hégómaskap og apaskap heldra fólks í litlu þorpi. En smásagan „Nýja Ísland" er átakanleg saga af vonbrigðum landnámsmanns í Vesturheimi, saga sem mjög hneykslaði Svein gamla Þorvaldsson í Riverton þegar Halldór las hana þar upp á samkomu. Leikritið er skrifað í anda Freuds og lýsir vandræðum í lífi athafnalausrar yfirstéttarkonu í Reykjavík.

Snemma vetrar 1926 gekk Halldór á skíðum yfir heiðar milli Austur- og Norðurlands. Snjóbylur rak hann og félaga hans til að taka gistingu í Sænautaseli, einu minnsta kotinu í Jökuldalsheiði. Kotið var því nær fennt í kaf, en í því voru hey og

kindur undir palli, en bóndinn sjálfur, kona hans, sonur og gömul móðir bjuggu uppi á loftinu. Til matar var eigi gott. Mjólk var engin, en gestir miðluðu heimilisfólki, einkum gömlu konunni, af mjólkurflöskum þeim, er þeir höfðu haft með sér í nesti. En bóndi sagði, að það gerði nú minna til meðan kindurnar hefðu nóg hey. Hann hafði lógað kúnni um haustið. Þótt sult sæi á móður hans og syni, var hann í góðu skapi, gestrisnari en konungur í ríki sínu. Þetta er sagan sem **Dagleið á fjöllum** dregur nafn sitt af.

En þetta er líka saga sú í hnotskurn, er Halldór hefur lyft í hæðir hetjusögu og víkkað til veggja veraldarsögu í **Sjálfstæðu fólki** (I—II 1934—35). Einhvers staðar í **Kirkjunni á fjallinu** sér Gunnar Gunnarsson bóndann á heiðum Austurlands sem eilífan loga manndómsins í eyðimörkinni. Halldór sér sama mann á krossgötum forns siðar og nýs, og lætur hinn forna sið, sjálfur leið þú sjálfan þig, sem dugað hafði síðan á dögum **Hávamála**, bregða fæti fyrir hinn sjálfstæða mann. Frá sjónarmiði jafnaðarmanna er það smábóndinn hvar í heimi sem er, líka rússneski bóndinn, sem, smitaður af hugheimi kapítalismans, fellur þannig á sjálfs sín bragði. Fellur hver á sinni list um síðir, segir íslenzkt máltæki. Einhver Ameríkani gerði sér ferð heim til Halldórs til þess að segja honum að hann þekkti þúsundir slíkra bænda í New York. Nokkur vafi gæti legið á því hvort þessi Ameríkani hefði skilið Bjart rétt, því eins og Kristinn Andrésson sakaði íslenzkan fulltrúa Rauðsmýrarmaddömunnar (þ. e. Jónas Jónsson) um að gera, lögðu útgefendur og ritdæmendur bókar í New York 1946 aðaláherzlu á tröllaukinn hetjuskap Bjarts töldu hann fullkomið dæmi um „the rugged American individualism.” Bókin var borin saman við **Gróður jarðar** eftir Hamsun, en þar sem Ísak Hamsuns kemst af á vinnu sinni eins og amerískir landnámsmenn, sem hlýddu kallinu: „Farðu vestur, ungi maður,“ þá bíður Bjarts í sögulok eftir jötunafrek og tröllatryggð við málstað sinn ekki annað en boðorðið: „Líttu í austur, gamli maður.“ Auðvitað þverskallast hann við því og fer, trúr eðli sínu, á enn annað kot enn lengra inn í heiði. En þótt Bjartur í Sumarhúsum sé alþjóðlegt tákn, þá er hann höggvinn úr íslenzku blágrýti og gnæfir voldugur í íslenzku þjóðlífi úr íslenzkri náttúru. Hann hefur lært hreysti í skóla Íslendinga sagna og rímna, sjálfstæðið og konungshugsjónina af **Hávamálum**, en þrjóskuna og tröllskapinn í vetrarhríðum í eftirleitum eftir kindum sínum. Hann reynist ódræpur í svaðilförum, pestir og plágur vinna ekki á honum, jafnvel ekki draugar og óvættir fjallanna. En hann kostar miklu til. Tvær konur drepur hann af sér, börnin deyja eða flýja kotið, loks tapar hann kotinu sjálfu til kaupfélagsins. Er þetta líf þess vert að því sé lifað? Ekki frá sjónarmiði Halldórs; hann prédikar samvinnu í stað einyrkjabúskapar. **Vefarinn** var Halldóri Don Quijote kristins dóms, Bjartur frá Sumarhúsum Don Quijote sjálfstæðisins,

en í þeim var Halldór farinn að dýrka stíl fornsagna, sem hann fyrirleit, meðan hann var að skrifa **Vefarann.** Í **Atómstöðinni** má segja að hann hafi fogl og hval af fornsögunum, en hvergi fylgir hann stíldæmi þeirra eins nákvæmlega og í **Gerplu,** og er það að vonum. Eitt af því sem Halldór lærði af fornsögunum var að draga persónur svo að þær fari vel á mynd, ágætt dæmi þess er myndin í **Eldur í Kaupinhafn** af manni sem heldur dýri frá sér í armslengd og reynir að kyrkja það: maðurinn er Danakonungur, dýrið er íslenzka þjóðin. En þrátt fyrir sögulega afturhaldsemi **Gerplu,** þá lætur Halldór tilfinningu loga upp úr á mjög ósögulegan hátt í stuttum ræðum eins og ræðu Kolbaks þræls, er húsfreyja spyr hann hví hann vilji eigi vega menn, og í ræðu Þormóðar, er hann í sögulok loks hittir Ólaf konung.

Ef **Vefarinn** er í ætt við naflaspeglun og yfir-raunsæi (superrealism, surrealism) þá er **Salka-Valka** og **Sjálfstætt fólk** meira í ætt hlutlægrar raunsæi sem á 19. öld var dýrkuð af Balzac og Zola, en breiddist þaðan til Norðurlanda í verkum Brandesar, Ibsens og fleiri. Halldór lýsir svo þessum raunsæisskáldskap að hann sé „Sagnagerð með langdrengnum nákvæmum lýsingum, samfara gagnrýni á raunverulegum staðháttum og manngerðum, beini geiri sínum að borgarastéttinni og hafi á dagskrá siðferðileg vandamál bundin stað og stund.“ Í stórum dráttum getur þessi lýsing gilt um hinar raunsæu bækur Halldórs hér nefndar. Þó þykir honum þetta ekki nóg: „Raunsæisstefnan er í mínum augum ekki sérstakt form; hún getur tekið öll form; hún er umfram allt listastefna eða bókmennta sem hefur áhrif á veruleikann af því að hún á rætur sínar í honum og sinnir þar ákveðinni þörf; listastefna sem hefur áhrif á öldina af því að hún tjáir öldina, andlit aldarinnar, sál aldarinnar, þrá aldarinnar.“ Sem dæmi listamanna af þessu aldarraunsæi nefnir Halldór Picasso málara, Neruda skáld, Brecht leikritaskáld, Chaplin kvikmyndamann. Lítill vafi er á því að Halldór hefur sjálfur reynt að fylgja þessu raunsæi. Þar til heyrir að hann sneyðir hjá ljósmyndun hluta eða manna en reynir í stað þess að túlka hvort tveggja. Hann getur bæði málað með breiðum pensli og rissað með nögl. Aðalatriðið er að myndin lifir og túlkar veruleikann.

Eitt af því sem einkennir kvæði Halldórs og nútímaskáldsögurnar en hittist þó víðar, t. d. í **Íslandsklukkunni** (I—III), eru sérkennilega raunsæir stíldrættir, sem áður munu hafa þótt óbókhæfir (ekki nógu skáldlegir, ekki hæfir í rituðu máli). Hér tilheyrir notkun óbreytts daglegs máls í kvæðunum; gott dæmi er vísan: Mannabörn eru merkileg / mikið fæðast þau smá þau verða leið á lestri í bók / og langar að sofa hjá / og vaxa óðum og fara í ferð / full af söknuði og þrá. / Við fótatak þeirra fagna ég þá finn eg hjarta mitt slá.

Hér er ekkert skáldlegt nema síðustu línurnar, hitt er daglegt mál. Annað gott dæmi er: hið ljósa man, álfakroppurinn mjói. Hið ljósa man er að vísu bókmál, gæti verið úr

rímum, en álfakroppurinn mjói er daglegt mál, hafið í skáldlegt veldi af Halldóri. Aðrir mundu hafa sagt huldukonan granna, ef þeir ætluðu að verða skáldlegir. Sem frumlegur tískuhöfundur sneyðir Halldór hjá því, annars væri hann líklega hvorki tízkuhöfundur né frumlegur. Þetta er mikið vandamál allra tízkuhöfunda, eins og einn þeirra William Sanson "Speaking of Books" játar (í New York Times, Book Review, 4. des. 1955).

Af sama toga er það spunnið að Halldór, eins og aðrir höfundar, verður að heyja sér orðaforða af hriflingabjörgum hvaðanæva, enda mun hann orðfleiri en flestir eða allir íslenzkir höfundar. Þetta kemur skemmtilega fram í **Gerplu** þar sem orðaforðinn er að sjálfsögðu úr fornu máli bæði heimaunnu og að fengnu úr latínu, frönsku, írsku og gerzku. Írsku munkarnir hýrast í mustum, slegnir máláttu.Grímkell byskup er vígður á torgi í Rúðuborg innan um kálkrist og unjan, en ekki vitu vér hvaðan kálkristur er kominn, nema gróið hafi í frjórri kristlegri ímyndun Halldórs sjálfs.

Íslendingar hafa löngum verið skammakjaftar bæði í skáldskap og í pólitík, og er það aðalsmerki ádeilu skálda á öllum tímum, en Halldór er lítill eftirbátur feðra sinna í þessu efni ef hann vill það við hafa, þótt allra manna sé hann kurteisastur heim að sækja og í viðkynningu. Enda hefur Halldór skrifað „að eins og manni ber skylda til að slátra snillingnum í sér, þegar hann er í samkvæmi, þá ber manni enn meiri skylda til að skera niður við trog sjentilmanninn í sér, þegar maður sezt niður við að skrifa." Þetta heilla ráð gaf hann Ragnari Kvaran 1929. Enn fremur fann Halldór, þegar hann var í Californíu, spakmæli eftir Emerson, Ameríkuvitring, sem honum þótti heldur mergjað:

"If you would be a man, speak what you think to-day in words as hard as cannon-balls, and to-morrow speak what to-morrow thinks in hard words again, though it contradicts everything you said to-day."

Halldóri hefur eflaust fundist að þetta ætti ekki illa við sig sem höfund **Vefarans** og **Alþýðubókarinnar,** sem hann var þá að vinna við. En satt að segja hefur Halldór aldrei skort stór orð og hörð, þegar hann þurfti á þeim að halda.

Tvennt er það enn í listaraðferðum Halldórs sem vert er að benda á en það er táknlist hans og andstæðulist.

Hér skal farið nokkrum orðum um táknvísi í list. Hún hefur um aldir verið samgróin list kaþólsku kirkjunnar eins og þeir vita, sem litið hafa í fornar íslenzkar hómilíur eða Meistara Jón, eða lært kristnar dæmisögur við móður kné. Halldór sökkti sér niður í þessa kristnu táknvísi á þeim árum sem hann var kaþólskur: öll kaþólska messan er táknmál frá upphafi til enda. Táknvís list er andstæð raunsærri list, en á vestrænum miðöldum voru tæplega aðrar raunsæar bókmenntir til en Íslendingasögur; í þeim koma táknmál og dæmisögur eins og skrattinn úr sauðarlegg. Allt þetta sá Halldór með skyggnum augum listamanns, þegar hann fór

að heyja sér listbrögð úr Íslendingasögum:

„Raunsæi og sannskynjun er miðaldaskáldi ókunnugt áhugamál, enda á hvaða tíma sem er óskiljanleg hugmynd þeim manni sem álítur tunguna tæki til að lofa guð og efla dýrð hans . . . Vestrænn skáldskapur virðir því aðeins hlutinn, yrkisefnið, að hann megi þjóna að boða annað en sjálfan sig, að hann tákni annað en hann er.“

Upphaf raunsæi á Vesturlöndum má rekja til endurreisnarstefnunnar. Í Hómer og höggmyndum Grikkja kunnu menn að dá hluti og menn eins og þeir voru, og á endurreisnartímabili fóru menn að hafa gaman af raunsæum æfisögum einkennilegra manna svipuðum **Egils sögu.** Eflaust hafa raunsæir drættir fylgt nýklassíkinni eða upplýsingarstefnunni, en færra hefur verið um þá í rómantíkinni, úr því Frakkar gerðu uppreisn gegn henni með realismanum eða raunsæisstefnunni, sem áður er nefnd. Þegar ný alda reis eftir þetta þá kölluðu Frakkar hana symbólismus eða táknstefnu, eflaust af því að táknvísin var drjúgur þáttur hennar. Guttormur J. Guttormsson er einhver hreinræktaðasti táknvísimaður meðal Íslendinga. Á Norðurlöndum var Jóhannes Jörgensen, kaþólskur lærifaðir Halldórs, táknvís höfundur. En milli stríða varð raunsæin aftur hávær, bæði yfirraunsæi og superrealismus þeirra Frakkanna og James Joyce og raunsæi í ádeiluritum, sem þá var nóg af, hvort sem hún var hálfneikvæð eða trúarleg eins og hjá Aldous Huxley, eða hvort hún varð sósíalistisk eins og í ritum Upton Sinclair, Sinclair Lewis og Halldórs Kiljans Laxness. Þess má enn geta að á síðari árum hefur táknvísi verið rannsökuð af heimspekingunum Ernst Cassirer (1874—1945, **Ritgerð um manninn** 1944) og Susan K. Langer (**Heimspeki í nýrri tóntegund,** 1942), hin síðari bókin í tuttugu og fimm senta útgáfu amerískri. Þessir spakvitringar kveða skýrt á um það að orð séu ávalt og aðeins tákn þess er þau merkja og eigi aðeins tungumál manns heldur líka helgisögur og siðir, trú og guðfræði, saga og vísindi séu ekki annað en táknkerfi mikil.

Með uppeldi Halldórs í þessu aldarumhverfi er ekki að furða þótt táknvísin renni viðstöðulítið úr penna hans ekki síður en raunvísin, enda er verk hans ef vel er að gáð fullt tákna og stórmerkja.

Ef litið er á söguhetjur Halldórs, þá táknar Salka-Valka óspillta alþýðu í þorpum Íslands, Ugla þá óspilltu sveitaalþýðu, sem er að flykkjast til Reykjavíkur. Bjartur táknar einyrkja landsins, sem á öllum öldum hefur lapið sultinn úr skel, og eigi aðeins á Íslandi heldur um heim allan.

Ólafur Ljósvíkingur táknar ljós andans meðal íslenzkrar alþýðu og það guðs lamb sem burt ber heimsins synd og kvelst fyrir veröld alla og með veröld allri.

Jón Hreggviðsson táknar eitilhörku íslenzkrar alþýðu ódræprar, hið ljósa man draum hennar og stolt, Arnas Arnæus mannvit hennar og speki.

Sigurlína á leið suður táknar alþýðuna í hamingjuleit eins og inn-

flytjandinn til Nýja Íslands, sem yfirgefur gamla landið í von um það að hið nýja taki hinu gamla fram.

Þjóðsagan um Kólumkilla og Gunnvöru táknar öfl þau náttúrleg og ónáttúrleg, sem alþýða manna á alltaf við að stríða, ekki sízt einyrkinn í heiðinni.

Hér er komið að mikilsverðu atriði í táknvísi Halldórs. Hann lætur smáheim sinn, Ísland, kotið í heiðinni, tákna veröld alla, mikrokosmos tákna makrocosmos. Með því gerir Halldór sögur sínar að dæmisögum alheims, en það er eitt af frumskilyrðum alheimsvinsælda og alheimsverðlauna.

Að lokum er komið að andstæðunum í list Halldórs og stíl og er ekki við að dyljast, að þær eru geysiviðamikill þáttur í list hans enda rammgróin í eðli hans.

Ef litast er um persónulista hans þá er algengt að sjá fólk hans spyrt saman eftir uppskriftinni, sterkur: veikur. Þannig er Salka-Valka sterk, móðir hennar veik á svelli, Arnald, piltinn hennar, vantar tilfinnanlega bein í nef. Bjartur í Sumarhúsum er sterkari en andskotinn Kólumkilli og íslenzk náttúra í veðraham, Ásta Sóllilja, „dóttir" hans, veik eins og liljan nafna hennar. Þótt Bjartur sé harður þá vorkennir hann henni og ann henni. Af því að Ólafur Ljósvíkingur er vorkunnsemi til manna holdi klædd þá getur hann ekki skilið við flogaveika heitkonu sína þótt hann dragist að Jórunni, sem er sterk eins og Salka-Valka. En að lokum fórnar hann lífi sínu á altari fegurðarinnar. Þeir Ólafur og Örn Úlfar eru mestu andstæður: í þeim mætast kvalráð kristileg heimspeki Ólafs og bjartsýnn kommúnismi Úlfars. Ugla, hin heilbrigða dóttir sveitanna, hefur áður en varir tvo menn á fingrum sér, sem báðum hefur orðið hætt í hrundansi eftirstríðsára: unga sveitamanninn, sem enn hefur ekki lært listina að stela samkvæmt lögum og lendir því í tukthúsi, og hinn hámenntaða borgara sem löngu er kominn í flokk þeirra manna sem lögin setja en hefur misst alla trú á lýðræði sínu. Hann vildi því helzt strjúka úr landi með Uglu, en í stað þess „selur" hann land sitt.

Jón Hreggviðsson, sem serður tröllkonur á öræfum og prestsmaddömur í Amsturdammi á konu heima á Rein sem narir á spítelsku skari. Hið ljósa man stefnir kvenna hæst í ást sinni en lendir á mesta drykkjusvola landsins.

Andstæður í atburðum og hlutum eru ekki síður algengar. Til dæmis má nefna lestur prests yfir deyjandi barni í Sölku-Völku, frábæra viðhöfn í draugajarðarförum Péturs Þríhross, prúðbúið stórmenni landsins samankomið á Rein, þar sem Arnas Arnæus dregur **Skáldu** fram úr rúmbotni holdsveikrar kerlingar, flakkarar og sakamenn á Þingvöllum, hið ljósa man í tötrum á sama stað. Náskyldar þessum andstæðum eru andstæður tilfinninga, sem oft spretta upp úr slíkum kringumstæðum: viðkvæmni blandin hranaskap.

Aldrei verður andstæðuleikur Halldórs þó fullkomnari og áhrifameiri en þar sem hann í glettvísi sinni beitir burleskum, barokkum

eða gróteskum andstæðum og öfugmælum til þess að ganga fram af lesendum sínum og láta þá eftir gapandi og dolfallna, óvitandi hvort þeir eigi að bregðast við með hrinum eða hrosskæti. Halldór hefur verið meistari í þessari öfugmælalist síðan hann skrifaði **Vefarann**. Einkum hefur honum látið að draga skopmyndir í ljósi veruleikans af mönnum sem hafa ósveigjanlega trú eða heimspeki: kaþólsku Vefarans, sjálfstæði Bjarts, hetjuskap Þorgeirs Hávarssonar. En í **Gerplu** er það jafnvel ekki hetjuskapurinn gegn veruleikanum einum, heldur líka gegn kristnum dómi miðalda og gegn frumstæðum kommúnisma Grænlendinga. Þetta gerir **Gerplu** að óvenjulega margrödduðu listaverki og skemmtilegu. Í öfugmælaleik þessum hefur Halldór lengi minnt á Cervantes, enda hefur **Don Quijote** jafnlengi verið uppáhaldsrit Halldórs sjálfs. Hvort hann lifi það að lýsa sjálfum sér sem Don Quijote sósíalismans er eftir að vita, en engin sólarmerki benda í þá átt, þótt margir andkommúnistar mundu bíða þess með eftirvæntingu.

Til skýringar þessari andstæðulist Halldórs mætti segja að hann hefði lært hana við kné fóstru sinnar, íslenzkrar náttúru, þar sem á leikast eldur og ís, langdegisbirta og skammdegismyrkur, stórhríð og fögur uppstytta, fjöll og dalir, svört apalhraun og græn engi, allt þetta landnám trölla, dverga, drauga og huldufólks auk þeirra útilegumanna, sem Halldór trúir ekki á, og hins margslungna stóreinkennilega fólks, sem Halldór ekki aðeins trúir á heldur hefur gert ódauðlegt í verkum sínum.

Eitt er víst að Halldór skrifar ekki svo í andstæðum af lærdómi einum, þótt forlærður sé, heldur af því að andstæðurnar búa í hans eigin barmi. Og er þá farinn hringur að upphafi þessa máls, þar sem á það var bent að um hann togast útþrá Íslendings heima en heimfýsi hans erlendis, það er, Íslendingurinn og heimsborgarinn berjast um sál hans. Þegar hann skrifaði **Vefarann** virtist heimsborgarinn ætla að hafa yfirhöndina, en síðan hann fór að leggja sig eftir sögu þjóðar sinnar og einkum eftir Íslendingasögunum þá hafa rætur hans við heimaland sitt gróið svo að tæplega sýnist verða um bætt. Hann tekur **Ólafs sögu helga** fram yfir guðspjöllin og sýnir þar með að í raun og veru hefur hann sama bókmenntasmekk og rammíslenzka kerlingin sem sagði: „Ekki er gaman að guðspjöllunum, enginn er í þeim bardaginn.“

Enn hefur ekki verið minnst á eina andstæðu, og hana ekki lítilsverða: reipdrátt milli listar hans og trúar. Á kaþólsku árunum var hér mikil hætta á ferðum; hann ætlaði sér að fórna list sinni eins og öðru á altari Guðsins og verða óskrifandi meinlætamaður. En síðan hann tók sósíalisma hefur sú hætta aldrei komið til greina; hann hefur aldrei látið sér til hugar koma að hætta að semja skáldrit til þess að kasta sér inn í stjórnmálabaráttuna, en hins vegar aldrei bundist þess að leggja þar orð í belg sem honum þótti nauðsyn til bera, og mun andstæðingum hans í skoðunum hafa þótt hann þar nógu skeleggur samt.

Ef litið er á kárínur þær er landar hans hafa lagt á hann fyrir vantrú hans þá hafa þær eigi orðið meiri en skerðing skáldastyrks 1940 og má þar vega á móti bókmenntaheiðurspeningur sá er honum var veittur að Heimsfriðarráði í Vínarborg 1953.

En sannleikurinn er sá að þótt Halldór sé umdeildur spámaður og ádeiluhöfundur, þá hefur hann sniðið ádeilunni í skáldverkum sínum eins þröngan stakk og persónur og listræn lög skáldsins leyfðu. En þetta sýnir aftur að það er ekki alveg út í hött er hann sjálfur segist vera meiri listamaður en heimspekingur, svo sem vikið var að áður.

Og þetta er afdráttarlaus sannleikur. Halldór er svo mikill listamaður að hann fær Nóbelsverðlaunin þrátt fyrir heimspeki sína og þrátt fyrir „austræn" friðarverðlaun tveim árum áður. Með því að veita honum Nóbelsverðlaunin setti sænska akademían Halldór á bekk með Snorra og höfundum Íslendingasagnanna. Þar á hann heima og á þeim bekk mun hann kunna vel við sig þegar hann safnast til feðra sinna.

**Bækur um Halldór Kiljan Laxness:**

Óprentuð æfisaga til 1930 eftir Stefán Einarsson. Skrifuð eftir blöðum og bréfum sem sum eru nú týnd í frumriti.

Den Store Vavaren eftir Peter Hallberg. Raben & Sjögren/Vi-Stockholm 1954. Skrifuð eftir sömu heimildum og handriti S. E.

Halldór Kiljan Laxness eftir Peter Hallberg. Albert Bonniers Förlag Stockholm 1952. Á íslenzku:

Peter Hallberg, Verðandi-bókin um Halldór Laxness. Helgafell. Reykjavík 1955.

---

### VAÐLAHEIÐI 1953

Fannaklæðum fleygir lá,
fjallasvæðið hlýnar.
Bláar slæður brjóstum á
bera hæðir þínar.

### Í DALNUM

Bygðin hljóð, en blundar drótt;
bláar móður renna.
Yzt á slóðum, albjört nótt,
aftanglóðir brenna.

### DALURINN KVADDUR

Slítur fund og ferðastund;
fóstran undurblíða.
Kveð þín sund og græna grund;
gil og lundinn fríða.

### ÚR MANSÖNG

Móðurást ég man þig bezt;
meinin sást og græddir flest.
Móðurástin aldrei ferst;
engum brást, en gefur mest.

Engir hæði óvitann;
allir fræði líttsigldann.
Ilt er að hræða óvitann.
Yndi að glæða sannleikann.

Leggjum smáum liðið þrátt.
Loka fláum vísa á gátt.
Virðum háa og vera í sátt.
Verndum þá, sem eiga bágt.

Gleðjum hann sem hrygðin slær.
Heillum þann er sigur fær.
Eins er mannúð öllum kær;
ástin sanna og vinablær.

**Ásgeir Gíslason**

GUTT. J. GUTTORMSSON:

# Torfbærinn

Þó að yfir skjáinn skefldi,
skæfi jafnvel hurðum innar,
félagslífið yndið efldi
inni í torfbæ sálar minnar.

Hann gegn vo og veðrablaki
verndaði alla sem hann hýsti,
þegar hríðin hvein á þaki,
hvíta myrkrið úti lýsti.

Inni lítil lýsiskola
látúnsfögur hékk á veggnum,
gerði að sölum hallar hola
hólinn, sem hún lýsti gegnum.

Listin var hinn ljúfi gestur,
langra kvelda hæfði vökum,
skinnhandrita skemtilestur,
skáldin létu fjúka í stökum.

Gesturinn kvað með glöðum snótum
gamalkunnu rímnalögin,
eftir sínum eigin nótum,
undir léku hjartaslögin.

Snúningsþytur snælda og spólna,
snildar-strokhljóð kambatinda
kliðuðu á vökum vetrarsólna
værukæru næði að hrinda.

— — —

Listin, gesturinn góði, er farin,
gengin úr leiknum eins og hinir
gömlu í anda — allur skarinn
aðstoð hennar og mínir vinir.

Ei er mér rótt í rökkursvefni,
raunalegt er mér að vakna;
vinnan er hætt, það vantar efni,
verðmætanna fornu eg sakna.

Betra væri að vetur strangur
veifði engum trjám en röngum.
Dasað er alt nema draugagangur
dimmra nátta frammi í göngum.

---

## HORNAMÚSÍK

Kveðið þegar fréttin kom, að hinn 22. júní síðastl. hefði þjóðsöngur Íslendinga verið leikinn í Reykjavík á hundrað og tuttugu horn.

Ef Kanadamenn eru kollótt þjóð
og kallaðir hornskelt og afhyrnt stóð,
það hryggir huga vorn.
En mættum við á það minna á ný,
að menning hvers lands fer eftir því
hve margir hafa horn.

DR. TRYGGVI J. OLESON:

# Skúli Johnson

Hinn 1. júní var ég staddur í Toronto á þingi háskólakennara (Learned Societies of Canada). Eftir hádegi varð mér reikað inn í salinn þar sem unnið var að skrásetningu erindreka. Hitti ég þar fyrstan manna dr. William M. Hugill, kennara í latnesku og grísku við Manitoba háskóla. Tók hann mig strax afsíðis og sagði mér þá harmafregn, að Skúli prófessor Johnson væri látinn. Mér kom fregnin mjög á óvart. Ég hafði að vísu vitað, að Skúli hafði verið veikur í tvo eða þrjá mánuði, en að hann væri svo alvarlega sjúkur hafði mig ekki grunað.



Ég fór strax að hugsa um kynni mín af Skúla. Við hittumst fyrst, þegar ég hóf að lesa latínu til meistaraprófs við Manitoba háskóla haustið 1934. Ég gleymi því aldrei, hve vel hann tók mér og fjörlega, þegar ég kom til hans í fyrsta tímann, og brátt urðum við góðir kunningjar bæði utan skóla sem innan. Þó er mér hann minnistæðastur sem kennari. Aldrei hefi ég haft annað eins yndi af að lesa latínu og hjá honum. Hann var latneskum bókmenntum þaulkunnugur og elskaði þær. Hann ljómaði af fjöri og komst í ásmegin, þegar hann las fyrir okkur nemendunum annað hvort á latínu eða ensku. Þá var eins og maður sæti undir ræðu einhvers hinna gömlu rómversku málsnillinga. Skúli hafði hreimmikla rödd, og það glumdi í salnum, þegar hann las t. d. úr ræðum eftir Cicero, en röddin gat einnig orðið blíð og viðkvæm, þegar hann las tilfinningaríkt kvæði eftir Propertius eða Tibullus. Við stúdentarnir sátum oft töfraðir undir lestri Skúla.

Skúli Johnson var maður sem lét sér ekkert mannlegt óviðkomandi **(nihil humanum mihi alienum puto)**. Utan kennslustofunnar ræddi hann oft við mig um allt milli himins og jarðar. Þó voru það einkum bókmenntir og þá sérstaklega ljóðaþýðingar hans, sem bar á góma. Skúli var mjög ljóðelskur maður og hafði yndi af að glíma við þýðingar á ensku úr latínu, grísku og íslenzku. Ég efast um að sá dagur

hafi liðið, að Skúli þýddi ekki að minnsta kosti eitt eða tvö vers. Þá snerist og samtalið oft að íslenzkum félagsmálum. Þótt Skúli léti aldrei mikið á sér bera í íslenzkum félagsskap, fylgdist hann samt ætíð með því, sem þar var að gerast, og lét sér annt um þau mál. Hann tók oft virkan þátt í ýmsum áhugamálum landans hér, en lengstum í þeirri kyrrþey, að afskipti hans virtust minni en þau í rauninni voru. Sem íslenzkukennari við Wesley College og unnandi og talsmaður íslenzkra fræða, var honum mjög annt um íslenzkuna sem námsgrein við háskólann, enda lagði hann íslenzka kennarastólsmálinu margvíslegt lið, þegar það mál komst á döfina. Svo sem kunnugt er, var Skúli traustur stuðningsmaður Icelandic Canadian Club og Tímarits félagsins og var heiðursforseti þess félagsskapar síðustu árin. Þegar minnisvarði Stephans G. Stephanssonar, sem Historic Sites and Monuments Board lét reisa rétt hjá Markerville árið 1950, var afhjúpaður, var Skúli fenginn til að flytja aðalræðuna. Stjórn Íslands mat starf hans í þágu íslenzkra mála og sæmdi hann riddarakrossi Fálkaorðunnar árið 1939.

Ég dvaldist fjarri Winnipeg á árunum 1938—1946, en er ég réðst að United College haustið 1946, hófst aftur viðkynning okkar Skúla og jókst hún þegar ég gerðist kennari við Manitoba háskóla haustið 1950. Sáumst við þá að heita mátti á hverjum degi. Snæddum við oft dögurð saman og þá oft með Finnboga prófessor Guðmundssyni. Þótt Skúli væri þá kominn yfir sextugt, mundi margur hafa ætlað að við Finnbogi værum eldri mennirnir, slíkur var gáskinn í Skúla í samræðum undir borðum. Má víst segja, að síðustu ár ævi sinnar hafi Skúli leikið við hvern sinn fingur og heilsa hans hafi verið betri en hún var fyrir 20—25 árum, þegar ég var nemandi hans.

Allt þetta kom mér í hug, er ég fékk fregnina um lát hans. Ég saknaði góðs og hollráðs vinar, og ég vissi, að Manitoba háskóli hafði misst einhvern bezta kennara, er hann hefur nokkurntíma átt. Ég ætla, að fáir hafi haft slíkt yndi af að kenna og Skúli, og mun sú aðalorsök þess, ásamt hinum ágætu gáfum hans, hve farsæll kennari hann var og mikils metinn af nemendum sínum. Og ekki var hann síður vel metinn meðal samkennara sinna og starfsmanna skólans, enda fórnaði hann skólanum öllum starfskröftum sínum. Má geta þess, t. d. að vorið 1954, þegar Learned Societies of Canada héldu þing sitt í Winnipeg í boði Manitoba háskóla, var Skúla falin aðalumsjón með viðtökum öllum og fyrirgreiðslu, en þinggestir skiptu hundruðum, og var það mál manna, að aldrei hefði verið betur tekið á móti gestum á sams konar þingi.

Skúli Johnson var fæddur 7. september 1887 í Hlíð á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu. Faðir hans, Sveinn (f. 25. sept. 1851), var sonur Jóns Ólafssonar í Gottorp í Vesturhópi í Húnavatnssýslu og konu hans Helgu Skúladóttur. Foreldrar Jóns Ólafssonar voru Ólafur Ólafsson á Súluvöllum á Vatnsnesi og kona hans Guðríður Jónsdóttir, en foreldrar Helgu í Hlíð voru Skúli hreppstjóri

Sveinsson á Efri-Þverá í Vesturhópi („vaktara" í Reykjavík, Jónssonar) og kona hans Guðrún Björnsdóttir bónda s. st., Loftssonar. Bróðir Helgu var séra Sveinn Skúlason, síðast prestur á Kirkjubæ í Hróarstungu, Norður-Múlasýslu, og alþingismaður um hríð (1859—67).

Kristín, kona Sveins í Hlíð (f. 2. jan. 1848), var dóttir Sigurðar Sigurðssonar í Tungu og á Geitafelli á Vatnsnesi og konu hans Magðalenu Tómasdóttur. Sigurður var seinni maður Magðalenu, en hún átti áður Gunnar Oddsson í Nesi. Foreldrar Sigurðar voru Sigurður Guðmundsson á Geitafelli og kona hans Solveig Bjarnadóttir.*)

Skúli fluttist vestur um haf með foreldrum sínum árið 1889, og settust þau að í Þingvallanýlendu. Þar dó faðir hans skömmu síðar, en móðir hans andaðist 25. des 1908. Árið 1895 var Skúli tekinn til fósturs af frænda sínum, Jóni Þorsteinssyni (f. 16. okt. 1865), og seinni konu hans Guðrúnu Jóhannesdóttur frá Rauf á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu. Foreldrar Jóns voru Þorsteinn Þorsteinsson og Sigríður Jóhannesdóttir, sem bjuggu að Vatnshorni í Vesturhópi í Húnavatnssýslu. Jón kom til Canada 1887 og setti um aldamótin upp reiðhjólaverzlun í Winnipeg og starfrækti síðar hótel á Gimli.

Skúli hlaut alþýðu- og miðskólamenntun í Þingvallanýlendu og Winnipeg. Háskólanám hóf hann árið 1906 við Wesley College. Hann var frábærlega góður námsmaður, og fór strax að bera á mörgu í fari hans, sem einkenndi hann alla ævi. **Heimskringla** skrifaði um hann 6. júní 1907 á þessa leið: „Skúli . . . er hár vexti, allt að sex fetum og sæmilega þrekinn eftir aldri og kraftalegur. Hann er ljóshærður og bjartleitur. Breiðleitur í andliti og höfuðstór. Augun eru meðalstór, móleit að lit.

Að ytra útliti ber þessi piltur engin þau einkenni, er tilkynni gáfur hans, en þegar hann tekur mann tali, brennur andlegt fjör úr augum hans, er lýsir ljósu og fjörugu hugsanalífi og skörpum skilningi. Hann er sagður stálminnugur."

Blaðið dáir og íþróttahæfileika Skúla. Hann var þá talinn með beztu fótaboltamönnum í Winnipeg og skautamaður mikill. Hann iðkaði íþróttir alla ævi og sérstaklega „golf" á seinni árum.

Árið 1909 hlaut Skúli þann sérstæða heiður að vera valinn Rhodes Scholar. Var hann sá sjötti frá Manitoba og fyrstur Íslendinga til þess að hreppa Rhodes Scholarship. Aðeins einum öðrum Íslendingi, Jóseph dómara Thorson, hefur fallið þessi heiður í skaut, en það var árið 1910. Skúli sigldi því til Englands og var við Oxford háskólann árin 1909 til 1912. Lék hann þar „lacrosse" (en margir ætla, að sá leikur sé upphaflega runninn frá knattleik fornmanna á Íslandi) með flokki þeim, er keppti við Cambridge háskóla flokkinn.

Skúli lauk ekki prófi við Oxford vegna heilsubrests, en árið 1913 útskrifaðist hann frá Mantoba háskóla

---

*) Ofangreindar upplýsingar um uppruna og ætt Skúla á ég að þakka séra Jóni Guðnasyni skjalaverði í Reykjavík. Samkvæmt þeim var Skúli fæddur (hér er farið eftir kirkjubók Melstaða) um það bil ári fyrr en hann og aðrir höfðu talið hingað til.

(B. A. Hons.), og 1917 fékk hann meistaranafnbót (M. A. Hons.) frá sama skóla. Prófritgjörð Skúla hét **A century of Icelandic sonnet writing**, og má geta þess, að á árinu 1915 má finna í **Heimskringlu** nokkrar íslenzkar sónettur í enskri þýðingu Skúla jafnframt frumsömdum sónettum á ensku.

Kennsla var ævistarf Skúla. Hann kenndi fyrst í eitt ár (1914—15) við St. John's High School í Winnipeg. Árið 1915 byrjaði hann kennslu í grísku og latínu við Wesley College og hélt henni áfram þar til 1927. Þegar séra Friðrik J. Bergmann dó 1918, tók Skúli við íslenzkukennslu á Wesley. Frá 1920 þar til 1927 var Skúli deildarstjóri (Dean of Arts and Science) á Wesley, og á tímabilinu 1927—32 átti hann sæti í stjórnarnefnd skólans (Board of Regents).

Skúli var skipaður kennari í grísku og latínu við Manitoba háskóla árið 1927 og formaður þeirrar deildar 1940. Hélt hann þeirri stöðu til dauðadags. Árið 1954 veittist honum sá heiður að vera kjörinn meðlimur Royal Society of Canada. Hafa aðeins örfáir Íslendingar verið kosnir meðlimir þess virðulega félagsskapar.

Eins og ég tók fram, hafði Skúli ekki meira yndi af öðru en kennslu og þar næst af ritstörfum. Hér er þess ekki kostur að greina frá ritstörfum hans, enda væri það ærið efni í langa ritgerð. Hann þýddi ógrynni öll úr latínu, grísku og íslenzku. Mikið af þýðingum Skúla á íslenzkum kvæðum hafa birzt í íslenzku blöðunum, **Lögbergi** og **Heimskringlu.** Af þýðingum hans úr latnesku og grísku hefur lítið annað birzt en **Selected odes of Horace**, er prentuð var 1952 að nokkru að tilhlutun Manitoba háskóla.

Eitthvað orti Skúli af frumsömdum ljóðum en ekki hefi ég séð mikið af þeim, enda ætla ég, að fá þeirra hafi verið prentuð. Ég minnist samt eins kvæðis, er birtist í Heimskringlu 16. des. 1915, af því að í því speglast ást Skúla til Íslands. Skúli var aldrei með neinn þjóðargorgeir, en ekki leikur það á tveim tungum, að hann unni Íslandi og íslenzkri menningu. Tek ég hér upp nokkur erindi úr þessu kvæði, sem er ort til Íslands:

*I did not know thee, yet my parents knew*
*Thy native air and nature undefiled.*
*By thy stern weaning they to strength uppgrew*
*and won their worth — and I was their true child.*

*I did not know thee, yet the history*
*Of heroes that with thee have lived and died*
*Was all idited on my memory*
*And o'er their fate I oft in spirit cried.*

*I did not know thee, yet the immigrants*
*To this our home, from thy far fastness borne,*
*Brought o'er with them a breath that ever chants*
*Of wider view and winsome northern bourne.*

*I did not know thee, yet I knew that they*
*Amidst thy mountains sights had seen their God*
*In sacredness and grandeur; still they pay*
*A steadfast worship to the strands they trod.*

*I did not know thee, yet a diadem*
*On justice-furbished Freedom thee I thought*
*More precious far than is earth's fairest gem*
*Because thou wert by worthy effort bought.*

*I did not know thee, yet my dreams of thee*
*Midst dark of night or glare og gaudy day*
*Burnished my wish to watch the galaxy*
*Of glorious sights thy sea and shores display.*

Í óbundnu máli liggur og mikið eftir Skúla. Er þar fyrst að telja fræðigreinar, sem birzt hafa í mörgum tímaritum, um ýmislegt í klassiskum bókmenntum. Þá reit Skúli margt um íslenzk mál, bæði íslenzkar bókmenntir og sérstaklega um ýmsa þætti úr sögu og bókmenntun Vestur-Íslendinga, og er margt af því prentað í **Icelandic Canadian.** Skúli annaðist ritstjórn bókarinnar **Iceland's Thousand Years,** sem er safn af fyrirlestrum, er Þjóðræknisfélagið og Icelandic Canadian gáfu út, en voru upphaflega fluttir á kvöldskóla hér í Winnipeg, er Icelandic Canadian Club starfrækti.

Skúli kvæntist árið 1921 Evelyn Margaret Truesdale, konu af írskum ættum. Þau hjónin eignuðust tvo sonu. Sá eldri Harold Alexander Craigie (þeir Sir William Craigie og Skúli urðu miklir vinir á þeim árum, sem Skúli var í Oxford) er jarðfræðingur að menntun, en vinnur nú hjá Great West Life Assurance Company. Hinn yngri, Richard, er útskrifaður í rafmagnsverkfræði og hefur nýlega verið skipaður kennari við verkfræðideild Manitoba háskóla. Er gott til þess að vita, að hann hefur þannig fetað í fótspor föður síns sem kennari, þótt í annarri grein sé.

Með Skúla Johnson er til grafar genginn góður drengur. Það er skarð fyrir skildi í fylkingum Vestur-Íslendinga. Manni finnst eitthvað vanta í sali háskólans, þar sem hans hreimmikla rödd heyrist ei lengur. En áhrifa hans gætir enn hjá þeim hundruðum nemenda, sem lærðu hjá honum að meta hin sígildu verðmæti gríska, latneskra og íslenzkra bókmennta og hjá öllum þeim fjölda vina, sem þekktu og dáðu mannkosti hans.

*Orðstír deyr aldregi*
*hveim er sér góðan getr.*

PÁLL S. PÁLSSON:

# Gömlu skórnir

Hve oft ég hef hlotið að skifta um skó
mér skildist fyrst núna, er af mér ég dró
í húminu hversdags-lífs skóna.
Þeir lang-oftast urðu að labba í for,
en leirinn og sandrokið fyltu hvert spor.
Um sumar og haust og um vetur og vor
það var þeirra hlutskifti að þjóna.

Sem þroska-ár mannsins er skóröðin skift,
þeim skóm hefir fóturinn eitthvert sinn lyft
frá jörðu til göfgari geima.
Hér fyrst eru barns-skórnir fagrir sem gull
og fjölþættir líkt eins og ómálgans bull,
en fisléttir, hlýir og fínir sem ull
á fjallgengnu lömbunum „heima".

Í móður-kjöltunni mynduðust spor
til margs konar starfa, því þar átti vor
hver tilfinning, taug og hver neisti,
og þau snéru öll til hins ónumda heims,
hins óþekta, bíðandi sálræna geims,
til lífs-gleði, fátæktar, sorgar, og seims,
til svika, til smámensku, hreysti.

Og smaladrengs-skórnir hér skarta sér vel,
þá skó hina beztu án vafa ég tel,
því þeir voru liprir og léttir.
Ef skóvörpin slitnuðu og þvengirnir, þá
var þægilegt spotta af snæri að fá,
með „hjálp" þá „í viðlögum" heim mátti ná,
þeir hlífðu, þó væri ekki nettir.

Og spurninga-skórnir „til spari“ eru næst,
um spor þeirra í sandinum lítið ég fæst,
þeir féllu víst ekki að fæti.
Ég spurði svo margs, en ég fræddist um fátt,
ég fann að ég hafði ekki skilningsins mátt,
svo ef til vill seinna, en ekki svo brátt,
ég öðlast gat „spekingsins“ sæti.

Næst fermingar-skórnir, svo fagrir að sjá,
með fjaðrir á hliðum og verjum á tá,
til hlífðar mót hraungrjóti og frera.
Á göngunni um mannlífsins merkur og hjarn
er margt sem að fella vill hálfþroska barn.
En þeim, sem er einrænn og óhlýðni-gjarn
mun erfiðast skó þá að bera.

Og mentavegs-skóna hér má einnig sjá,
ei merki þar finnast á hæl eða tá
að þeir hafi á fót verið færðir.
Með óslitna sóla, hjá ættbræðrum hér,
þeir una í friði við það sem „nú er“,
því hitt, sem að „orðið gat“ enginn víst sér,
því ekki eru skór hér svo lærðir.

Já, dans-skórnir, þeir voru „dýrindis-þing“,
og drúpa nú hljóðir, svo um þá ég syng.
Þeir voru ekki sterkir til starfa.
Er fæturnir þreyttust þeir fundu ekki neitt
til frama, og alstaðar hjá þeim var sneitt.
Þeir hafa víst lífinu í andleysi eytt,
og unnið sér lítið til þarfa.

Sjá vinnumanns-skóna í veglegum sess,
ég veit að þeir njóta að endingu þess
hve þeir voru húsbónda-hollir.

Þeir slitnuðu af erli um húsbóndans hag
um hálf-bjartan morgun, um nótt og um dag,
að koma sem flestu í form og í lag,
sem friðleysi bóndanum olli.

Og næst eru útlendings-skórnir, ja sko,
þá skó ætti að lita og hreinsa og þvo,
því límkvoðan linar og feygir.
Og saumarnir stóðust ei stritið þess manns
er stórhuga kom til hins ónumda lands.
En vonbrigði urðu víst hlutskifti hans.
Um hitt veit ég saga mín þegir.

En giftingar-skórnir mér geðjast hér bezt,
því göfgasta hugsjónin við þá er fest.
Þeir báru mig birtunnar megin.
Um hraungrýti, mela, um holt og um börð,
um heiðar og jökla, um flóa og skörð,
um sanda og öræfi, fjöru og fjörð,
þeir fundu mér greiðasta veginn.

Og útfarar-skóna í húminu hér
ég horfi á löngum, þeir fylgt hafa mér
allt líf mitt til líðandi stundar.
Mér virðist sem beri þeir bruna-sár.
Þau brenna á laun þessi saknaðar-tár,
sem falla á veg okkar ár eftir ár
í einrúmi, er heimurinn blundar.

En heimfarar-skóna ég met einna mest,
því minninga-keðjan er við þá svo fest
að ekkert má afl hana slíta.
Í gleði og raunum þeir reynst hafa bezt.
Er röðull að lokum í öldurnar sezt
ég þarf ekki að biðja um burtföngu-frest
að binda minn þveng eða hnýta.

# Björgunin

Ungi maðurinn, fölur af andvökum og illa til reika, kemur fram á gilsbrúnina og horfir niður í hvínandi vatnsfallið. Honum er auðsjáanlega sjálfsmorð í hug:

Já, hví ekki að enda þessar andvökur með eilífum svefni? Hingað hef ég oftsinnis áður gengið til að prófa sjálfan mig — hvort ég ónauðugur, óviljugur geti framið sjálfsmorð, og ég hef altaf móti vilja mínum horfið til baka. Í þessu eina tilfelli er mér auðvelt að gera það sem ég vil, en örðugt að gera það sem ég vil ekki. — Á móti vilja sínum er lífið alla æfi sína að drepa sjálft sig, byrjar um leið og það fæðist í þennan heim. Slíkt að gera móti vilja sínum er óeðlilegt. Hitt er alskostar eðlilegt að það drepi sig með vilja — eðlilegt, fyrst lögmál þess er ætíð og æfinlega það að eyðileggja sig, tortíma sér vitandi eða óvitandi — já og það að ástæðulausu. En það, að hafa ástæðu til að fyrirfara sér og gera það viljandi er ekki að aftaka lögmálið, heldur að fullkomna það, vera í eðlilegu samræmi við það.

Hver er þá ástæðan til að ég er kominn hér? Ég finn að það er svolítill hluti af mér, sem er lifandi. Því minna sem lífið er, því minni glæpur að tortíma því, og ef lífið er ekki neitt sem vert er að nefna því nafni, þá auðvitað enginn glæpur. Lífið verður að hafa tilgang til að geta heitið líf. Tilgangslaust og þýðingarlaust líf er í raun og veru ekki neitt — bara núll, sem alt mælir með að þurkað sé burt af hinni svörtu töflu tilverunnar.

Hann lítur nú upp frá vatnsfallinu og horfir í kring:

Þetta núll míns lífs er í tilgangsleysi og vonleysi dregið utan um þessa kvenveru, sem ég elska — ósjálfrátt. Ef ég hefði sjálfur mátt ráða, hefði ég ekki elskað hana. — Það má vera að ég geti borið þessa þýðingarlausu byrði, en ég vil það ekki! Ég leiði minn hest frá þeirri byrði, sem tilveran réttir að mér ótilkvödd og móti vilja mínum. En sjálfsagt hefir tilveran tilgang; hún er með þessu tiltæki að tortíma mér. Ég fullnægi hennar vísdómsfulla vilja með því að fleygja mér fram af björgunum.

Hann lítur nú upp til himins og krossleggur hendurnar á brjóstinu:

Drottinn! Þú hefir neytt mig til að elska stúlku sem ekki vill þýðast mig — ekki getur elskað mig — en óvirðir ást mína og skapraunar mér. Ég þykist skilja tilgang þinn, að þú sért með þessu að ryðja mér úr vegi og til þess hafir þú einhverja ástæðu. Sjálfsagt hefir þú eitthvað mjög mikilsvert fyrir augum, sem ekki er á mínu færi að ráða í eða rannsaka. Læt ég mér nægja að mega verða að vilja þínum. Eins og þú hefir leitt mig hingað, leiðir þú mig fram af brúninni.

Hann gengur fram á gilsbrúnina og ætlar að fleygja sér fram af, en í sama bili kemur maður, auðsjáanlega í vígahug, að baki honum; svíkst að honum og hrindir honum hastarlega. Ungi maðurinn fyllist mótþróa; fellur að sönnu fram af, en nær haldi á viðarhríslu. Undir höggum og sparki aðkomumannsins hefir hann sig upp á brúnina, tekur hinn tökum og fær yfirhöndina:

Blóðhundur! hvað áttu nú skilið að fá? Á ég að fleygja þér fram af brúninni í hefndarskyni fyrir banatilræðið? Nei, dauðinn er of góður fyrir slíkan níðing.

Aðkomumaðurinn svarar með rósemi og stillingu manns, sem liggur undir öðrum og finnur sig yfirbugaðan:

— Ég játa mér til sárrar sorgar að mér mistókst tiltækið; en ég leit svo á í bili, að tilgangurinn helgaði meðalið.

— Það fyrsta sem ég þarf að gera er að koma þér undir mannahendur og láta þig fá makleg málagjöld.

— Tilgangurinn — ef þú vildir hlusta á mig — hygg ég að mundi varpa ljósi á þennan fremur raunalega atburð.

— Svo þú þykist hafa eitthvað þér til málsbótar! Er það?

— Þú þekkir — hérna — sýslumannsdótturina?

— Já, ég held nú það.

Ungi maðurinn reisir nú óvin sinn á fætur, heldur annari hendi um hálsinn á honum og segir ósjálfrátt:

— Hún er sú, sem tekið hefir upp allan huga minn í síðastliðin tíu ár.

— Láttu sem ég þekki það; ég veit það nærri of vel. Í tíu ár hef ég sjálfur elskað hana þessari vonlausu og, að því er virðist, tilgangslausu ást. Eiginlega hefir mér fundist líf mitt marklaust og þýðingarlaust alt þar til í morgun.

— Hvað skeði?

— Allir voru búnir að frétta um sálarstríð þitt og andvökur undanfarnar nætur, og hvarf þitt í morgun þótti mjög grunsamlegt. Sýslumannsdóttirin varð til að sakna þín; meira að segja, hún harmaði þig hágrátandi og barmaði sér og ugði um örlög þín. Svo haga sér þeir einir, sem elska út af lífinu. Er skemst af að segja, að hún kom til mín, með öndina í hálsinum, og hét á liðveislu mína til að leita að þér og bjarga lífi þínu, ef til svo ólíklegs kæmi að þess þyrfti. Hún tjáði mér að fyrir margra hluta sakir bæri hún mest traust til mín, sér hefði alltaf þótt vænt um mig og hún bæri mikla virðingu fyrir mér að verðugu. Og hún trúði mér fyrir því, að ef hún hefði aldrei kynst þér, þá hefði ég staðið sér hjarta næst; eiginlega hefði það verið þú, sem því var til fyrirstöðu að hún gæfi sig mér á vald. Náttúrlega gleypti ég við þessu og hugði að það sem aðallega þyrfti við til að fá vilja mínum framgengt og fullnægja ást minni væri að ryðja þér úr vegi og varð þess vegna fljótt við bón hennar, að leita að þér dauðaleit. Þú veist nú hvernig fór!

Ungi maðurinn hefir nú slept hálstakinu og heldur en ekki hýrnað á svipinn:

— Ósjálfrátt hefir þú reynst sýslumannsdótturinni trúr og dyggur.

— Er það trúmenska að ég reyndist henni ótrúr?

— Já, af því að með ótrúmensku

aðeins gatst þú framkvæmt það sem hún fól þér að gera.

Með þögulli aðdáun og virðingu fyrir aðkomumanninum sekkur hann sér niður í hugsanir:

Nú loksins gefur mér að skilja tilgang forsjónarinnar. En að hugsa sér allar þær krókaleiðir, sem hún þarf til að koma almættinu við og vilja sínum fram. Hann kunningi hérna var ekkert annað en verkfæri í höndum hennar. Ef hann hefði reynt að aftra mér frá að renna fram af gilsbrúninni er víst um að þá hefði ég fylst mótþróa og það orðið til þess að flýta fyrir mér að framkvæma sjálfsmorðið. Einmitt með því að bjarga mér ekki, hefir hann bjargað mér. Hann hefir borið gæfu til að sannfæra mig um að sýslumannsdóttirin elskar mig. Einmitt það að hún elskar mig, gerir tiltæki hans að góðverki. Líf mitt er ekki lengur eintómt núll; hann, heillakarlinn, hefir sett háan tölustaf fyrir framan það — gefið því gildi. Við, sýslumannsdóttirin og ég, eigum fyrir okkur að verða hjón.

Ungi maðurinn snýr sér nú til aðkomumannsins, sem auðsjáanlega hefir kviðið því sem koma myndi, og ávarpar hann mjög ástúðlega í heyranda hljóði:

— Þú komst fram á réttum stað og tíma eins og heilagur verndarengill. Enginn maður hefir vikið eins vel að mér og þú.

— Mér kemur þetta mjög ókunnuglega fyrir. — Nei, þetta getur ekki annað verið en háð í þér. En eins mætti ég biðja þig, fyrst liggur svona vel á þér, — að þú að minsta kosti dragir alt sem þú getur úr hegningunni, sem mér er áskilin fyrir banatilræðið.

— Vinur minn! hvað ég er þér óumræðilega þakklátur, óendanlega skuldbundinn. Fullkomin laun þér til handa eru með öllu óhugsanleg. En ég get gert gangskör að því nú þegar, að þér séu veitt rífleg verðlaun úr björgunarsjóði Carnegies.

---

**ATHUGASEMD**

Höfundur framanskráðs sögubrots vill ekki láta nafn síns getið. Hann ritaði það, ásamt fleiri smásögum af líku tæi, fyrir 30—40 árum og kveðst hafa vaxið uppúr eða útúr þeim hugsanagangi fyrir langa löngu. „Um ástamál hefi ég ekki hugsað í mörg ár“, segir hann í bréfi, „en sú var tíðin, að ég gerði það svikalaust. Svo þættirnir, eða hvað sem þetta ætti að heita, eru eftir ungan mann, fullan af slíkum draumórum.“ — Rúmleysis vegna birtist nú aðeins einn þessara þátta í Tímaritinu.

Þ. Þ. ÞORSTEINSSON:

# Galdramenn

Til forna þann gáfaða galdramenn,
sem grunuðu menn um kukl,
við brendum hrískesti háum á
af hræðslu við drauganna þukl,
og héldum við gerðum guði þægð
ef gátum við kvalirnar lengt,
með hægfara bruna svo hljóðin sem lengst
til himinsins gætu sér þrengt.

En núna þann gáfaða galdramann,
er getur sprengt helvíti í mul,
með lotningu og hrifningu lítum við á
sem langsýnan fræða þul,
er fjörgi og hlýi okkar fagra heim,
og finni upp ráðin snjöll
sem breyta okkar trúmædda táradal
í töfrandi gleðihöll.

Samt þau eru örlög á okkar jörð,
þótt altaf við breytum til
að ljósið og skuggarnir skiptast á
hvert skapandi stundarbil,
en grátur og hlátur þar ganga á víxl,
og gleði og sorg eru jöfn,
uns föllum við seinast úr fámennri lest,
og flytjum í þögula höfn.

Vor trú er eins margskipt og mannanna skap,
og múgurinn tæpast það veit,
hvort traust hans er meira á gull eða guð,
í gæfunnar tvísýnu leit.
En oftast mun gullið, svo gullbjart og skært,
þar glæstasta sigrinum ná,
því víst er það hægra að hlaupa til þess,
en hans sem að enginn má sjá.

Nú hengjum við seka, en svíðum þá ei,
því siðferðið hækkandi fer,
og mentunin æskuna bindur í bönd,
svo brengli hún ei neitt fyrir sjer.
Já, við erum stórkarlar vanans menn,
en vitum þó sjerlega smátt,
því stundum í sundur við getum ei greint,
hvort guðsorð er hvítt eða blátt.

Ofanritað kvæði barst mér í hendur sama daginn og ég frétti hið skyndilega andlát höfundarins. Gæti það að líkindum verið síðasta kvæðið hans. Því miður er enginn tími og enn síður nokkurt rúm í r'tinu til að minnast Þorsteins eða verka hans að þessu sinni. Í 31. árgangi þessa rits birti ég mynd af honum sjötugum, ásamt hlýlegri grein eftir vin hans og skáldbróður Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, sem að öðru leyti ekki gjörir honum eða verkum hans nægileg skil. Síðan núverandi ritstjóri hefir haft ritið með höndum, og reyndar áður, hafa mörg ágætis kvæði eftir Þorstein birtst í því, og a. m. k. tvær bráðskemtilegar sögur, auk landnámssöguþáttanna frá Dakota.

Óhætt mun að fullyrða, að enginn vestur-íslenskur rithöfundur hafi lagt gjörva hönd á eins margar hliðar bókmenta og Þorsteinn: kvæði, sögur, hugrúnar (essays) smáriss alskonar (einkum í Sögu) og svo hin stærri sagnarit hans, fimm eða sex að tölu. Þorsteinn hefir verið vaxandi skáld alla ævi, einkum þó eftir miðjan aldur; því má enginn láta glepjast af ljóðakverunum tveim, sem á prenti liggja eftir hann, Þættir og Heimhugi. Þau eru bæði frá fyrri helmingi ævinnar.

Mér er enn lítt skiljanlegt, hvernig Þorsteinn gat annað því, tímans og fjárhagsins vegna, að gefa út í samfleytt sex ár missirisritið Sögu, sem að sjálfsögðu aldrei borgaði sig. Ég held að meira en helmingur þess rits sé hans eigið verk. Þar eru sumar hans allra bestu sögur, sem sést hafa, og aragrúi af ágætustu kvæðum hans. Vel er hægt að gera sér í hugarlund, að kvæðið „Á Þingvelli 1930“ hefði verið talið ofarlega á blaði í skáldasamkepninni, ef það hefði verið ort af heima-íslendingi og á Íslandi.

Sá maður, sem falið verður að skrifa um Þorstein og ritstörf hans, hefir ærið verkefni fyrir hendi, því auk allra þeirra bóka og rita, sem eftir hann liggja á prenti, eru yfir fimmtíu árgangar blaðanna hér vestra auk tímaritanna full af verkum hans. Sú mun þó bót í máli, að hann mun hafa haldið ritum sínum saman, a. m. k. á seinni tíð, og verður ævisöguritarinn auðvitað að hafa fullan aðgang að þeim, ef nokkur vegur verður til að gera honum full skil. **G. J.**

DR. VALDIMAR J. EYLANDS:

# Jón J. Bíldfell

1870—1955

Það var snemma á árinu 1922 að ég varð þess vísari að til var maður sem hét Jón J. Bíldfell, og félagsskapur sem nefndist Þjóðræknisfélag íslendinga í Vesturheimi. Varð ég hvors tveggja áskynja á samri stund. Sjálfur var ég þá nýlega endurfæddur maður, nýfæddur til lífsins í þessum Vesturheimi vorum. Kom mér þá margt kynlega fyrir sjónir, eins og oft mun verða um þá sem eru nýbyrjaðir að sjá. Ég var staddur í bænum Selkirk, og reikaði um kvöld inn í samkomuhús íslendinga þar. Þar var fyrir húsfyllir fólks sem hlustaði á ræðu manns nokkurs, sem stóð þar á palli. Virtist mér maðurinn aðsópsmikill í framkomu, og ræðan, sem hann flutti blaðalaust af mikilli mælsku, var óvenjulega hvassyrt og nýstárleg að efni. Það var svo sem auðheyrt að sá kunni eitthvað í Shakespeare, því að hann hafði fyrir ræðutexta orðin frægu sem Hamlet eru lögð í munn: „Að vera, eða að vera ekki, það er spurningin.“ Með þessum texta bryndi hann áheyrendur sína lögeggjan og heimfærði mál sitt að efninu eitthvað á þessa leið: Aðfluttir íslendingar geta aldrei orðið heilsteyptir Kanadamenn eða Bandaríkjaborgarar. Það gildir einu þó að þeir reyni að fara í gegnum sjálfa sig, taki upp ensk nöfn eða fari í felur með þjóðerni sitt. Allt sem þeir hafa upp úr því er það, að þeir verða ekki neitt.



Jón J. Bíldfell

Þeir afneita upprunalegu þjóðerni sínu, tungu og háttum, en fá ekkert í staðinn, verða ekkert nema skopstæling og uppskafningar góðum mönnum til athlægis. Eitt hið óskiljanlega í fari íslendinga hér vestra er það, að þeir skuli ekki einhuga fylkja liði um hugsjónir Þjóðræknisfélagsins. Þarna heyrði ég í fyrsta sinni vikið að því að til væru frónskir menn á vesturvegum, sem vildu helzt hætta við að vera íslendingar. Það þótti mér einkennileg kenning, og undraðist með sjálfum mér hvernig slíkt mætti verða. Síðar um kvöldið var mér sagt, að þessi maður væri Jón J. Bíldfell, mikilsmetinn borgari í Winnipeg, ritstjóri Lögbergs, einn af embættismönnum hins unga Þjóðræknisfélags íslend-

inga í Vesturheimi, og að hann væri hér á ferð í útbreiðsluerindum fyrir félagið.

Löngu seinna kynntist ég Jóni persónulega, og naut samvinnu við hann á ýmsum sviðum. Þau kynni og samvinna staðfestu æ betur sem lengur leið hina upphaflegu mynd, sem ég hafði gert mér um manninn á útbreiðslufundinum í Selkirk. Hér var maður sem var þéttur á velli og þéttur í lund, einbeittur málafylgjumaður, oft ráðríkur og næsta ósveigjanlegur að vísu en trúr sannfæringu sinni og hugsjónum, og um fram allt, góður drengur. Einar Páll Jónsson ritstjóri og skáld, sem var samverkamaður Jóns um margra ára skeið, og þekkti hann manna bezt, segir um hann meðal annars í minningarorðum, sem hann skrifaði í Lögberg 25. ágúst s.l.: „Fáir menn hafa ábærilegar komið við sögu okkar Vestur-Íslendinga en Jón J. Bíldfell, — — fjölhæfur gáfumaður, gæddur styrkri hetjulund og sjaldgæfu vilja þreki, maður með ákveðnar lífsskoðanir, sem aldrei var eitt í dag og annað á morgun; um langan aldur stóð hann í fremstu víglínu á vettvangi íslenzkra mannfélagssamtaka hér um slóðir og hlífði sér lítt . . .“

Jón var fæddur 1. maí 1870 að Bíldsfelli í Grafningi í Árnessýslu. Á þeim bæ höfðu forfeður hans búið mann fram af manni, og síðast faðir hans, Jón hreppstjóri Ögmundsson, stórmerkur bóndi talinn á sinni tíð og skörungur í sveit. Móðir hans, Þorbjörg Ingimundardóttir var einnig af traustum og merkum bændaættum í sama héraði. Jón ólst upp hjá foreldrum sínum að Bíldsfelli. Móður sína missti hann er hann var fimmtán ára gamall, en þrem árum síðar, 1887, brá faðir hans búi og fluttist til Kanada. Starfsferill Jóns hér vestra, um 68 ára skeið, var óvenjulega fjölbreyttur. Hann var á ýmsum tímum, og nokkurn veginn í þeirri röð sem hér segir: námsmaður við gagnfræða- og verzlunarskóla, skólakennari í sveit, „púlsmaður“ við járnbrautarlagningu og skógarhögg vestur í Klettafjöllum, námumaður í Alaska, fasteignasali í Winnipeg, forstjóri búgarðs þar í grenndinni, ritstjóri vikublaðsins Lögbergs, um tíu ára bil, safnaðarforseti Fyrsta lúterska safnaðar, kirkjuþingsmaður, formaður skólanefndar Jóns Bjarnasonar skóla, einn af stofnendum Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi og embættismaður þess í mörg ár, (forseti 1931—1933, og aftur 1934—1936, og einnig skrifari þess nokkur síðustu árin, sem hann dvaldi í Winnipeg; einn af stofnendum Eimskipafélags Íslands, og meðlimur stjórnarnefndar þess á árunum 1917—1922; átti giftudrjúgan þátt í stofnun Canada-sjóðs, sem myndaður var í sambandi við Alþingishátíðina 1930; formaður heimfararnefndarinnar 1930; dúntekjumaður norður í heimskautslöndum, (Baffiney og Grænlandi), og svo að síðustu eftirlitsmaður á búgarði sonar síns í Lachine, Quebec.

Hann var kjörinn heiðursfélagi í framkvæmdarnefnd Liberal-flokksins í Manitoba, heiðursfélagi Þjóðræknisfélagsins og Stórriddari hinnar íslenzku fálkaorðu. Hann lézt 17. ágúst s.l. saddur lífdaga og sáttur við alla menn.

SÉRA ALBERT E. KRISTJÁNSSON:

# Einar Ólafsson

## frá Firði í Mjóafirði

„Það er ekki oflofuð samtíð.
En umbætt og glaðari framtíð.
Það land sem að sjáandinn sjer.“

—St. G. St.

Ýmsar minningar mega gjarnan gleymast. En nokkrar eru þær minningar, **sem mega als ekki gleymast.** Eru það einkum minningar þeirra sem áttu nauðsynleg erindi ekki aðeins til samtíðar sinnar, heldur einnig til framtíðarinnar. Einn slíkra manna var Einar Ólafsson. Það hefir verið hljótt um hann þau full 48 ár, sem liðin eru síðan hann dó. Þessi þögn er þó skiljanleg þeim sem voru vinir hans og samherjar síðustu æfiárin hans. Þennan skilning túlkaði að nokkru leyti St. G. Stephansson í þessum ljóðlínum úr kvæði sem hann orti skömmu eftir lát Einars undir fyrirsögninni: „Einar Ólafsson ritstjóri Baldurs“, og er að finna í „Andvökur“ I., bls. 198:

„Verða ei stjórn né kirkja klökk
kvödd með frétt um látið.
Baldur getur þrútin þökk
þurrum tárum grátið.“

Svo ber og hins að gæta, að allur þorri manna er ærið nærsýnn þegar meta skal manngildi samtíðarmannsins. Þeir sjá yfirleitt aðeins það sem á yfirborðinu liggur og sem allra næst þeim er. Þeir benda gjarnan á „björtustu stjörnuna“ á bláhvolfi himinsins, en gæta þess ekki að í ómælisdjúpinu, bak við blámann sem birtist sjónum þeirra dyljast ósegjanlega mikið stærri og fegurri stjörnur. Þetta er þeim ekki láandi, því þeim hefir aldrei verið gefin gáfa sjáandans.



Einar Ólafsson var fæddur 23. desember 1865 í Firði í Mjóafirði. Foreldrar hans voru þau merkishjónin Ólafur Guðmundsson og

Katrín Sveinsdóttir. Nálægt fermingaraldri var hann fyrst settur til menta hjá Magnúsi presti á Skorrastað, en síðar sendur á gagnfræðaskólann á Möðruvöllum. Þaðan útskrifaðist hann eftir þriggja ára nám, liðugra 20 ára gamall, vorið 1886. Nokkrum mánuðum seinna sigldi hann til Stafangurs í Noregi og gekk þar á sjómannaskóla næsta vetur, en í stað þess að hverfa aftur til Íslands með vorinu 1887, fór hann vestur um haf til Canada. Staðnæmdist hann í Winnipeg og var þar til heimilis úr því nema tvö síðustu árin, er hann átti heima á Gimli, þar sem hann dó 16. ágúst 1907.

Lengst af þeim tíma sem Einar dvaldi í Winnipeg, var hann að einhverju leyti starfsmaður Heimskringlu. Ráðsmaður blaðsins var hann um allmörg ár á ritstjórnartímum þeirra Jóns Ólafssonar og Eggerts Jóhannssonar. Snemma sumars 1897 hætti Hkr. að koma út, mest fyrir hirðuleysi og vanskil kaupendanna. Liðu svo rúmir fjórir mánuðir. En þá réðust þeir Einar og Walters í það að endurreisa blaðið, og kom fyrsta númerið út 14. október 1897. Var þá Einar ritstjóri blaðsins og hélt þeim starfa til 10. marz 1898. Þá hvarf hann frá blaðinu og var eigi við það riðinn síðan. En nokkru síðar varð hann ritstjóri að blaðinu „Baldur", er þá kom út á Gimli og við það var hann þar til æfin endaði.*)

Ummæli Magnúsar Péturssonar, í grein þeirri sem framanskráð æfiatriði eru að nokkru tekin úr um Einar, eru meðal annars þessi: „Einar var gæddur ágætum hæfileikum. Hann var einarður, hreinskilinn, vel máli farinn, ritaði skýrt og rökstuddi vel. Tryggðatröll var hann við þá, sem náðu vinfengi hans .... og ætíð kendi þar djúphyggni og þekkingar sem pennaför hans voru. Þótt Einar væri oft þreyttur og heilsuveill, þá var hann hinn ljúfasti maður í allri samvinnu. Þjóðflokki vorum hjer var það mikill skaði, að hann dó svo ungur — aðeins tæpra 42 ára."

Að svo miklu leyti sem ég þekki til, og sem ég hefi getað aflað mér upplýsinga um æfiferil Einars, bæði af persónulegri viðkynningu og annara umsögn, eru það einkum tvö síðustu árin, sem leiða skýrt í ljós hver maður hann var og yfir hverju hann bjó. Sem ritstjóri „Baldurs" veittist honum óhindraður farvegur til að flytja íslenzkum almenningi skoðanir sínar og áhugamál. Í hans höndum verður blaðið málsvari alls sem frjálsmannlegast, mannúðarfylst og drengilegast var að finna í hugsun og starfi Íslendinga á þeim tíma. Blaðinu jukust vinsældir góðra og greindra manna og kvenna hvaðanæfa í hans ritstjórnartíð, og bárust honum þakklætisorð ýmsra þeirra bæði í bundnu og óbundnu máli. Hér er, til dæmis, bréf frá Skafta B. Brynjólfssyni:

„Kæri vinur: —

Nú er ég að vinna við að byggja

---

*) Ofanskráð æfiatriði eru rituð upp eftir tveimur heildum, sem eru: 1. Æfiminning eftir séra J. P. Sólmundsson í „Baldri", frá 5. september 1907, og 2. smágrein eftir Magnús Pétursson, er birtist í Heimskringlu 20. desember 1917. Þessum heimildum ber ekki saman um það hvaða ár Einar fór vestur um haf og hefi ég þar farið eftir „Baldri", því ég hygg það réttara.

hús hér á landi mínu, og er þreyttur og stirður, en þrátt fyrir það get ég ekki stilt mig lengur, um að hripa þér línu í þakklætisskyni fyrir nýja andlitið, sem hann Baldur hefir sett upp síðan þú tókst við honum. Það má með sanni segja að hver ágætisritgerðin hafi rekið aðra, hlaðin af heilbrigðu viti og djúpri hugsun, en bezt þó sú síðasta, „Sjálfræði". Eins og nú horfir við er Baldur langbezta blaðið sem við eigum hér vestra, og ef landar okkar skilja sinn vitjunartíma, þá ætti Baldur fljótlega að verða fjölkeyptasta blaðið hér vestra . . . . ."

Með beztu óskum,

Þinn vinur,

**S. B. Brynjólfsson**

Og enn eru ekki **allir** búnir að gleyma Einari. Merkur Vestur-Íslendingur og einn þeirra er hafa hvatt mig til að skrifa um hann, segir, meðal annars, í bréfi til mín frá síðastliðnu vori: „Það er blaðið Baldur, sem vitnar um hann sem vitsmunamann og hugsjónamann og umbótamann". Þetta er rétt athugað, og tel ég því viðeigandi að láta Einar bera sjálfum sér vitni með því að setja hér nokkur sýnishorn, tekin úr ritgerðum hans í Baldri. Mætti sjálfsagt betur velja með nákvæmari yfirferð yfir tvo árganga Baldurs en mér gafst tími til. Læt ég svo sýnishornin koma hér án frekari greinargerðar:

„Það er alls ekki náttúrlegt fyrir Íslending að standa þegjandi þegar verið er að reyra að mönnum ófrelsisfjötra." (Baldur 2. maí 1906).

„Menn segja mér að almenningur hafi ekki vit á pólitík og að atkvæðadómur væri því einskis virði. Ég segi þá: Mér er ekkert mætara að líða þjóðmálalegt skipbrot fyrir rangsleitni viturra þingmanna heldur en fákænsku ófróðra kjósenda; fyrir utan það sem kjósendurnir hafa oft mikið meira vit á landsmálum heldur en sumir þingmennirnir, sem gjöra ekki annað en greiða atkvæði þegar þeim er sagt. Alið upp hjá ykkur þjóðræðisformið; það verður að koma áður en langt líður." (Baldur, 13. júní 1906).

„Umbæturnar hljóta að koma frá þeim, sem þurfa á þeim að halda, en ekki þeim sem ekki þurfa þeirra við. Það eru ekki nema undantekningar þegar mannúðin ein leiðir menn til að leggja mikið í sölurnar fyrir almennar umbætur, en þörfin leiðir menn til þess, og þörfin er verkamannsins megin." (Baldur 11. júlí 1906).

„Það þarf beina löggjöf til þess að gjöra þjóðarviljann ríkjandi í pólitískum málum, alveg eins og það þurfa að koma fleiri þjóðeignastofnanir til að fyrirbyggja yfirgang auðsöfnunarstofnananna. Hvorutveggja ætti að koma undir eins, þjóðeignastofnanir og bein afskifti kjósendanna af löggjöfinni, því með því móti er þjóðeignastofnununum borgið — annars er tvísýnt um þær. Viltu leggja þessu lið, lesari góður? Þorirðu að leggja því lið? Hefirðu manndáð til að leggja því lið?" (Baldur, 29. ágúst 1906).

„Það er liðin sú tíð að hver og einn getur siglt sinn sjó án tillits

til nokkurs annars en sín sjálfs og því betur sem mönnum verður sú afstaða ljós, því fyr hættir dagur reikingsskaparins að vera dagur bardaga og blóðsúthellinga.“ (Baldur, 14. febrúar 1906).

Það er afar erfitt að draga kafla út úr ritgerðum Einars þannig að þeir gefi greinilega hugmynd um kosti hans sem rithöfundar, því hver ritgerð er ein rammbundin heild — ein óslitin keðja orsaka og afleiðinga, sem leiðir markvisst að þeim sannindum sem höfundinum er ant um að koma inn í vitund lesandans og skilning. Maður þarf að lesa hvert orð með óskiptri athygli. Þannig er það, t. d. um „Sjálfræði“, sem Skafti Brynjólfsson getur um, eða þá greinin „Sagan segir“, sem er söguleg rök fyrir þeirri bjargföstu skoðun Einars að Íslendingurinn og „norræni stofninn“, sem hann er grein á, sé búinn vissum mannkostum öðrum mönnum fremur. Við þessa tröllatrú sína á meðfæddan manndóm Íslendingsins tengir hann svo eðlilega þá kröfu, að hann sé merkisberi fyrir því liði sem berst í þjónustu hinnar „umbættu og glaðari framtíðar“. Hann á að fara að dæmi Þórðar Fólasonar í Stiklastaðaorustu. Helsærður á hann að neyta sinna síðustu krafta til þess að búa svo um að **merkið standi.** Hann brýnir, hann eggjar lögeggjan. Hann segir, „viltu?“ „þorirðu?“ hefirðu manndáð til?“ Og hann er sannfærður um að Íslendingurinn býr yfir þeim vitsmunum sem gerir honum fært að átta sig á því hvar það lið sækir fram, sem hin betri framtíð hefir kallað í þjónustu sína. Hann verður gramur þegar hann sér landa sína ganga á mála hjá hinni „oflofuðu samtíð“ og gína yfir gyltu skrani fláráðra falsara, sem í eiginhagsmunaskyni ginna af honum það sem guðirnir höfðu ætlað honum; ódauðlegan orðstír.

Einar hafði ekki verið lengi við Baldur þegar menn fóru að fylkja liði um hann sem sjálfkjörinn foringja. Hann beitti sér fyrir samtökum fiskimanna við Winnipegvatn. Höfðu þeir lengi lifað við skarðan hlut og áttu „formælendur fáa“. Fór Einar sendiferðir til Ottawa í þeirra þágu og norður um vatn með erindrekum stjórnarinnar, til að sýna þeim og sanna að þarfir fiskimannanna voru virkilegar og kröfur þeirra réttmætar. Sveitarmál Gimli-sveitar lét hann sig einnig miklu varða og var í sendinefndum á fund fylkisstjórnarinnar í sambandi við þau mál. Í safnaðarnefnd Únítara-safnaðarins á Gimli var hann og vann ötullega að kirkjubyggingu safnaðarins. Útvegaði hann uppdráttinn að byggingunni, og mun hann hafa verið gjörður af frænda hans í Dakota, sem mig minnir að hafi heitið Bjarni Jónsson. Stendur bygging þessi enn á sama stað og er nú liðlega 50 ára gömul. Hún var vígð 29. október 1905.

Þar kom að þeir menn, sem ekki gátu átt samleið með hinum tveimur aðalflokkum í pólitík, litu til Einars sem vænlegs þingmannsefnis, og haustið 1906 kom fram ákveðin áskorun til hans að bjóða sig fram við næstu fylkiskosningar. Hvernig hann svaraði þeirri málaleitun er svo auðkennandi fyrir manninn að

ég verð að taka hér upp nokkur aðal atriði úr því:

„— — — Þegar á alt er litið fer maður að hafa fulla ástæðu til að ætla, að það sé að koma sú tíð, er Íslendingurinn fer sinna ferða í pólitískum málum, hvort sem einhverjum flokksforingjum líkar betur eða ver — — — en hvort menn eru svo alment orðnir sannfærðir um það, að hinn gamli pólitíski Adam þurfi að drekkjast og deyðast, að líkur séu til, að hægt sé að koma mótstöðumanni hans að, er alt vafasamara. Ég dáist að hugrekki þeirra sem vilja reyna, og ég þakka þeim fyrir traustið, sem þeir bera til mín, en þeir mundu máske geta valið betur. — — — Svo býst ég við að sigursælla yrði, enn sem komið er, að hafa einhvern þann í fararbroddi, sem menn gætu að minnsta kosti verið í miklum vafa um hvort sé „orþódox“ eða „óorþódox.“ Um mig eru menn í engum vafa í því atriði, og þurfa líklega aldrei að verða. Mér er eins illa við trúmálalegt ófrelsi og mér er við pólitískt ófrelsi, og ég segi hvorutveggja stríð á hendur, og held því stríði áfram eftir föngum á meðan ekki rofar betur til, þó það kosti þingsæti og aftur þingsæti. Ég hefi enga trú á því að sá sem selur sannfæringu sína í einu máli til þess að komast á þing, geti ætlast til þess, að honum sé treystandi til að selja ekki sannfæringu sína líka þegar á þing er komið, og ef ég ætti aðeins að eiga kost á að komast á þing fyrir þess konar kaupskap, þá geta menn gengið út frá því sem vísu, að ég fer aldrei á þing.“ (Baldur, 3. nóvember 1906).

Og Einar fór aldrei á þing, enda var ekki þess að vænta á þeim tímum, og enda ekki enn, að maður með því hugarfari, sem ekki getur vikið um hársbreidd frá því sem hann hyggur sannast og réttast, finni götuna greiða til þingsetu eða annara mannvirðinga. Ýmsir þeirra, sem léttara var um en honum, að haga seglum eftir vindi og áttu annaðhvort enga sannfæringu eða þá sem liðugri var í taumi en hans, ef um eigin hagsmuni var að ræða, fundu honum þetta til foráttu og kölluðu þetta hans óþjálu skapsmuni eða hans stríðu lund. Ég, sem átti talsvert mikið samstarf með Einari, veit hve mikill misskilningur þetta er. Enginn maður getur verið samvinnuþýðari en hann var. Aldrei heyrði ég hann kýta við samstarfsmenn sína um smáatriði, sem svo oft valda ágreiningi og jafnvel illindum meðal manna sem minni geðstillingarmenn eru en hann var. Og aldrei sá ég hann missa vald yfir skapi sínu. Ég sá hann og heyrði oft á ræðupalli, þar sem andstæðingar í trúmálum eða pólitík leiddu saman hesta sína. Hélt hann jafnan fast á sínu máli, en ætíð án gífuryrða og ofsa og sá ég hann aldrei bregðast þeirri prúðmennsku, sem einkenndi alla hans framkomu. Ræður hans, eins og rit hans, voru þrungnar af viti, rökfastar og sannfærandi, en lausar við alt málskrúð. Sundurgerð í máli, eins og í öllu öðru, var honum viðurstyggð. Ekki svo að skilja að hann kynni ekki að meta sanna fegurð, því hann unni öllu fögru og var sjálfur fjölhæfur listamaður að gáfum til, þó honum veittist ekki

aðstaða til að iðka fagrar listir nema að litlu leyti. Hann lék til dæmis á orgel og eitthvað á fíólín. Hann tók þátt í sjónleikjum og málaði leiktjöld. Hann var eftirsóttur á samkomum til að skemmta á ýmsan hátt, enda var hann hrókur alls fagnaðar á mannamótum öllum. Það gat engan ókunnugan grunað, sem heyrði hann segja kýmnisögur eða kasta fram bráðfyndnum svörum í samtali, að hann byggi yfir þungum hörmum, né að honum væri að blæða inn — til ólífis. Í því efni mætti máske segja um hann eins og Einar Benediktsson segir um Egil Skallagrímsson: „Hægt sló hans negg, en tók undir frá grunni“. Ég sá oft hve þreyttur hann var; ég vissi að hann þjáðist af einhverri heilsubilun, þó ég vissi ekki hvernig henni var varið, og hafði grun um einhverjar duldar sorgir sem lögðust þungt á hann. En hann kunni ekki að kvarta, því í hann var víst spunnið eitthvað af eðli furunnar hans Stephans G., sem „bognaði ekki en brotnaði í bylnum stóra seinast.“ Og svo var honum lagt það út til lasts að hann „sigldi í sjálfs síns fararleyfi,“ eins og Stephan orðar það í eftirmælunum, sem vitnað er í hér að framan. Lengra eru menn ekki almennt komnir á þroskabraut skilnings og mannúðar. Og svo hugðu margir gott til að geta tekið sér langan morgundúr þegar árgalinn var sofnaður. Nokkrir voru þeir þó, sem söknuðu foringjans og fundu til nokkurrar blygðunar fyrir það að hafa ekki veitt honum öruggara brautargengi á meðan tími var til. Það kennir bæði gremju og sársauka í þessum erindum úr eftirmælum Stephans:

„Hugsjón hver sem hefir tórt,
hafist upp úr vöfum,
hefir aldrei stigið stórt.
Þær stikla fram á gröfum!

— — —

Okkur hinum eins er bezt
öllu um hann að gleyma,
sem það afrek sýndum mest
að sussa og jánka heima.“

Og það lítur svo út sem þetta heilræði Stephans hafi fallið í frjóvan jarðveg og að já-bræðrum kyrrstöðunnar og afturhaldsins hafi heppnast „öllu um hann að gleyma.“ Þeir sem hingað til hafa fengist við að rita drög til sögu Vestur-Íslendinga hafa látið hans að litlu getið og hið sama er að segja um þá pólitísku umbótahreyfingu, sem vaknaði á Gimli um aldamótin 1900, og sem fylkti síðar liði um Einar Ólafsson og Baldur. Hér er meinleg eyða í söguna, eins og hún hefir verði sögð fram að þessu. Ég tel eyðuna meinlega vegna þess að mér skilst þau spor liðinna kynslóða, sem menn rekja sér til gagns, séu ekki þau spor, sem stappa sífelt í sama farið eða hringsóla kringum tjóðurhæl tízku og vana, heldur þau, sem vísa vegfarandanum leiðina fram til þess sem verða skal — til hinnar umbættu og glaðari framtíðar. Hinn varanlegi hróður Íslendingsins, eins og hverrar annarar þjóðar, mun hvíla á minningum þeirra manna, sem hafa átt vit, vilja og þor til þess að marka þau spor. Slíka menn meðal fyrri kynslóða dáði Einar og tók sér til fyrirmynd-

ar. Því varð honum svo tíðrætt um Þórð Fólason og afreksverk hans sem merkisbera konungs í Stiklastaðaorustu, þegar hann, helsærður, hóf upp merkisstöngina og keyrði hana svo fast niður að merkið stóð þegar hann var fallinn. Þess vegna voru honum svo munntamar þessar hendingar úr kvæði Per Silve, í þýðingu Matthíasar Jochumssonar:

„Og sagan segir,
hann seig í blóð
á mistarvegi —
en merkið stóð.

— — — —

Ef bila hendur,
er bættur galli:
ef merkið stendur,
þótt maðurinn falli."

Einar var af sama bergi brotinn og Þórður Fólason:

„Hann sem ekki í óvild sá,
alfrjálst reyndi ei fela,
hita-máli hrekklaus frá
heitinu sínu að stela.

segir Stephan G. í ljóðinu, sem ég hefi áður vitnað í. Tryggð Einars og ábyggilegheit fanst mér vera með fádæmum. Einhver kunningi minn hafði það á orði einu sinni að ég hefði lagt allmikið í vald Einars án þess að hafa aðra tryggingu en loforð hans. Ég man að ég svaraði eitthvað á þá leið, að þó um líf mitt væri að tefla, mundi ég hiklaust trúa Einari fyrir því að verja það með sínu eigin lífi ef á þyrfti að halda. Slíkir drengskaparmenn mega ekki gleymast því minning þeirra ver mann frá vonleysi um hinztu örlög mannkynsins.

———⚜———

Í grafreit Gimli-bæjar stendur legsteinn úr rauðu graníti, sem nokkrir vinir Einars reistu á gröf hans skömmu eftir lát hans. Er mér enn í fersku minni ráðagerð okkar um það hvernig það minnismerki, sem við höfðum ráð á að setja á leiði hans ætti að vera. Kom okkur brátt saman um tvö aðalatriðin. Það átti að vera úr sem varanlegustu efni og lögun þess átti að vera þannig, að allar línur þess væru beinar. Steinninn er ferstrend uppmjókkandi súla á ferköntuðum fótstalli, en ofan á súlunni er teningur reistur á horn úr sama efni og súlan. Á steininn er letrað, meðal annars, þessar ljóðlínur úr kvæði St. G. Stephanssonar:

„Hreinskilnin er angruð ein,
Ekkjan hans við leiðið."

DR. ÁSKELL LÖVE:

# Oft verður löng saga af litlu strái

Í Núpasveit á mótum Axarfjarðar og Melrakkasléttu er lágt en allbratt fjall, sem nefnist Valþjófsstaðafjall. Það stendur eitt sér umgirt láglendi eða breiðum dölum á alla vegu, en þótt þetta láglendi liggi vel við sól, er það hálffyllt af melhólum og getur varla talizt gróðursælt. Sennilega er það að kenna hinum eilífa vindbelgingi, að skógarkjarr vex ekki á þessum slóðum, en lyngmóar eru hér fjölbreyttari en víðasthvar á Íslandi. Í gilbrekkum ofan við bæinn Valþjófsstaði eru fjalldrapi og krækilyng og eitthvað af víði það hávaxin, að þau geta skýlt öðrum lingerðari jurtum, og eins festir þar oftar snjó en annars staðar í þessari snjóléttu sveit. Flestar jurtir þessa svæðis eru hinar sömu og á skjólbetri stöðum í Axarfirði og þar því fátt markvert fyrir þann, sem reynir að lesa í bók náttúrunnar. Samt var það í þessum vinalegu brekkum við Valþjófsstaðagilið, að Stefán Stefánsson, höfundur Flóru Íslands, safnaði nokkrum grasstráum í júlílok árið 1895, og vissi þó ekki, að þau voru af einni hinna sjaldgæfustu og merkilegustu tegunda, sem vaxa villtar á Íslandi.

Grasstráin, sem Stefán tók af sömu rælni og þegar grasafræðingar safna jurtum á ferðalögum, eru í hæsta máta merkileg, en þó er ef til vill hægt að benda á aðrar íslenzkar jurtir álíka markverðar. En því hefi ég valið þessi strá til frásagnar, að saga þeirra skýrir betur vinnuaðferðir og viðhorf grasafræðinga en saga flestra annara íslenzkra jurta.

Ef til vill hefir Stefán safnað þessum stráum vegna þess, að honum virtust þau ólík öðrum grösum. Um þetta verður ekkert sagt, því að hann skrifaði ekki nafn á miðann, sem fylgir eintökunum í Grasasafninu í Kaupmannahöfn. Danski grasafræðingurinn Gelert ákvarðaði grasið og taldi það vera venjulegan húsapunt, sem er aðfluttur til Íslands, og þar eð húsapuntur er ekki sjaldgæfur, eru eintökin frá Valþjófsstaðafjalli ekki nefnd sérstaklega í Flóru Íslands. Aftur á móti er þar getið eintaka sömu tegundar, sem Stefán safnaði ellefu mánuðum áður við Stóruvelli í Bárðardal innanverðum, en þau eru nefnd bláhveiti og sennilega ákvörðuð af Stefáni sjálfum. Allar jurtir eru ætíð nefndar latnesku nafni, og Stefán kallaði bláhveitið Agropyron violaceum, eins og Daninn Lange taldi réttast hálfum öðrum áratug áður. Fyrri hluta nafnsins, eða ættkvíslarheitið, má þýða með orðinu villihveiti (úr grísku: agros=villtur, og pyros=hveiti), en síðari hlutinn þýðir fjólublár og á við litinn á axinu. Þegar Stefán skírði íslenzku tegundina bláhveiti, var það réttnefni á eintökum frá Eyjafirði og Skagafirði, en ekki á stráunum úr

Valþjófsstaðabrekkum eða frá Stóruvöllum, því að ax þeirra er grænt.

Stefán kom aldrei aftur að Valþjófsstöðum, og Steindór Steindórsson, sem rannsakaði Melrakkasléttu sumarið 1934, og Ingimar Óskarsson, sem skoðaði gróður í Núpasveit og Axarfirði sumarið 1944, geta þess ekki að hafa rekizt á villihveiti. Þetta gras er því eflaust sjaldgæft þarna, þótt ekki sé sennilegt, að það vaxi hvergi nema í hlíðum Valþjófsstaðafjalls. En útilokað er það ekki.

Það mun hafa verið Eggert Ólafsson, sem fyrstur manna fann villihveiti í Eyjafirði og Skagafirði, og danskir grasafræðingar nefndu hans eintök Bromus cristatus. Það er hið latneska nafn, sem Linnaeus gaf kambpuntinum, en þótt sú tegund sé skyld bæði húsapunti og villihveiti, hefir hún aldrei vaxið á Íslandi. Oddur Hjaltalín nefnir bláhveitið sama nafni í grasafræði sinni, og eins gerir brezki grasafræðingurinn Babington, sem nefnir þó ættkvíslina Triticum, eða hveiti. Hefði hann þó átt að vita betur, því að hann þekkti eflaust kambpuntinn, sem er illgresi á Bretlandi, en sennilega hefir hann ekki sjálfur séð íslenzka bláhveitið. Stefán varð fyrstur til að kalla íslenzka bláhveitið Agropyron violaceum, en þótt Lange hafi talið það vaxa bæði á Grænlandi og á Norðurlöndum, sáu norskir og sænskir grasafræðingar strax, að þetta var rangt.

Í Danmörku hefir löngum verið fátt um þá grasafræðinga, sem fást við nákvæmar rannsóknir á nafngiftum jurta, þótt enn fari íslenzkir stúdentar frekar þangað en til hinna Norðurlandanna til að nema grasafræði. En sú mun vera ástæðan fyrir því, að enginn tók eftir rangnefninu á íslenzka bláhveitinu í fjóra áratugi. Árið 1934 höfðu þó grasafræðingarnir Ostenfeld og Gröntved veitt því athygli, að nafnið, sem Stefán notaði, gat ekki verið rétt, svo að þeir kölluðu íslenzka bláhveitið Triticum biflorum. Gröntved uppgötvaði átta árum síðar, að þetta nafn var líka rangt, og tók þá upp nafnið Agropyron trachycaulum fyrir bláhveitið frá Eyjafirði og Skagafirði og eintökin, sem Stefán hafði safnað við Stóruvelli í Bárðardal í ágúst 1894.

Hingað til höfðu þeir grasafræðingar, sem lýstu íslenzku bláhveiti í flórum sínum, ekki gert sér far um að athuga gaumgæfilega íslenzk eintök og bera þau saman við erlend grös svipaðra tegunda. Tvær íslenzkar flórur héldu uppteknum hætti og tóku nafnið óbreytt upp eftir Gröntved. Sú er orsök þess, að í Íslenzkum jurtum eftir höfund þessarar greinar og í þriðju útgáfu Flóru Íslands, sem Steindór Steindórsson gaf út, kallast íslenzka bláhveitið allt Agropyron trachycaulum, án þess að skilið sé á milli stráanna frá Bárðardal og hinna úr Eyjafirði og Skagafirði.

Þegar Íslenzkar jurtir komu út haustið 1945, voru liðin rétt fimmtíu ár síðan Stefán Stefánsson safnaði grasstráunum í hlíðinni ofan við Valþjófsstaði og sendi til Grasasafnsins í Kaupmannahöfn. Öll þessi ár hafði engum komið til hugar að efast um þá ákvörðun, sem Gelert

gerði í Höfn árið eftir, né heldur um réttmæti þess að nefna eintökin frá Bárðardal bláhveiti eins og grösin úr Eyjafirði og Skagafirði, þrátt fyrir greinilegan litarmun. En þótt oft hafi hin latnesku nöfn, sem ýmsir töldu eiga við þessi grös, verið úr hófi fram röng, var það fyrst þegar nafnið Agropyron trachycaulum var notað um hinar íslenzku tegundir, að grasafræðingar rumskuðu. Það voru grasafræðingar í Uppsölum í Svíþjóð, sem fyrstir tóku eftir því, hve fráleitt það var, að þessi tegund yxi villt á Íslandi, og það var þar, sem loksins var höggvið á hnútinn.

Meðal hinna mörgu flóttamanna, er leituðu til Svíþjóðar í síðasta stríði, var lettneski grasafræðingurinn Melderis, en hann er öllum öðrum fremri í þekkingu á villtum hveitigrösum. Hann dvaldist í Uppsölum í tæpan áratug, en býr nú í Lundúnum. Meðan hann stóð við í Uppsölum, veitti hann því athygli, hve fráleit nöfn höfðu verið notuð um hið íslenzka bláhveiti, og taldi það mundu vera auðvelt verk að leiðrétta slík rangnefni. En lausnin var erfiðari en hann hélt í upphafi og þó merkari en nokkurn gat dreymt um og afdrifaríkari fyrir skilning okkar á uppruna íslenzkra jurta.

Melderis sá brátt, þegar hann skoðaði íslenzkt villihveiti frá öllum söfnum á Norðurlöndum, að villtu tegundirnar tvær, sem taldar eru í flórum, tilheyra þeim flokki eða ættkvísl, er nefna ber Roegneria. Önnur þessara tegunda er kjarrhveitið, Roegneria canina, og hefir aldrei verið rangnefnt, þótt ýmsir hafi skipað því í aðrar ættkvíslir. En hin tegundin er það gras, sem Stefán nefndi bláhveiti.

Villihveititegundin Agropyron trachycaulum, eða Roegneria pauciflora eins og hún er nefnd réttast, vex í Norður Ameríku, en hvergi norðarlega, og hefir dreifzt víða um Evrópu sem illgresi síðustu öld. Melderis hóf rannsóknir sínar á íslenzka bláhveitinu einmitt vegna þess, hve fráleitt honum fannst, að þessi tegund yxi villt á Íslandi, og við fyrstu sýn sá hann, að þetta nafn átti ekki við nein grös frá norðlægum stöðum. Að íslenzka grasið er algerlega óskylt Agropyron cristatum hafði Stefán séð fyrir hálfri öld, og eins var það rétt hjá Gröntved, þegar hann hvarf frá að nota nafnið Triticum biflorum. Sú tegund vex aðeins í Alpafjöllunum, en er þó skyld íslenzka bláhveitinu. Tegundin Roegneria violacea er til á Grænlandi og í Ameríku, en að axlitnum undanskildum minnir hún lítið á íslenzka bláhveitið. Melderis sá nær strax, að bláhveitið úr Eyjafirði, Skagafirði og frá Vestfjörðum er nákomið tegund, sem hafði verið rangnefnd í norðanverðri Skandinavíu, en vegna þess að íslenzku eintökin eru nokkuð frábrugðin þessum grösum, taldi hann þau fyrst í stað vera einlenda tegund, Roegneria islandica, og birti það nafn í litþráðalista yfir norrænar jurtir eftir Á. og D. Löve árið 1948. Nánari rannsókn leiddi þó í ljós, að þetta var ekki alveg rétt, heldur er íslenzka bláhveitið einlent afbrigði eða deiltegund, islandica, af hinni norrænu tegund, Roegneria borealis, sem vex í fjalllendum norðurhérað-

anna í Evrópu, Asíu og Ameríku og hefir myndað ýmis afbrigði allvíða. Þessari tegund hefir verið ruglað saman við Roegneria violacea á Grænlandi og Roegneria pauciflora í Norður Ameríku, svo að villan hjá Gröntved var ef til vill engin villa, en aðeins dálítill misskilningur. Rússneskir grasafræðingar höfðu aftur á móti þekkt þessa tegund lengi og aldrei ruglað henni saman við skyld grös. Hún er ekki til á Bretlandseyjum né heldur í fjöllum Mið-Evrópu, þótt tegundin Roegneria biflora sé ef til vill aðeins deiltegund af henni álíka vel aðskilin og íslenzka deiltegundin er.

Melderis hafði þannig loksins tekizt að finna réttnefni fyrir íslenzka bláhveitið, sem Eggert Ólafsson fann fyrstur manna í Eyjafirði og Skagafirði og síðari grasafræðingar söfnuðu á Hornströndum og Snæfjallaströnd vestra. En hvað um eintökin úr Bárðardal, eða stráin, sem Stefán safnaði í Valþjófsstaðabrekkum daginn góða í júlílok árið 1895? Axlitur þeirra er grænn, en ekki blár, og Stefán og aðrir höfðu tekið eftir þeim mun, þótt enginn léti sér koma til hugar, að í honum fælist nokkuð annað og meira. Enginn hinna mörgu, sem skoðað höfðu þessi grös hingað til, þekktu neitt til skyldra grasa erlendis, svo að það var kannski ekki við því að búast, að þeir sæu neitt markvert við þessi strá. En þegar Melderis skoðaði eintökin nánar, varð honum strax ljóst, að villihveitið úr Bárðardal og stráin frá Valþjófsstöðum tilheyrðu sömu tegund, og sú tegund var önnur en bláhveitið úr Eyjafirði og Skagafirði og hvergi til á Norðurlöndum. Að vísu höfðu erlendir grasafræðingar tekið eftir þessari tegund fyrr, en enginn kannaðist lengur við hana frá Evrópu. Og þótt íslenzku stráin frá Bárðardal og Valþjófsstöðum líktust erlendum eintökum mjög, var enginn efi á, að þau voru sérstakt afbrigði eða deiltegund. Nafn tegundarinnar skulum við sjá síðar, en Melderis taldi réttast að nefna íslenzka afbrigðið eða deiltegundina Stefanssonii eftir þeim grasafræðingi, sem einn hafði safnað þessu grasi við Valþjófsstaði og Stóruvelli fyrir aldamót. Við köllum grasið Stefánshveiti á íslenzku og látum það nafn ná yfir tegundina alla.

Stefánshveitið er ekki óalgengt á meginlandi Norður Ameríku og á Grænlandi og er oftast nefnt í flórum sem afbrigðið major af Agropyron trachycaulum. Þess vegna taldi Gröntved íslenzka bláhveitið til þessarar tegundar. Það er þó enginn efi á, að Stefánshveitið er sjálfstæð tegund og vel aðskilin frá bláhveitunum, enda höfðu amerísku grasafræðingarnir Scribner og Smith lýst því undir tegundarnafninu Agropyron pseudorepens árið 1897. Síðara orðið þýðir falskur húsapuntur og gefur til kynna að rugla má þessum tegundum saman, svo ef til vill var það ekki jafn rangt og við héldum, þegar Gelert kallaði stráin frá Valþjófsstöðum húsapunt. Scribner og Smith lýstu eintökum frá Nebraska, en þau eru svo lík íslenzku stráunum, að auðséð er, að um sömu tegund er að ræða. Þó eru þau ekki nákvæmlega eins, og sama gildir um grænlenzk strá, sem Lange nefndi sem afbrigð-

ið virescens af Agropyron violaceum árið 1880.

Þótt Melderis hafi talið vandamálið leyst, þegar hann gat sýnt fram á, að íslenzka villihveitið með grænu öxunum væri sama tegund og í Ameríku og á Grænlandi, taldi hann sér skylt að ganga úr skugga um, hvort það yxi líka í fjöllum einhverra Evrópulanda. Ekkert eintak í söfnum frá Norðurlöndum líktist þessari tegund, og eins bar leitin í söfnum frá Rússlandi, Asíu og Mið-Evrópu engan árangur. En þegar hann skoðaði örfá strá, sem hafði verið safnað undir klettabelti hátt uppi í fjallinu Ben Lawers á Skotlandi, kannaðist hann strax við svipinn á stráunum frá Valþjófsstöðum.

Það var síðla sumars árið 1848, að brezki grasafræðingurinn G. Don safnaði nokkrum grösum í hlíðum Ben Lawers. Flestar tegundirnar voru þekktar áður frá Bretlandseyjum, en ein þeirra var ný. Sú tegund tilheyrði hveitigrösunum, og Don nefndi hana Triticum alpinum án þess að vita, að það nafn hafði áður verið notað um skylda tegund frá Tatrafjöllum. Aðrir grasafræðingar kölluðu grasið Triticum biflorum eða Triticum violaceum og töldu það vera sama gras og vex í fjöllum Skandínavíu og nú er nefnt Roegneria borealis. Því var safnað á sama stað tvisvar síðar, 1878 og 1888, og White, sem fann það síðara skiptið, lýsti því árið 1893 sem nýrri tegund, Agropyron Donianum. Enginn var þó honum sammála, svo að í meira en hálfa öld sást þetta nafn aldrei á prenti og grasið gleymdist jafnvel í Skotlandi.

Þegar hér var komið, vissi Melderis, að stráin frá Valþjófsstöðum og Stóruvöllum tilheyrðu tegund, sem er algeng í Ameríku og á Grænlandi, en óþekkt í Evrópu nema í fjallinu Ben Lawers á Skotlandi. Þrisvar hafði tegundinni verið gefið nafn, en þar eð alþjóðareglur um nafngiftir jurta kveða svo á, að engin tegund megi bera nema eitt rétt nafn, þurfti að athuga vel, hvert nafnanna skyldi nota. Reglurnar ákveða líka, að hið elzta nafn, sem gefið er á sérstakan hátt, skuli vera gilt, og það þótt tegundin hafi verið skírð í annarri ættkvísl en rétt er talið nú. Elzta nafnið á Stefánshveitinu er eflaust Triticum alpinum, en fyrst það hafði verið notað áður um aðra skylda tegund frá Mið-Evrópu, var það nafn ógilt. Ameríska grasið hefir verið nefnt Agropyron pseudorepens í hálfa öld, en það nafn er fjórum árum yngra en Agropyron Donianum. Þess vegna er tegundarnafnið Donianum hið eina rétta, og fyrst Melderis taldi rétt að nota ættkvíslarnafnið Roegneria um hin norrænu villihveiti, hlýtur tegundin, sem Stefán safnaði í Valþjófsstaðabrekkum forðum, að bera nafnið Roegneria Doniana. Íslenzku eintökin eru svo nefnd sem einlent afbrigði eða deiltegund, Stefanssonii, skozka grasið er deiltegundin Doniana, á Grænlandi vex deiltegundin virescens, og í Norður Ameríku deiltegundin pseudorepens. Með öðrum orðum: íslenzku, skozku, grænlenzku og amerísku grösin eru álíka skyld hvort öðru og hinir hvítu, gulu og svörtu kynþættir mannanna, og

hafa myndazt við úrval síðan þau einangruðust hvert frá öðru.

Ég sagði áðan, að vandamál hinna íslenzku villihveita hafi verið leyst í Uppsölum, og átti þá við, að Melderis hafi ekki aðeins getað sannað, að tvær tegundir hafa leynzt undir sama nafni á Íslandi í rúma hálfa öld, heldur og, að íslenzku eintökin tilheyra sitt hvorri deiltegundinni, sem hvergi vex utan Íslands. En vandamálið er þó í rauninni ekki fyllilega leyst enn þá. Ekki svo að skilja, að mikill vafi geti leikið á nöfnum beggja tegundanna og deiltegundanna. En Melderis taldi þær til ættkvíslarinnar Roegneria, sem hann taldi vera vel aðskilda meðal annars frá húsapuntinum, Elytrigia. Erfðarannsóknir, sem ég og nokkrir stúdentar mínir taka virkan þátt í, hafa leitt í ljós, að skipa ber hveitigrösunum í fleiri ættkvíslir en eina, en vafi leikur samt á því, hvort Roegneria er raunverulega nægilega aðskilin frá Elytrigia til að bera sérstakt nafn. Ef frekari rannsóknir leiða í ljós, að þessir tveir flokkar tilheyri einni ættkvísl, en ekki tveim, eiga íslenzku villihveitin eftir að skipta um nafn einu sinni enn, af því að nafnið Elytrigia er eldra en Roegneria og því gilt sem samnefni beggja. En nöfn tegundanna og deiltegundanna breytast ekkert við það.

Nafngiftir jurta eru í rauninni aðeins upphafið að rannsóknum grasafræðinga, og þótt stundum geti tekið hálfa öld eða heila að komast að því, hvaða nafn beri að nota á hverjum stað og hverjir séu nánustu ættingjar jurtarinnar, sem skoða skal, er þetta aldrei nema byrjunin. Næsta spurning er, hve lengi jurtin hafi vaxið á hverjum stað, hvernig hún vaxi þar og með hvaða jurtum öðrum, hvernig hún hafi komið, og hvenær og jafnvel hvernig hún hafi orðið til og hvar. Það myndi taka of mikið rúm að skýra greinilega frá því, sem nú er vitað um þessi atriði öll viðvíkjandi hveitigrösunum, og margt er enn á huldu. En við skulum reyna að gera aðalatriðunum nokkur skil í sem skemmstu máli.

Án þess að geta neinna raka, er bezt að taka fram strax, að enginn efi er á, að langflestar íslenzkar jurtir hafa lifað af jökultímann allan, eða að minnsta kosti síðasta skeið hans, einhvers staðar á Íslandi. Eins ber að geta þess, að nær engar íslenzkar jurtir hafa getað borizt frá öðrum löndum með fuglum, vindum eða hafstraumum síðan jökultímanum lauk. Ýtarlegar greinar um þessi efni er að finna í ritum Búnaðardeildar 1947 eftir Á. og D. Löve, í Hereditas 1953 eftir Á. Löve, og síðast en ekki sízt í Ársriti Ræktunarfélags Norðurlands 1954 eftir Steindór Steindórsson. Meginþorri íslenzkra jurta virðist vera leifar þess gróðurs, sem þakti það land, er tengdi Norður Ameríku við Evrópu fyrir milljónum ára. Flestar tegundirnar eru líka til í fjöllum Norðurlanda og á Grænlandi, en margar hafa ekki komizt til Skotlands einhverra hluta vegna. Ein slík er bláhveitið, sem telja má með sanni til hinna rosknu borgara hins íslenzka grasaríkis.

Þótt víst sé, að flestar íslenzkar jurtir eru leifar þess tíma, er land

lá um norðanvert Atlantshaf, er hitt engu síður öruggt, að nokkrar jurtir hafa borizt til landsins miklu síðar og þó löngu fyrir lok jökultímans. Þetta hefir þó ekki orðið fyllilega ljóst fyrr en hin síðustu ár, vegna þess að áður hafa íslenzkar jurtir ekki verið bornar nógu rækilega saman við ættingja sína austan hafs og vestan. Nokkrar jurtir íslenzkar eru ekki til á Norðurlöndum né vestan Íslands, heldur eru þær algengar á Bretlandseyjum og í Suðaustur-Evrópu. Aðrar tegundir vaxa á Íslandi og í Suður-Noregi, en hvergi annars staðar. Örfáar tegundir vaxa að auki á einstaka stað á Suður-Grænlandi. Allar þessar jurtir benda til þess, að fræ hafi getað borizt vestur á bóginn frekar seint, og ýms rök hníga að þeirri skoðun, að flutningurinn hljóti að hafa verið um landbrú og áður en síðasta ísaldarskeiðið hófst. En það er enn ráðgáta, hvernig staðið getur á því, að mun færri tegundir hafa farið um þessi tengsl austur á bóginn en vestur. Stefánshveitið er eitt þessara örfáu grasa.

Allflókin rök, sem styðjast við rannsóknir á þróunarsögu margra jurta, útbreiðslu þeirra á Íslandi og erlendis, sem og jurtaleifum frá jökultímanum á Íslandi, virðast benda til þess, að allar þessar tegundir hafi borizt til landsins að öðru hlýviðrisskeiðinu loknu, en áður en síðasta hlýviðrisskeiðið hófst, eða með öðrum orðum á næstsíðustu ísöld. Þá var sjávarborð lægra en nokkru sinni fyrr eða síðar, þótt jöklar hafi þrýst löndunum niður líka, og neðansjávarhryggurinn í norðanverðu Atlantshafinu hefir sennilega verið ofansjávar, svo að jurtir gátu komizt yfir land frá Ameríku til Skotlands og öfugt. Ein þessara jurta var Stefánshveitið. Ákveðin rök hníga að þeirri skoðun, að þetta gras hafi verið seint á ferð, svo að það hafi rétt sloppið í land á Skotlandi, þegar sjórinn flæddi aftur yfir hrygginn, og á leiðinni frá Ameríku hafði það tapað miklu af þeirri fjölbreytni, sem enn einkennir tegundina í Vesturheimi. Á Skotlandi hefir það ekki dreifzt mjög langt frá þeim stað, þar sem það kom fyrst í land, en sennilega hefir það verið nokkuð víða á Íslandi, þegar síðasta ísaldarskeiðið hófst. En að því kuldaskeiði loknu hafði fjölbreytni þess í báðum löndunum þorrið svo mjög, að því var með öllu ókleift að dreifa sér langt frá þeim slóðum, þar sem það hafði þraukað af fimbulveturinn. Þess vegna er Stefánshveitið enn í dag, tíu þúsund árum eftir jökultímann, ein sjaldgæfasta jurt Skotlands og Íslands, þótt það sé algengt í Ameríku, þar sem það hafði getað flúið kuldana suður fyrir jökla.

Þau lögmál, sem ráða þróun tegundanna í köldum löndum og ákveða, hvaða tegund breytist og hvernig, eða hvaða tegund getur flutzt um óravegu um skeið, en síðan orðið algerlega staðbundin, eru enn hulin ráðgáta. Þegar sú gáta verður ráðin, mun Stefánshveitið verða einn lyklanna, því að mjög fáar jurtir aðrar virðast heppilegri til slíkra rannsókna. Fá íslenzk grös eiga sér það sem af er merkari sögu, hvað sem síðar kann að verða.

Margir hafa skoðað íslenzkar jurtir síðan Stefán Stefánsson safnaði grösum ungur maður fyrir aldamót, og margt er nú ljóst, sem þá var hulið. Þótt ekkert jafnstórt svæði í Ameríku sé jafnvel þekkt grasalega, er enn ekki sjaldgæft, að áður óþekktar jurtir finnist hér og hvar á Íslandi. En þótt enginn hafi fundið fleiri tegundir á landinu í fyrsta sinn en Stefán og enginn hafi litið fleiri merkar jurtir þar fyrstur grasafræðinga, er vafasamt, hvort hann sá þar nokkra jurt merkari en villihveitið, sem við hann mun kennt svo lengi sem grasavísindi verða iðkuð. Hefði hann skilið gildi þessara grasstráa, myndi hann hafa getað sagt með Símeoni: Lát nú, herra, þjón þinn í friði fara. Hann hafði fundið hið gyllta skinn, egg fuglsins Fönixar, hina merkustu meðal íslenzkra jurta, en vissi ekki, að hann hafði lifað óskastundina. Og það liðu sex áratugir áður en nokkur skildi, að Stefán lifði aldrei merkari dag en þá stund í júlílok sumarið 1895, er hann fór um brekkurnar ofan við Valþjófsstaði í Núpasveit norður.

---

**JAKOBÍNA JOHNSON:**

# Henry Goddard Leach

**Ph.D., LL.D., Litt.D.**

Þess var víða getið á síðastliðnu sumri, er hinn nafnkunni vinur og talsmaður Norðurlanda, Dr. Henry Goddard Leach, átti 75 ára aldurs afmæli. Þess var að sjálfsögðu sérstaklega minnst af American Scandinavian Foundation. Dr. Leach var í stjórnarnefnd félagsins í 40 ár, 1912—1952, gegndi helztu embættum þess á víxl, þar með ritstjórn tímaritsins er það gefur út. Nú er hann heiðursforseti, og á sæti í ritstjórnar- og bókaútgáfunefnd. — Eins og flestum mun kunnugt, er stefnumið og starf félagsins það eitt að efla kynningu Bandaríkjanna og Norðurlanda á grundvelli menningar og mennta, samúðar og vináttu.

Þegar hinar nýju og fullkomnu skrifstofur félagsins í New York borg voru formlega opnaðar um vorið 1952, voru þau hjónin Dr. og Mrs. Leach sæmd heiðursmedalíu: The Scandinavian Gold medal. — Sá atburður var tákn þess þakklætis og þeirrar virðingar, sem hugsandi fólk víðsvegar óskaði að votta þeim fyrir þann mikilvæga og aðdáanlega þátt er þau eiga í því að djarfir draumar stofnenda og velunnar A. S. F. hafa rætzt.

Henry Goddard Leach er fæddur 3. júlí 1880 í borginni Philadelphia. Þar var faðir hans starfandi læknir. Í ættir fram hefur fólk hans átt heima í Ný-Englands ríkjunum. Móðurfólkið er frá Wiltshire á Englandi, og rekur ættir sínar til norrænna manna á eyjunni Mön. Forfeðurnir í föðurætt fluttust til Englands með Vilhjálmi frá Normandý.

H. G. L. útskrifaðist frá Princeton háskóla árið 1903, með láði í ensku og stærðfræði. Síðan fór hann fyrstu ferðina, af mörgum, yfir Atlantshaf og tók að kynna sér norræn fræði við British Museum. Á unglingsárum varð hann hrifinn af sögu og hetjusögum Norðurlanda. Frá þeim lestri stafaði áhuginn í fyrstu — en sló æ dýpri rótum er tímar liðu. Að því leyti minnir hann á William Morris og Willard Fiske, og áhuga þeirra fyrir Íslandi.

Þegar hann hvarf heim aftur gerðist hann kennari við Groton School í Massachussetts ríki. Þar var í þá tíð mikilsmetinn fræðimaður, Dr. Endicott Peabody — hugsjónamaður um samstarf og kynningu þjóða heimsins. Hann veitti eftirtekt þeirri samúð með norrænum þjóðum, sem hinn ungi kennari bjó yfir — og ráðlagði honum að gera menningu þeirra að sérfræðigrein sinni.

Eftir tveggja ára kennslustarf hóf H. G. Leach framhaldsnám við Harvard háskóla. Undir leiðsögn Dr. W. H. Schofield, samdi hann á sínum tíma doktorsritgerð um samband Bretlands og Scandinavíu á 13. öld. Þessi ritgerð var gefin út í bókarformi árið 1921, og nefnd **Angevin Britain and Scandinavia.** Hana er að finna í **Harvard Studies in Comparative Literature** — og hún er álitin sígild bók.

Dr. Leach var þvínæst veittur ferðastyrkur — Harvard Traveling Scholarship. Í tvö ár, 1908 og 1909, kynnti hann sér óprentuð handrit í Uppsölum. Stokkhólmi, Osló, og Kaupmannahöfn. Á þessu tímabili var hann einnig sjálfkjörinn ritari



Ameríska sendiráðsins í Danmörku, undir umsjá Francis Maurice Egans. — Þá byrjaði hann að semja bókina **Scandinavia of the Scandinavians.** Hún er yfirgripsmikil sem fjölfræðibók, og á sama tíma full af samúð með fólkinu sem á í hlut, og skilningi á afstöðu þess. — Árið 1910 var hann kjörinn prófessor við Harvard háskóla í ensku og norrænum fræðum.

Árið 1910 er sömuleiðis stofnár American Scandinavian Foundation. Dr. Schofield ,sem getið er hér að framan, hafði fengið áhuga fyrir verkefni slíkra samtaka, og var einn af stofnendunum. Árið eftir barst þeim stofn-fé að gjöf — hálf milljón dollara — frá dönskum Ameríkumanni, Niels Paulsen að nafni. Þá var óðar byrjað að ráðgera og skipuleggja framtíðarstarf A. S. F. — Árið eftir sagði Dr. Leach upp stöðu

sinni við Harvard og tók að sér ritaraembætti hins nýja félags.

Áhugi Dr. Leach fyrir stefnuskrá A. S. F. var aldrei neinn áróður, heldur hjartans sannfæring. Hann sagði í orði kveðnu: „siðmenning Norðurlanda er á háu stigi, þar er eðlileg samstilling hyggjuvits, fagurfræði og þeirrar hagkvæmu þekkingar, sem daglegt líf útheimtir. Þetta skilur Bandaríkjafólk svo vel. Þessar þjóðir ættu að kynnast nánar. Hin nýja félagsstofnun á að verða milliliður í víðtækri og fjölþættri kynningu þeirra og samskiptum.“ — Hugsjónir hans um stefnu og starfsmöguleika voru frá upphafi tengdar við menning og bókmenntir, — grundvallaðar á skilningi og vináttu fólksins, sem hér átti hlut að máli. Hugmyndin var ný, og útheimti þrotlausa umhyggju, — fundahöld, ferðalög, fyrirlestra og ritgerðir. — Hér vantaði bækur um Norðurlönd. Þær varð að þýða, semja og gefa út. Tímarit var ómissandi. Árið 1913 var byrjað á útgáfu **American Scandinavian Review**, sem var framan af mánaðarrit. Frá upphafi vega flutti það vandaðar ritgerðir, skáldsögur og ljóð. Þar að auki frétta-ágrip frá Norðurlöndum, og yfirlit yfir starfsemi A. S. F. Nú er A. S. R. ársfjórðungsrit, og er að finna á merkustu bókasöfnum víða um heim. — En fréttir af starfi A. S. F. fá áskrifendur ritsins í smáblaðinu SCAN, sem kemur út mánaðarlega. Dr. Leach hefur frá því fyrsta lagt A. S. R. til mesta fjölda af ritgerðum. Hér kom til greina sívaxandi þekking hans á Scandinavíu, og áhuginn sem aldrei dofnaði. — Þá gætti þess ekki síður í bókaútgáfu félagsins. Það er orðið álitlegt safn af þýddum og frumsömdum bókum, sem þar er komið út á ensku til fróðleiks um menningu Norðurlanda og sögu. — Ísland er þar talsvert áberandi. Árið 1954 kom t. d. út ný þýðing á **Njáls sögu**, hin vandaðasta bók. — **A Pageant of Old Scandinavia** (1946) er merkilegt safn af þýðingum úr fornbókmenntum Norðurlanda — leskaflar og ljóð, fjölbreytt úrval. Dr. Leach var í mörg ár að safna í þessa bók, og skipuleggja. Þýðendur og ráðunautar voru sérfræðingar á þessu sviði. Sjálfur þýddi hann margt og ritaði ítarlegan formála.

Þegar útgáfustarfsemi A. S. F. var komin í fast horf, var farið af stað með stúdentaskiptin á milli Bandaríkjanna og Scandinavíu. Hér var um nýtt og stórt verkefni að ræða — mikið átak í fyrstu. Fyrir hönd félagsins ferðaðist Dr. Leach mörgum sinnum yfir Atlantshafið til að vekja áhuga fyrir málefninu og hinni miklu þýðingu er það hefði. Hann talaði fyrir veitingu styrkja til efnilegs námsfólks, frá skólum og öðrum stofnunum, iðnfélögum og fyrirtækjum. Hann ritaði um málið, flutti fyrirlestra, og kynntist persónulega leiðandi mönnum í Danmörku, Noregi og Svíþjóð, á sviði mennta, lista og iðnaðar. Í þessum löndum hélt hann einnig fyrirlestra um Bandaríkin, en heima fyrir um hvert það málefni, sem hann áleit til skilningsauka á menningu hinna norðlægu landa og sögu þeirra að fornu og nýju. Og beggja megin hafsins var hann talsmaður þeirra göfgandi áhrifa, sem gagnkvæm

skipti menntafólks hefði á þjóðirnar. — Nú eru þessi skipti talin sjálfsagt atriði til kynningar og menningar. Nú á tímum bjóðast námsfólki ótal styrkir. Hópar af stúdentum og iðn-nemum (**trainees**) ferðast landa á milli og dvelja tímum saman í umsjá ýmsra félaga, fyrirtækja og stofnana. Dr. Leach trúði á sigur hins nýja málefnis frá upphafi, og fylgdi því fast fram. — Einnig af fjármunum sínum lögðu þau hjónin lið. (A. S. Review, Feb. 1924).

Á árunum 1922 til 1940 gerði Dr. Leach hlé á hinum mikla erli í þágu A. S. F. Hann tók að sér mánaðarritið **The Forum and Century Magazine** og var ritstjóri þess þar til það hætti að koma út, er síðari styrjöldin dundi yfir. — Það var í miklu áliti á sviði opinberra mála og gagnrýni. Kaupendum fjölgaði úr 2,000 í 100,000 undir ritstjórn Dr. Leach. — Á þessu tímabili varð hann einnig eftirsóttur fyrirlesari hjá háskólum og fræðslusamtökum og ferðaðist fram og aftur um Bandaríkin. Hann var jafnt heima í opinberum málum sem í bókmenntum, hafði einstakt minni og flutti erindi sín af áhuga og fjöri, hlýr í viðmóti og fyndinn í orði. Víðsýni hans og víðtæk þekking einkenna hann ef til vill mest sem ræðumann. — Á. s.l. 10 árum hefur hann flutt fyrirlestra á 125 háskólum og "Colleges" í Bandaríkjunum.

Síðan 1940 hefur hann á ný helgað A. S. F. starfsþrek sitt — ferðast, flutt erindi og ritað til að útbreiða þekkingu á áhugamálum félagsins. Enn sjást ritgerðir hans í A. S. R. — oft skemmtilegir pistlar um það sem fyrir ber á ferðalögum — t. d. frá eyjunni **Mön** s.l. sumar — eða á safni **Einars Jónssonar** í Rvík árið áður. Vetrarheftið 1955 flytur á fyrstu síðu grein um **Yggdrasil** eftir hann. Ritdóma um nýjar bækur á hann í því nær hverju hefti. — Hann hefur verið ritstjóri A. S. Review og Scandinavian Classics.

Hvenær hefur Dr. Leach unnað sér hvíldar? Af því fara fáar sögur. Þó er vitað, að um eitt skeið voru skíðaferðir og útivistir upp til fjalla, uppáhalds-skemmtanir hans. Honum voru gefnir stórbrotnir hæfileikar og starfsþol og áhugi eftir því. — Tilbreyting er áreiðanlega hvíldaraðferð mikilvirkra manna. — Winston Churchill málar myndir. Dr. Leach semur fín og fáguð kvæði sem tómstunda-iðju. — **The Fire's Center** heitir falleg ljóðabók eftir hann, sem út kom árið 1950. — Hann er mjög hamingjusamur maður í heimilislífi sínu og á vini og aðdáendur víðsvegar. Þeir óska að „innri eldur" á arni hans brenni glatt sem lengst. — Norðurlönd hafa öll vottað honum vináttu sína og virðingu. Hann er "Commander of the Orders of St. Olav, Dannebrog, Vasa, North Star, Falcon, and White Rose." Þegar Uppsala háskólinn hélt hátíðlegt 350 ára afmæli, árið 1945, var, sökum stríðsins, aðeins einn útlendingur sæmdur heiðurs nafnbót — Ameríkumaðurinn Dr. Henry Goddard Leach, þá forseti American Scandinavian Foundation. — Látlaus gullhringur Uppsala, er eini skartgripurinn, sem hann að jafnaði ber.

Seattle, í des. 1955.

FINNBOGI GUÐMUNDSSON:

# Um vináttu og bréfaskipti

## Stephans G. Stephanssonar og Jóhanns Magnúsar Bjarnasonar

Þegar við lesum hin prentuðu bréf Stephans G. Stephanssonar, rúm sjö hundruð að tölu til um það bil fjörutíu vina hans, undrumst við einna mest það þrek, er öll sú bréfagerð hefur krafizt. Og þá ekki einungis líkamsþrekið, sjálft handverkið, sem prentað er á rúmum þúsund stórum blaðsíðum (Bréf og ritgerðir Stephans G. Stephanssonar, Reykjavík 1938—1948), heldur miklu fremur hið andlega þrek, er þurfti til að halda sambandinu við alla þessa menn, suma þeirra um áratuga skeið. Mætti líkja bréfaskiptum Stephans og vina hans við menn, er halda streng yfir breiðan ál án þess nokkurn tímann að slaka svo á, að öldur áhugaleysis og dofinsháttar nái að væta og loks buga strenginn úr höndum þeirra. Mun Stephan varla nokkru sinni hafa orðið fyrri að bréfslitum, þótt stundum yrði langt á milli bréfa. En 9. janúar 1891 segir Stephan t. d. í bréfi til Sveins Björnssonar:

Vinur,

Ekki er nú nema ár síðan ég skrifaði þér seinast, en skrambi er það víst langt, því hreint er ég búinn að gleyma, hvenær það var, og það sem verst er, ég held ég sé búinn að týna addressi þínu. En samvizkan í mér er reyndar ekki tiltakanlega áhlaupasöm, en mesta seiglingsskepna er hún, hún hefir aldrei látið mig þess óminnugan, að þú ættir hjá mér bréf, og þess vegna kem ég til þín á „örkinni", og svo er mig farið að sárlanga eftir línu frá þér.

Sjáum við í þessum fáu línum undirrót bréfaskrifta hans, þar sem annars vegar er trúmennska hans við þá, er gerzt höfðu tryggir að skrifa honum, en hins vegar þörfin eftir andlegu samneyti við sem flesta og bezta menn. Er augljóst, að bréfaskriftir hans hafa fyrst komizt í algleyming eftir að hann var setztur að í Alberta, og eru engin bréf, að því er virðist, varðveitt frá því fyrir flutninginn þangað. Við sjáum, að bréfvinir hans eru annað hvort gamlir kunningjar frá yngri árum hans, svo sem frá dvölinni í Norður Dakota (1878—88), eða nýir vinir, sem honum hafa áskotnazt á ýmsan veg, t. d. þannig, að sumir aðdáendur ljóða hans fengu ekki orða bundizt og skrifuðu skáldinu í viðurkenningarskyni. Hófst einmitt með þeim hætti bréfasamband þeirra Stephans G. og Jóhanns Magnúsar Bjarnasonar, er nú verður skýrt frá að nokkru. Styðst ég í því efni við hin prentuðu bréf Stephans G. og syrpu af áður óprentuðum

bréfum J. Magnúsar Bjarnasonar til Stephans, er nú eru í vörzlu íslenzkudeildar Manitobaháskóla. Er hér þá í upphafi kafli úr fyrsta bréfi Magnúsar til Stephans, skrifuðu 30. maí 1896, er Magnús var kennari í Geysisbyggð í Manitoba:

Kæri herra,

Þér mun þykja undarlegt að fá bréf frá mér — manni, sem þú þekkir ekki minnstu ögn. En orsökin til þess, að ég rita þér þessar línur, er sú, að ég var einmitt núna að enda við að lesa öll kvæðin þín í „Öldinni". Ég er einn af þeim mörgu, sem ljóð þín hafa haft mikil áhrif á, og ég hefi engin íslenzk kvæði lesið, sem ég hefi haft meira yndi af en ljóð þín og Þorsteins Erlingssonar — að undanteknum kvæðum þeirra Jónasar og Bjarna.

Það var þungt loftið hér í dag, og það lá illa á mér, og mig langaði til að lesa eitthvað fjörlegt og skemmtilegt, — já, eitthvað, sem létti af mér leiðindunum. Ég gekk að bókaskápnum — hann er reyndar ekki stór — og ég fór að leita að einhverri skemmtilegri bók. Ég rak augun í Byron og Tennyson: ég las nokkrar línur í „Don Juan", en hætti von bráðar, svo fór ég að fletta Tennyson og rak mig þá á „The poet's song" eftir hann, og um leið hugsaði ég til þín. Og hvernig sem annars á því stóð, þá fannst mér þetta litla fagra kvæði Tennyson's einhvern veginn benda mér á fallegu kvæðin þín. Ég tók svo „Öldina" og las hvert einasta kvæði, sem þar er eftir þig — og mikil og skemmtileg ljóðabók er það sannarlega. Þegar ég hafði lokið við að lesa kvæðin, voru leiðindin algerlega horfin, og ég hugsaði mér að rita þér nokkrar línur; ekki þó af því, að ég ímyndi mér, að þú hafir nokkurt gaman af því, heldur af hinu, að ég stytti mér stund með því, — ég er ætíð svo makalaust eigingjarn.

Að svo búnu minnist Magnús á fáein kvæði, er hann kveðst sérstaklega hrifinn af, en fer síðan að segja Stephani frá Karli Kuchler í Leipzig, er þá var að semja sögu íslenzkra bókmennta á 19. öld og hafði um vestur-íslenzk skáld og rithöfunda stuðzt við heimildir frá Magnúsi. Bréfi sínu lýkur Magnús á þessa leið:

Þér fer nú að þykja nóg komið af svo góðu. Ég fer því að slá botninn í. Vænt þætti mér að fá eina eða svo línu frá þér. Ég treysti því fyllilega, að þú fyrirgefir mér allt þetta rugl og barnaskap — ég er alltaf svoddan blessað barn, þó ég sé orðinn 28 ára gamall. — En ef til vill er alltaf bezt að vera alltaf barn, að minnsta kosti að geta fundið til eins og barn, því maður veit þá, hvað lífið í raun og veru er — maður finnur þá bæði sætleik þess og beizkju.

Líði þér ætíð vel.

Ég er þinn einl.

**J. Magnús Bjarnason**

Þessu bréfi Magnúsar svaraði Stephan 28. júní, þá staddur í Pokan, fjarri heimili sínu. Fer bréfið, sem er stutt, hér á eftir:

Kæri herra,

Kæra þökk fyrir vingjarnlegt bréf, sem ég fékk framsent að heiman hingað út í óbyggð. Ég er

við landmæling sem stendur, á annað hundrað mílur frá heimilinu, það er ekki til neins að segja þér hvar, staðurinn finnst hvergi, nema ef til vill á landabréfi yfir Undirheima. Komist ég til Mannheima aftur, skal ég skrifa þér, þetta er aðeins málamynd, því hér hefi ég engin tök á að skrifa. Ég hefi þar að auki erindi við þig. Beztu þökk fyrir hlýlegheitin til mín, sem ég alls ekki hefi unnið til.

Þinn einlægur Stephan G.

Tókust þannig bréfaskiptin með þeim Magnúsi og Stephani og héldust meðan báðir lifðu, rúm þrjátíu ár. Umræðuefnin urðu mörg, en þó einkum bókmenntir hvers konar, bæði íslenzkar og erlendar. Var Magnús vís til að segja Stephani frá ýmsu, er hann hafði lesið nýlega, og inna Stephan síðan eftir skoðunum hans í þeim efnum. Hefur Magnús þannig komið Stephani til og hrundið honum út í margvíslegar hugleiðingar, er okkur er nú mikill fengur í að eiga til enn frekari skilnings á skáldinu og viðhorfi þess til manna og málefna samtíðar hans. Varð Magnús og brátt sólginn í bréf Stephans og mat þau meir en bréf nokkurs annars manns. Birti ég hér upphaf af bréfi Magnúsar til Stephans 9. nóvember 1897:

Góði vinur minn,

Þökk og aftur þökk fyrir þitt skemmtilega bréf, dags. 24. okt. Þér að segja var ég orðinn frekar langeygur eftir bréfi frá þér, en vonin vék ekki frá mér, heldur söng hún eins og svanur í heilanum á mér, — alltaf sama lagið og sömu orðin: „Það kemur, það kemur.“ Og ég var svo sem alltaf viss um, að það mundi einhvern tíma koma; og sjá! Það kom, svo hægt — svo hljótt — og færði með sér eitthvað, sem gerði mig léttari í anda en áður og lyfti mér hátt upp yfir strit og áhyggjur daglega lífsins hérna í skógunum, því í skógunum getur lífið líka tekið nógu ónotalega á vesalings barnakennaranum; og þó verð ég að taka undir með Byron mínum og segja: „There is a pleasure in the pathless woods.“

Já, bréfið þitt var mér sannarlega kærkominn gestur. Það komu reyndar fleiri gestir um leið — fleiri bréf, bæði alúðarrík og skemmtileg, en bréfið þitt fékk undir eins öndvegissætið hjá mér; það hvíldi einshvers konar viðfelldin glaðværðarblær yfir því og eins og enskurinn segir: „It had a winning frankness about itself.“

En um leið og Magnús kveikti í Stephani, kviknaði í honum sjálfum, og finnum við í bréfum hans margan fróðleik um Magnús, er við vildum síður án vera. Í bréfinu 9. nóvember skýrir hann t. d. frá því, hvernig hann hagar dagsverki sínu:

„Ég er ekki afkastamikill, en ég get stært mig af því að vera iðjusamur. Reyndar fer ég aldrei á fætur fyrr en klukkan 8 árdegis. Klukkan 9 er ég í skólanum. Klukkan 4.30 eftir miðdag er ég kominn aftur heim. Hálfum tíma síðar sit ég við að lesa eitthvað, sem aukið getur þekking mína. Frá kl. 8 til 10 að kveldinu rita ég bréf mín eða les höfunda. Þannig ver ég öllum dögum vikunnar (á vetrum) að undanteknum laugardögum og sunnu-

dögum: Á þeim dögum er ég heilmikill **author** and **poet**. Ég get þessa af því ég álít það skyldu mína að láta þig vita, hvernig tímataflan mín er; — og svo náttúrlega meðfram af því, að ég vil láta þig halda, að ég sé ofurlítið sýnishorn af Sir Walter Scott, að því leyti, er reglusemi snertir.

Vorið 1898 veiktist Magnús og var þungt haldinn fram á sumar. Sendi hann þá eitt sinn Stephani línu og bað hann blessaðan að skrifa sér langt og skemmtilegt bréf. Dróst ögn fyrir Stephani að svara því, og gerir hann svohljóðandi grein fyrir drættinum (20. júlí 1898): Bréfið þitt fékk ég fyrir tveim vikum, kæra þökk, en strax gat ég ekki svarað því, ég átti þá ekki þak yfir höfuðið. Húsið mitt gamla var ég að rífa niður og byggja upp aftur. „Púltið" mitt stóð úti á hlaði með öllum mínum fjársjóðum í, kvæðunum mínum og skræðunum, en ég náði ekki í neitt af ritfærum og gat hvergi verið, ekki einu sinni undir beru lofti, því oftast rigndi. Í dag hefi ég unnið síðan kl. 6 í morgun, vel og svikalaust, þangað til kl. 9—10 í kveld, fór svo að hátta, en ég er svo ólánssamur, að ég get ekki sofið, hvernig sem ég reyni, og þó á ég það skilið, ekki er ég svo ranglátur, svo fór ég á fætur kl. 12 til að skrifa þér.

En undir lokin, er hann hafði skrifað „langt og skemmtileg" bréf, segir hann: Klukkan er að ganga fjögur, Magnús, bráðum birtir úti. Ég ætla að sofna hérna ögn fram á púltið, þangað til ég smala kúnum.

Þó að okkur þyki „tímatafla" Stephans þennan dag furðuleg, var hún samt ekkert einsdæmi og sýnir okkur ljóslega, hvernig og hvenær mörg verka hans eru í rauninni til komin.

„Það er eitt, sem ég fæ aldrei skilið," sagði gamall sveitungi Stephans eitt sinn við mig, „og er ég þó oft að grufla út í það, en það er, hvernig hann [Stephan] fékk komið öllu þessu í verk. Hann var þó að vinna eins og við hinir."

Næsta bréf Magnúsar, 5. ágúst, er eitt af ýtarlegustu og beztu bréfum hans, og eru mörg þau mál, er hann þar þarf að bera undir Stephan. M. a. segir Magnús í bréfinu:

Ég hef lengi haft langa skáldsögu á prjónunum, sem ég læt fara fram í gömlu íslenzku nýlendunni í Nýja Skotlandi, þar sem ég undi mér í æsku. En ekkert hef ég getað unnið að sögu þessari í sumar. Á ég að hætta alveg við að rita skáldsögur og snúa mér að ljóðagerðinni? Eða á ég að hætta við hvorutveggja? Hvað ráðleggur þú mér í því efni? Ég hef haldið áfram að rita skáldsögur beinlínis vegna þess, að fyrstu sögurnar mínar fengu svo þungan ritdóm. Kvæði mín hafa jafnan fengið betri byr: Jón Ólafsson og Matthías töluðu hlýlega um þau, og Einar Hjörleifsson hvatti mig til að halda áfram ljóðagerðinni. En ég þarf aðfinningar — ég læri af þeim.

Stephan hafði heitið á sig að svara bréfi Magnúsar um jólin, en það fórst fyrir. „Þá átti gamlárskveld eða nýárið að verða afturhvarfsstundin, en á gamlársdag sagaði ég eldivið, hirti 40 stórgripi og keyrði 8 mílur yfir óbyggðir til æskufélaga míns, sem hafði fengið

þá grillu, að ég yrði endilega að éta og drekka með sér það kveld. Fyrir dag gekk ég heim, hálfsyfjaður, lúinn og einn míns liðs, eins og gamla árið. Í birtingu stóðum við þrír saman á fellsbrúninni fyrir ofan dalinn hérna, **nýársmorguninn, brunanæðingurinn** og **ég**, og áttum eftir 4 mílur heim til mín. Við reyndum okkur niður hlíðina, en þeir urðu svo langt á undan, því þegar ég kom heim, sat **nýársmorgunn** undir vesturveggnum á húsinu mínu, bláleitur í framan og hálfskjálfandi. Hann var kominn fyrir góðri stund og búinn að ráfa kringum húsið. Og **brunanæðingurinn**, hann var búinn að snuðra upp hverja smugu á húsinu, við dyrastafinn og gluggatrén, kominn inn í hvert herbergi, upp í rúmið mitt og inn á milli rekkjuvoðanna, sem voru svo kaldar, eins og hann hefði legið við þær alla nóttina. Þá var enginn tími til að skrifa þér, Magnús, ég þurfti að saga við í ofninn minn.

Dróst þannig að skrifa bréfið fram til 4. janúar, en þá munaði líka um það, varð á þriðja þúsund orð. Hugleiðingu Magnúsar um skáldsagnaritun og ljóðagerð svarar Stephan á þessa leið:

Þú spyrð, hvort þú eigir að halda áfram með sögu. Fyrir alla muni, já, ef þú mögulega getur og annað hugðnæmara efni hefir ekki komizt „upp á milli". Skálddísin er ósveigjanleg örlaganorn og öfundsjúk eins og Jehova. Það er um að gera að sitja og standa eins og hún vill, þ. e. a. s. yrkja aldrei utan við sig. „Helvítis konuríki er þetta," sagði karlinn, þegar kerlingin hans hengdi á hann grútarlampann, svo hún sæi til hans, þegar hann gekk í myrkrinu með vinnukonunni út í fjósið. Svo er hitt, maður verður að vera ósérplæginn eins og haustið, sem sáir legíónum frækorna, þar sem ekki nema eitt nær að frjóvgast. Fyrir hverja eina línu, sem lifir mann, fara líklega þúsund í ruslakistuna.

Í bréfinu 5. ágúst (1898) minntist Magnús á væntanlega útgáfu á ljóðum sínum, og birti ég ummæli hans hér:

Fari svo, að kvæði mín komi á prenti í bókformi (sem ef til vill verður bráðum, ef Skúla Thoroddsen og mér semur), þá ætla ég að biðja þig að segja fáein orð kvæðunum í vil, svo framt að þú sjáir eitthvað nýtilegt í þeim. Ég er einn míns liðs og ekki kappi mikill, og kæmi mér því vel að eiga einhvern góðan stuðningsmann að, þegar **„critics"**-örvarnar fara að drífa að mér. Ein lítil setning getur verkað mikið í þeirri hríð. Komi kvæðin út, þá sendi ég þér strax eitt kverið. —

Við skiljum betur eftir lestur næsta bréfs Magnúsar til Stephans 28. janúar 1899, hvað hann á við, þegar hann kveðst vera einn síns liðs. Í bréfinu segir Magnús svo m.a.:

En „herre Gud!" (segir hann gamli Jón Sveinsson, nábúi minn, þegar hann minnist á pólitík Benedikts bróður síns). Og „herre Gud!" segi ég, þegar ég hugsa til þeirra mörgu þúsunda, sem keppa um það að kallast skáld. Ég tek ekki svo einfalt dagblað, að ég sjái ekki nafn einhvers, sem er að byrja að „illustrera sitt nafn", eins og höfuðpresturinn að orði kemst. Hvert einasta tímarit

kemur mánaðarlega með alveg spánýjan höfund, og maður gengur varla svo í hús nábúa síns, að maður reki sig ekki á skáld, sem rétt er að springa út. Hér í byggð eru um fjörutíu fjölskyldur, og er víst 5ti hver maður og kona talin að vera skáld (af fólkinu sjálfu, vel að merkja).Það kemur varla sá sunnudagur, að ég sé ekki beðinn að hlýða á nýtt kvæði eða sögustúf; en í þau fjögur ár, sem ég hef verið hér, hef ég enn ekki verið beðinn að lesa neitt eftir sjálfan mig, hvorki í heimahúsum né á samkomum. En ég hef verið beðinn iðuglega að flytja eitthvað eftir aðra, því almenningsálitið hér er það, að ég geti ekki slegið saman ferskeytta vísu, sem nokkurs virði sé, en að ég kunni aftur á móti vel að flytja kvæði og sögur eftir aðra — það er að segja: að ég kunni dável að lesa, því ég sé góður kennari. Hér er Gunnsteinn skammt frá — hann kalla menn hér um slóðir „góðskáld"! Þorsteinn Borgfjörð á hér land tvær mílur frá mínu húsi; hann kalla menn „þjóðskáld" (eins snjallan og Jón E. Eldon). Svo eru þeir hér synir Jóns Guttormssonar, Vigfús og Guttormur; báðir nefndir „gæðaskáld". Þá er Haraldur, sonur séra Sigurgeirs prests að Grund í Eyjafirði; hann telja menn með „stærri" skáldum í Vesturheimi. Þá má telja Sigurgeir nokkurn Einarsson og Jón Stefánsson og Baldvin Halldórsson. En Andrés Jónsson Skagfeld er fluttur til Selkirk; — en í Selkirk er annar hver maður talinn hagorður. Í kringum Gimli er sá urmull af skáldum, að undrum sætir. Jafnvel þeir Thompson og Guðni yrkja. Allstaðar eru skáld. Kennararnir eru skáld (flestir). Allir íslenzku prestarnir í Vesturheimi yrkja að undanteknum síra Jóni. Allir, sem komið hafa inn fyrir skóladyr á Íslandi, yrkja, þegar þeir koma hingað til lands. Ég þekki tvo karla, sem tóku til að yrkja í fyrsta skiptið, þegar þeir voru komnir hátt á sjötugsaldur: annar þeirra á nú nærri því hálft koffort af handritum. Svo eru til **flökkuskáld** — það er kvalræði að verða fyrir þeim.

Ljóðmæli Magnúsar voru prentuð á Ísafirði 1898, og var Skúli Thoroddsen kostnaðarmaður útgáfunnar. Sendi Magnús Stephani eintak (í marz) og kvaðst treysta honum til að minnast ljóðmælanna í Heimskringlu eða Lögbergi, ef hann fyndi eitthvað nýtilegt í þeim. Hafði Stephan í bréfi sínu 4. janúar lofað, ef bókin kæmi út, að segja það gott um hana, sem hann hefði vit á. Og við það átti hann eftir að standa, svo sem hans var von og vísa. Birtist ritdómur hans í Heimskringlu 13. apríl, skrifaður af mikilli velvild og nærgætni. Tilfærir Stephan nokkur dæmi úr kveðskap Magnúsar til þess að sýna yrkisefni hans og aðferðir. Vitnar Stephan í vísu eftir Longfellow, er hann þýðir á þessa leið:

Þá grípur mig angurværð einhver,
en ástríðulaust og svo milt
og sorginni álíka áþekk
sem úðinn og regnið er skylt.

En segir síðan: Þessi „ástríðulausa angurværð" er einkennið á bezta skáldskap Magnúsar. Hann er enginn víkingur, sem býst að sigla

hvert haf og taka strandhögg á hverju nesi. Hann er frumbýlingur, sem ræktar blómsturgarð inni í skóginum á vatnsbakkanum og finnur til þess, að jarðvegurinn er enn of rætinn og skuggarnir af trjánum of þéttir.

Er ritdómur Stephans þannig víða skáldlegur og skemmtilegur og augsýnilega tilþrifameiri en efnið, sem hann fjallaði um! Af bréfum Stephans og reyndar að nokkru ritdóminum sjálfum verður ráðið, að Stephan hefði ekki samið hann nema fyrir bænarstað Magnúsar. Lýsir hann vel viðhorfi sínu til ritdóma í eftirfarandi kafla úr bréfi til Magnúsar 30. apríl 1899:

Annars vil ég láta þetta verða seinasta og fyrsta skiptið, sem ég legg opinberan dóm á ný skáldskaparrit. Ég trúi sem sé, að það sé neyðarúrræði, að þeir þurfi að dæma um þess háttar, sem sjálfir fást eitthvað við það. Það fer bezt, ef það gerir skáld, sem aldrei hefir sjálfur ort, fagurfræðingurinn. Hvert skáld fylgir sinni „stefnu", sem hann er „innlífaður". Mælisnúra skáldskaparins er óendanleg, eins og hann sjálfur. Hver okkar á sinn spotta af henni og trúir stundum, að það sé snúran öll. Svo er hitt, sé nokkuð til í manni af embættisríg eða afbrýðissemi, er tækifærið of freistandi; jafnvel þó maður reyni að vera óvilhallur, kemst maður ekki hjá grunsemi annarra.

Þegar Magnús sá ritdóminn í Heimskringlu, varð hann himinlifandi og skrifaði Stephani hjartnæmt þakkarbréf, er byrjar á þessa leið:

Minn kæri vinur,

Hér er hönd mín; í anda tek ég í hönd þína og kreisti hana eins innilega og nokkur maður hefur nokkru sinni kreist vinarhönd. Og svo ætla ég að segja eins og enskurinn: **„God bless you, my friend!"** Í svipinn hef ég ekki önnur orð betri, en hamingjan veit, að ég hef ekki orð á neinu máli, sem gætu lýst tilfinningum mínum og þakklæti til þín fyrir það, sem þú segir um kvæðin mín.

Augljóst er af þessu bréfi Magnúsar og öðrum síðar, að ritdómur Stephans hafði góð áhrif og örvaði sölu ljóðmælanna. En Stephan sá ekki til gjalda fyrir greiðann og bað Magnús þess að fyrra bragði að geta ekki opinberlega um ljóðabálkinn Á ferð og flugi, er prentaður var í Reykjavík árið 1900. Fann hann á sér, að sumt í honum kynni að falla illa ákveðnum hópi manna, og mundi Magnús einungis hafa tjón af að tala hlýlega um slíkt. Jafnframt hefur Stephan ekki viljað gefa mönnum kost á að segja, að þeir Magnús væru að klappa hvor öðrum á öxl. En ummæli Magnúsar um ljóð Stephans í bréfum til hans voru honum að sjálfsögðu kærkomin og hafa hvatt hann meira en auðvelt er að gera sér grein fyrir. Ætla ég aðeins að grípa tvö atriði úr bréfum Magnúsar, er Stephani hlýtur að hafa þótt mjög vænt um, hið fyrra frá 12. janúar 1898:

Einu sinni bað unglingur einn mig um að velja handa sér ágætt kvæði til þess að lesa á samkomu, sem haldast átti hér í byggðinni. „Nú, lestu Illugadrápu," sagði ég. Og hann las hana alla á samkomunni fyrir hérumbil 150 manns — og

aldrei hef ég heyrt neinn ungling lesa betur kvæði, enda dáðust allir að því. Pilturinn heitir Gunnlögur og er nú í háskóla suður í Bandaríkjum. Þú átt þar meðhaldsmann, þar sem hann er.

Síðara atvikið er úr bréfi Magnúsar 6. september 1899:

Hér um daginn kom maður á leirljósum sunnan tún, því það er **tún** hjá mér eins og á heldri heimilum á Íslandi. Maðurinn reið mikinn, eins og meiri háttar maður. „Þarna kemur Hjörtur Leó," sagði ég við sjálfan mig, og það var satt. Maðurinn var Hjörtur Leó. Hann steig af baki við húsdyrnar, sleppti hestinum í hána á **túninu** mínu, svo hljóp hann inn (nefnilega Leó, en ekki hesturinn), kastaði sér aftur á bak í sóffann minn og heilsaði mér þá fyrst (með handabandi, en ekki kossi — í því sem öðru er hann mjög ólíkur síra Jóni mínum). Jæja! Hjörtur var ekki búinn að vera fimm mínútur í sóffanum **mínum** (því það var minn „prívate" sóffi, sem hann sat á) áður en hann fór að lesa upp úr sér kvæði eftir þig. Kvæðið var: „Vögguvísurnar", sem komu í „Hkr." í vor. Aldrei hef ég heyrt eins aðdáanlega borinn fram kveðskap eins og í það skiptið. Ég vildi óska, að þú hefðir heyrt til Hjartar það kvöld, sem hann dvaldi hér hjá mér — hann er andlegur fjörkálfur.

Þó að Magnús hlyti góða dóma fyrir ljóðmælin ,snerist hugur hans nú meir að skáldsagnagerð. Í bréfi 9. júlí árið 1900 kveðst hann nýlega hafa sent II. þátt Eiríks Hanssonar áleiðis til Karls Kuchler, er síðar muni koma honum til prentarans. Segist Magnús hafa skrifað suma kaflana fjórum og fimm sinnum og engan kafla sjaldnar en þrisvar. Í sama bréfi segir hann m. a.:

Ég er byrjaður á nýrri sögu, sem ég ætla að kalla: „Braziliíu-fararnir." Ég er þegar búinn með nokkra kapítula. Það er langt síðan ég hugsaði mér ganginn í þeirri sögu, og hefi ég haft mikið fyrir að fá mér nákvæmar upplýsingar viðvíkjandi ferðalagi og kjörum þeirra Íslendinga, sem fluttu til Braziliíu.

Ég er í svipinn hættur við alla ljóðagerð; og fái ég ekki verri dóm um næsta þátt „Eiríks" en þann, sem þegar er útkominn, þá hætti ég algerlega við ljóðagerð.

Mun Magnús einkum eiga við ummæli Þorsteins Erlingssonar (í Bjarka 10. okt. 1899), Jóns Ólafssonar (í Nýju Öldinni í desember 1899) og sr. Friðriks Bergmanns (í 9. árgangi Aldamóta 1899). Fara þeir allir vinsamlegum orðum um þennan fyrsta þátt Eiríks Hanssonar og spá vel fyrir höfundi. Þó að ég viti ekki, hvort Magnús hefur, þegar hann skrifar bréf sitt (9. júlí 1900) verið búinn að sjá dóm Valtýs Guðmundssonar í Eimreiðinni (VI. árg. 142. bls.), set ég hér smákafla úr honum, þar sem hann tekur í sama streng og hinir:

Er frásagan hin skemmtilegasta og ber vott um eigi alllitla skáldsöguhæfileika hjá höfundinum. Verði áframhaldið jafngott og þessi fyrsti kafli, þá verður hann ekki neðstur á bekk meðal íslenzku sagnaskáldanna. Málið er og furðu lipurt, ekki sízt, er þess er gætt, að höfundur hefir alið mestan aldur sinn í Ameríku.

En dráttur varð á útgáfu annars þáttarins, og féll Magnúsi það miður. Þegar svo saman fóru líkamleg vanlíðan og nokkur vonbrigði yfir þeim viðtökum, er honum fundust sumir veita verkum hans, gerðist hann þögull og þunglyndur. Er ekki að sjá, að hann hafi skrifað Stephani nema eitt bréf árið 1901 og það snemma í janúar. Var því ekki að undra, þótt Stephani væri farið að lengja eftir bréfi í ársbyrjun 1902, er hann sendi Magnúsi eftirfarandi erindi (24. janúar):

Ertu veikur?
Ertu reiður?
Eða hvað?
Þrumi ég smeykur,
þagnarleiður.
Það er að.

Svar Magnúsar er nú ekki til varðveitt, en Stephan hefur skrifað honum alllangt bréf 14. febrúar og telur þar í hann kjark. Hefur Magnús þá vaknað við, og lýsir hann í bréfi til Stephans 20. marz orsökum hinnar löngu þagnar, er reyndust, þegar til kom, fremur vonbrigði hvers konar en veikindi. Í bréfi sínu hafði Stephan haldið því fram, að varla gæti verið öðru um að kenna en efnaleysi, er Oddur Björnsson hafði dregið svo útgáfuna á II. þætti Eiríks Hanssonar. Kvaðst Stephan ekki mundu telja eftir sér, ef Magnúsi væri nokkur hugnun að því, að senda Oddi línu, „en ég held,“ segir Stephan, „að hann taki ekkert mark á, þó fjósakarl vestur undir Klettafjöllum færi að hotta á hann.“

Það varð þó úr fyrir áeggjan Magnúsar, að Stephan hottaði á Odd. Skýrir Stephan Magnúsi frá því í bréfi til hans 13. apríl. Í sama bréfi segir Stephan, er hann reynir að herða Magnús upp gegn ónærgætnum ritdómum:

Það var enginn ritdómari, þessi „H“ í „Dagskrá“, og hann sagði ekkert illt um þig. Hann sagðist „sjá úr enskum bókmenntaheimi“, en mér fannst eins og tröllunum forðum, að það hefði mátt laga hægra augað og hagræða vinstri glyrnunni. Taktu þér aldrei ritdóma nærri, ef þú mögulega getur. Þú þarft þess ekki. „Bjarki“ gat þín til góðs, „Aldamótin“ vingjarnlega, „Nýja öldin“ jafnvel hlýlega, og er ég þó hræddur um, að þú þykist eiga þar úlfs von, sem þú sérð eyru Jóns míns Ólafssonar. Hver ætli annars hafi skap til þess að fara illa með þig, lambið mitt, þegar til alvörunnar kemur?

Bréf Stephans til Odds Björnssonar virðist hafa hrifið, að minnsta kosti komst skriður á útgáfuna sumarið 1902. Sendi Magnús Stephani eintak, og þakkar hann fyrir það í bréfi til Magnúsar 22. desember. Birti ég hér smákafla úr bréfinu:

Ég las „Runka“ þinn með ánægju og þakka þér kærlega fyrir hann. Ég hefði þurft að lesa fyrri og seinni hlutann saman, vel og dyggilega, og liggja svo á þeirra meltu nokkra daga, eins og hákarl, ef ég hefði átt að gera honum full skil, en það varð ekki í þetta sinn. Það, sem ég segi því um hann og þig nú, er því aðeins skyndihugsanir í miðjum lestri, en ekki glöggt yfirlit.

„Eiríkur Hansson“ er ævisaga þín

sjálfs, svo langt sem komið er, ekki svo að skilja, að hver söguviðburður hafi komið endilega svona fram við þig, en þú hefðir alls staðar breytt og hugsað nærri eins og hann. „Eiríkur Hansson“ er sveitasaga úr dauðlygnasta nýlendulífi Íslendinga vestan hafs — enn sem komið er. Svona efni er dagsatt, en verður ekki gert áhrifamikið. Þú tekur ljósmynd af þér og öllu kringum þig. Sjálfur ertu ljúfmannlegur og allt í kringum þig, svo manni verður vel við þig, aðeins grunar mann stundum, að þú snúir sem sjaldnast duttlungasemi mannlegrar náttúru að okkur; að við hefðum komizt af með færri „sæta meinleysingja“. Skáldskapurinn hjá þér liggur í látlausri kýmni í atvikalýsingum, ekki í orðunum sjálfum (eins og t. d. sumu um frú Patrik) eða þá í ímyndunum Eiríks sjálfs, ævintýrakynjuðum útúrdúrum (eins og t. d. þeim um íkornann í trénu, í auðu Íslendingabyggðinni). Mannlýsingar þínar eru flestar glöggvar, hið ytra; en af því þú kynnist svo mörgum, eru sumar ekki nema óopnuð skel; það er ekki tími til að sýna innviðina, lyndisfarið.

Og seinna segir Stephan:

Nú hefi ég þá lesið ögn í höfuðið á „Eiríki“ þínum. Þú ætlast kannske til ég spái fyrir honum líka. Jæja þá, honum verður vel fagnað, hvar sem hann kemur fram, og hann verður maður langlífur. Hann kemur úr nýjum heimi, hann eykur við landnám íslenzkra bókmennta; því verður honum vel tekið. Hann er Landnáma Vestur-Íslendinga (meira en ártal, nöfn og plægðar ekrur), fólkið, sem landið nam, landið, sem numið var, og þjóðin, sem það fólk bjó við; því verður hann framtíðarbók.

Ef þú rekur það smiðshögg á „Eirík“, sem hann þarf, að koma honum nokkur ár vestur í aðalbyggðir Íslendinga, þar sem sögulegir atburðir gerðust, þær sem ekki eyddust, þar sem andleg landnámsstríð voru líka háð með búskaparstríðinu og verða háð til úrslita, — ef þú getur leyst þá þraut af hendi, þá ritar þú meira en „Landnámu“, þú ritar „Sögu“.

Þessi seinasta vísbending Stephans kom þó aldrei til greina, því að Magnús hafði þá þegar rekið smiðshöggið á Eirík, svo sem ljóst verður af eftirmála hans, skrifuðum í Geysi í Manitoba 30. nóvember 1902. Gerist „Eiríkur“ að kalla allur austur í Nýja Skotlandi, þótt leikurinn sé undir lokin látinn berast vestur í aðalbyggðir Íslendinga.

Skrifaði Magnús því aldrei „Sögu“ í þeim skilningi, sem Stephan lagði í orðið í fyrrgreindu bréfi sínu.

Næsta bréf Magnúsar er örstutt, skrifað á nýársnótt 1903. Segir hann þar m. a.:

Góði vinur,

Gott og gleðilegt nýtt ár!

Hjartans þökk fyrir bréfið þitt, sem kom til mín í kvöld. Og beztu þökk fyrir álit þitt á „Eika“ mínum. Ég segi þér meira síðar um „Eirík“, en í þetta sinn skrifa ég þér eingöngu til þess að óska þér gleðilegs árs og þakka þér fyrir vináttu þína og tryggð til mín á árinu, sem liðið er. Ég býð nú óþreyjufullur eftir ritdómi „Dagskrár“. Ég verð að

kalla á vini mína, ef ritdómur sá verður ósanngjarn.

En ritdómur sá, er Magnús kveið svo mjög, kom aldrei — í Dagskrá, því að hún leið undir lok snemma á árinu 1903 (seinasta tölublaðið var prentað 24. marz).

Leið nú langur tími án þess Stephan, að því er séð verði, frétti nokkuð frá Magnúsi. En 2. apríl 1904 segir hann í bréfi, sem skrifað er að Garðar í Norður Dakota:

Það er nú langt síðan að ég skrifaði þér. Og ég verð að biðja þig að fyrirgefa mér, hvað lengi ég hefi dregið að svara síðasta bréfi þínu. — Í fyrrasumar skrifaði ég engum; ég var þá á stöðugu ferðalagi bæði um Argyle-byggð og Dakota-nýlenduna. Í októbermánuði settist ég hér um kyrrt, og hefi ég verið undir læknishendi dr. Halldórssonar síðan. — Í allan vetur hefi ég beðið eftir því, að síðasti þáttur Eiríks sögu Hanssonar kæmi hingað vestur; ætlaði ég þá að senda þér eitt eintak ásamt nokkrum línum. En þessi þáttur er enn ekki kominn hingað vestur svo ég viti.

Og síðar í þessu sama bréfi segir Magnús:

Nú er ég alveg hættur að yrkja. Það er ekki fyrir smábörn eins og mig að standa í ljóðagerðar-hringiðunni hérna í Dakota og Manitoba. Þeir ganga berserksgang í Winnipeg, hagyrðingarnir, og stundum með fylktu liði, og berja nú á prestunum — guðsmönnunum sjálfum. En ekki kann ég við þenna hagyrðingafélagsskap, og hann fellur um koll undir eins og einn eða tveir í félaginu skara fram úr hinum. — Ég óska þeim samt til lukku og blessunar.

Fáeinar blaðsíður hefi ég skrifað (í vetur) af hinni nýju sögu minni „Braziliúfararnir". Saga sú verður í V þáttum (eða á að verða). Í Lögbergi kom einn kapituli úr síðasta þætti sögunnar.

En einmitt þegar Magnús virðist hafa siglt fyrir flugabjörg hinna ósanngjörnu ritdóma og komizt út á rúmsjó ritstarfa sinna á ný, ríður yfir hann ólag úr óvæntri átt. Árni Pálsson, þá ungur við nám í Kaupmannahöfn, hefur af rælni lesið II. þátt Eiríks sögu Hanssonar og skrifar nú, tveimur árum eftir útkomu þáttarins, ótugtarlegan ritdóm um hann í 10. árgang Eimreiðarinnar. Þykir honum frásögn Magnúsar bæði „bragðlaus og merglaus", kjarnyrði engin í bókinni, „en lopinn er teygður með mikilli nákvæmni og þolinmæði". Tínir Árni til ýmis dæmi, sum réttmæt, en önnur af hreinni hótfyndni.

Varð Magnúsi svo mikið um, er hann las ritdóm Árna, að honum féllust í svipinn algerlega hendur og hafði við orð að skrifa ekki staf framar. Sárnaði honum einkum að verða fyrir slíku í Eimreiðinni, þar sem ritstjórinn sjálfur, Valtýr Guðmundsson, hafði skrifað vinsamlega um I. þátt sögunnar og spáð vel fyrir Magnúsi sem skáldsagnahöfundi. Skrifaði Magnús Stephani skömmu síðar og mælist þar óbeinlínis til, að hann rétti hlut hans og svari ritdómi Árna. Skrifaði vinur beggja, Eggert Jóhannsson, einnig Stephani þar að lútandi, eflaust fyrir áhrif frá Magnúsi.

En Stephan færðist hógværlega

undan þessari kvöð, og er bezt að láta hann sjálfan skýra afstöðu sína í bréfi til Eggerts Jóhannssonar 23. desember 1904:

Þá til efnisins. Ég vissi, hvern veg sakir stóðu. Magnús hafði skrifað mér tvö bréf, eftir áfallið, og ég svaraði. Ég vissi, hvað hann meinti, þó hann segði það ekki nema undir fótinn. Ég reyndi að tala í hann kjark, en ekki gerði ég nú betur. Ég vil honum sannarlega vel, skil, hve hörundsár hann er og bara vorkenni það, en álasa ekki — en sit í vandræðum. Það vildi ég, að ég gæti gefið honum svo sem fimm fjórðunga af kæruleysi mínu — ég hefði sjálfsagt bjargálnir af því samt. Ég sé ekki, að dómur Árna sé slíkt skaðræði. Maðurinn sjálfur er enn ekki bókmenntastórlax, sem vitnað verður til. Hann á það kannske eftir. Dómurinn er einhliða yfirgrip, sem engan krók gerir að leita neins, sem betur fer. Matthías og Kuchler, báðir nafnfrægir, lofa Magnús, og alþýðan kaupir upp ritið, svo nærri kvað uppselt — er ekki svona lagaður bráðabirgðadómur vel viðunandi í þessari upp-og-niður veröld? Meistarastykki fá öfundardóm, sé öðru ekki til að dreifa.

Þá reifar Stephan það sjónarmið sitt, að sá, sem færi mál sjálfur, eigi ekki að vera dómarinn líka, en snýr sér loks að viðhorfi sínu til skáldsagna og segir þá m. a.:

Við skáldsögur er mér verst lagið að eiga. Ég yfirgaf þær fyrir löngu, aðeins les þær stöku sinnum, eina og eina, til gamans, ekki til gagn-skoðunar. Viljandi er ég þar ekki heima. Í upphafi var í eðli mínu nokkuð, sem er í ætt við skáldskap. Kvæði mín sýna það. Í þeim flestum er sögubrot — frá „Heimskautaförunum“ gegnum „Loft gamla á Vaðli“ ofan til „Innri mission“. Það er það, sem Helga Pétursson o. fl. árar fyrir, þegar þeir eru að gizka á, hvað orðið hefði, ef ég hefði oftar ritað óbundið mál. En kringumstæður breyttu þessu í mér. Tími minn var tóm aðskot og löng tómstundaleysa; sögufjörið sofnaði út á þeim seinagangi eða var byggt út af yngra efni og nýrra. Ég gat ekki haldið sömu hitunni við um tugi ára. Því gerði ég ljóð, en reyndi að gleyma sögum. Ég er ánægður; ljóðagerð er elzt og bezt allra dísanna og verður til veraldar enda. En þegar maður viljandi forðast fornvinina, verður maður óglöggur á þá. Svo er ég.

Stephan skrifaði Magnúsi bréf viku síðar (30. des. 1904) og telur þar enn í hann kjark með svipuðum rökum og fram koma í bréfinu til Eggerts. Um þá ákvörðun Magnúsar að neita — í bili a. m. k. — góðu tilboði, er hann hafði fengið í Braziliúfarana, segir Stephan svo m. a.:

Íslenzkar bókmenntir eru til aðeins sem „brauðlaus list“, frá upphafi bókmálsins. Jónas og Bjarni kváðu í þegjandi þögn allra nema örfárra vina, yfir samræðum. Það voru engin blöð til að geta um þá, og ef að var til blað, var það ekki blaðasiður. Munur er **nú** á — jafnvel þó einhver Árni-Páll taki mann í karphúsið. Og því finnst mér, að þú hefðir ekki átt að hafna allgóðu boði, Magnús minn, þó einn ritdómur gengi þér þunglega. Ný bók og betri er hvers höfundar bezta vörn fyrir lögréttu bókmenntanna.

Er auðfundið, þegar við heyrum næst frá Magnúsi, að hvatningarorð Stephans hafa haft góð áhrif á hann. En í bréfi 2. febrúar 1905 segir Magnús svo:

Góði vinur,

Gott og gleðilegt nýtt ár. — Þökk fyrir bréfið þitt, 30. des., það sótti einmitt vel að mér, bæði andlega og líkamlega.

Það er satt, sem þú segir, að ég þarf ekki að vera stúrinn útaf ritdómi Árna Pálssonar, því menn, sem eru viðurkennd skáld, hafa farið hlýlegum orðum um þann þátt „Eiríks", sem hann lastar. Og vel veit ég, að það er satt, að ný og betri bók er hvers höfundar bezta vörn fyrir lögréttu bókmenntanna, eins og þú segir í bréfi þínu. En á hinn bóginn er ég, eins og þú veizt, lítill þrekmaður og finn oft sárt til af því, sem flestir aðrir mundu álíta smámuni eina. Og enginn finnur betur til þess en ég sjálfur, hvað ég er með köflum hlægilega viðkvæmur og — bráðlyndur. Ég hætti alveg að hugsa um ritdóm þenna. Mér er sagt, að Árni Pálsson lesi sögu (eða fornfræði) við háskólann í Höfn og sé prýðilega gáfaður maður, en nokkuð einkennilegur. Faðir hans kvað vera prestur. Veiztu, hverra manna hann er?

Í bréfi frá Magnúsi 6. maí sjáum við, að hann er farinn að hugsa sér til hreyfings með Brazilíufarana. Kemst hann svo að orði um þá: Ekki er sagan mín (hin nýja) komin til prentaranna enn. Ef til vill prentast hún aldrei, og reyni ég þó allt sem ég get til að koma henni út hér megin hafsins.

En úr þessu rættist von bráðara, og var fyrri þáttur Brazilíufaranna prentaður í Winnipeg þetta sama ár, 1905. Af framhaldinu, öðrum þætti, fréttum við ekki fyrr en 2. janúar 1907 í bréfi til Stephans, er Magnús hefur skrifað í Marshland í Manitoba, þar sem hann var þá orðinn kennari. Segir Magnús í bréfinu m. a.:

Ég hefi fáar frístundir frá búverkum og skólakennslunni, en þó sezt ég niður stund og stund til að hreinskrifa og endurbæta „Brazilíufarana" (II. þátt). Stundum hálfiðrast ég eftir því að hafa nokkurn tíma byrjað á því verki, en af því að I. þáttur er kominn út, verð ég að láta prenta síðari þáttinn líka.

Kom sá þáttur út í Reykjavík ári síðar (1908), og var þá sagan öll.

Um veru sína í Marshland segir Magnús í sama bréfi:

Bústaður minn er nú um 90 mílur norðvestur frá Winnipeg og tólf mílur fyrir vestan Manitobavatn. Ég kann hér dável við mig, því útsýnin er skemmtileg. En þó þykir mér hér eitt að, og það er: að póstur fer hér um aðeins einu sinni í viku — á hverjum fimmtudegi. Mig langar á stundum aftur til Nýja Íslands, en af því að ég missti landið, sem ég átti þar, vil ég ekki flytja þangað aftur. Ég varð að láta landið í pant, þegar ég veiktist um árið, en gat svo ekki leyst það út aftur, þegar til kom.

Stephan skrifaði Magnúsi, að því er virðist, ekki fyrr en í ágúst, hafði frétt, að Magnús hefði verið veikur, og innir hann nú eftir líðaninni í bréfi, er lýkur með þessu fallega erindi:

Veðrið góða, Magnús minn,
máli rjóða fölu-kinn,
heilsu í blóðið andi inn —
auki hljóði í strenginn þinn.

Bréfasendingar milli þeirra Magnúsar og Stephans gerast um þessar mundir miklu strjálli, minna um að vera hjá Magnúsi, en Stephan allur með hugann við útgáfu Andvakna, er prentaðar voru í þremur bindum í Reykjavík 1909 og 1910 á vegum 34 vina hans vestan hafs.

Í stuttu bréfi, er Magnús skrifaði Stephani 1. janúar árið 1910, minnist hann á Andvökur:

Ég hefi lesið ljóðin þín, sem út eru komin; og ég hefi lesið þau aftur og aftur með meiri og meiri ánægju. Ég hlakka til að sjá síðasta heftið. Hjartans þökk fyrir ljóðin þín.

Sama ár kom út í Reykjavík sagnakver eftir Magnús: **Vornætur á Elgsheiðum**, og sendi hann Stephani þegar eintak. Þakkar Stephan fyrir það í bréfi 7. des. 1910:

Þökk fyrir „Vornæturnar". — — — — Ég las þær allar, þegar sama kveldið, og hafði skemmtun af, og er þó mjög mikið af skáldsögum, sem ég hefi enga eiru til að lesa, tiltölulega fátt af skáldsögum, sem mér finnst ekki ég vilja strika orðið „skáld" framan af. Ég held, að þessu kveri þínu verði hlýlega tekið. Ef til vill ekki langt mál um það ritað af hverjum einum, af því þú ert ekki „nýr fugl", en kunnur af Eiríki.

Í bréfinu þakkar Stephan Magnúsi jafnframt fyrir vinsamleg ummæli hans um erfiljóð það, er Stephan hafði þá nýlega ort um góðvin beggja, Magnús Brynjólfsson.

Magnús hafði nú enn skipt um dvalarstað, fór um haustið 1910 frá Marshland til Wild Oak, nokkru austar rétt á bökkum Manitobavatns. Segir hann um flutninginn (í bréfi 28. nóv. 1910):Jæja, hingað er ég kominn — „hingað og ekki lengra", þegar allra veðra er von — kominn í skjólið í skóginum við vatnið. En ég hálfpartinn sakna nú grassléttunnar fyrir vestan, því sjóndeildarhringurinn er þar þó stærri en hérna. — Þeir fluttu hús mitt hingað með öllu saman, svo breytingin er ekki eins tilfinnanleg og ella. Samt átti ég í fyrstu hálferfitt með að átta mig á umhverfinu, þegar ég kom út á morgnana, eins og innbúar Aladínshallarinnar, fyrst eftir að hún hvarf með þá til Afríku. En tíminn og vaninn jafna það allt.

Stephan hefur fundið, þótt fjarri væri, að Magnús þyrfti að hrista sig upp með einhverjum hætti, og hvetur hann Magnús óspart (í bréfi 23. október 1911) til að breyta um starf: Þú mátt nú til að hætta kennslunni, Magnús, um nokkurt skeið að minnsta kosti, annars eyðileggur hún þig bæði að heilsu og hugsunum. Mér er það alvara, það stenzt enginn þetta tilbreytingarleysi. Sama verkið, árin út og inn, er eins og að slá alltaf ofan í vatnið með puntstrái, eða manni finnst svo, sem er hið sama; samtíð og framtíð manns verður eilíf flatneskja, þar sem hvergi markar fyrir spori, og þeim er þetta hættulegast, sem mest er fjölhugsandi, og einkum þeim, sem eitthvert listamannseðli er í, af því allt líf er nú hreyfing, en aðsetan óhollust því, sem mest er lifandi. Það er jafnvel stundum bót í

breytingum til þess, sem virðist verra.

Munu fleiri hafa hvatt Magnús hins sama og þeirra fremstur Eggert Jóhannsson.

Réðst það loks, að Magnús brá sér með tilstyrk nokkurra vina sinna vestur að hafi, og frétti Stephan frá honum þaðan í bréfi 20. júlí 1912, þar sem Magnús segir m. a.:

Ég hefi í hyggju að dvelja hér á ströndinni um hríð, loftslagið hér á vel við heilsu mína, og ég er hrifinn af sjó og fjöllum. Ég held, að ég verði hér stálhraustur með tímanum. Ég finn, að mig langar til að starfa, en draummaðurinn (eða brotið af skáldinu) í mér sefur nú vært og rumskast ekki, og tel ég það óbrigðult batamerki.

Fékk Magnús atvinnu sem bókhaldari hjá Þorsteini Borgfjörð byggingarmeistara, og hélt hann því starfi fram til 1915, er hann fluttist aftur til Manitoba og tók upp kennslu á ný.

Þegar Stephani G. var boðið vestur að hafi snemma árs 1913, bar fundum þeirra Magnúsar saman í annað sinn. En fyrst höfðu þeir fundizt 6. nóvember 1908 á heimili Magnúsar í Marshland. Hefur Magnús lýst þeim og öðrum fundum þeirra vel í stuttri grein um Stephan í Tímariti Þjóðræknisfélagsins, IX. árgangi (1928).

Fór nú að dofna mjög yfir bréfasambandinu milli þeirra Magnúsar og Stephans, og er ekki að sjá, að þeir hafi skrifazt á nema stöku sinnum, helzt um hátíðar. Er til kveðja frá Magnúsi á jólum 1918, er Stephan hefur aftur þakkað í janúar 1919. Var Magnús þá við kennslu í Otto, Manitoba.

Árið 1922 settust þau Magnús og Guðrún, kona hans, Hjörleifsdóttir að í Elfros í Saskatchewan, þar sem þau bjuggu til æviloka (1945). Mun þetta „nágrenni“ við Stephan hafa hvatt hann til að reyna að heimsækja hann, og gafst honum kostur á því í júnímánuði 1924 í fylgd með þeim Jóhannesi lækni Pálssyni, vildarvini þeirra beggja, og Jóni Hallgrímssyni. Varð þessi heimsókn til þess að hressa við bréfaskipti þeirra. Sjáum við, að andinn er þar hinn sami og í fyrri bréfum þeirra, sama fjörið og sami ylurinn. Ég tek hér smásprett úr bréfi Stephans 1. september 1924. Er það hugleiðing um **Wasteland** eftir T. S. Eliot, er Jóhannes Pálsson hafði sent honum:

Í gær las ég „Landauðna-land“. Skilningur minn gekk þar sneyptur frá, en ekkert hissa, hann hefir áður kennt smérþefinn af „symbolism“, „impressionalism“, „fútúrism“, „kúbism“, „dadaism“ og alls konar skálda-„kveisu“. Flest slíkt er mér ánægjulaust og botnlaust, en ekki að ég hneykslist þó á því. Sumt af því hefir lengi til verið í góðum, gömlum skáldskap, og farið vel. Nú hefir það verið gert að einæti og óæti, en einhver matur kann úr því að verða, og aldrei má skáldskapurinn úldna upp í sama sullinu. Séð hefi ég, að í Surtshelli okkar sé eitthvert krot á vegg, fornt, sem enginn ræður enn í. Kannske þýðir einhver það, og verður þá skýring á ævintýri Hellismanna — eða flumbrur eftir fjárreku beitarhúsamanns, þegar hellirinn var fjárborg.

Sviðið allt er sandroks-ský.
Sjón mín er ei skýrri
en það, að missa áttir í
eyðimörku nýrri.

Ég þakka hamingjunni fyrir alla, sem eru bara „leirskáld“ samkvæmt nýstefnunum, þó ekki aftæki ég, að þessi moldviðrisfjöll kunni að fæða eitthvað meira en mús, og menn, sem glöggvir þykjast, spá því. „Lad gaa“, segir Daninn.

En bréfi sínu 1. september lýkur Stephan með þessari fallegu ósk til Magnúsar:

Óska þér, að öll þín kvöld verði þér eins blíð og fögur eins og þau, sem yndislegust eru um sumaraftna í Alberta. Betra þarftu ekki.

Og jólakveðju Magnúsar svarar Stephan enn með nýrri ósk, er hann segir (á aðfangadag 1924):

Magnús minn. — Þökk fyrir kveðjuna og komuna. Og komdu aftur.

Sé þér hlýr til hagsældar
heimur nýr og sögur,
við ævintýri ellinnar
æskuhýr og fögur.

Kona mín og ég, og ég þori að segja: sveitin hérna, leggja kærar kveðjur sínar innan í umslagið, ósýnilegar, en einlægar.

Þó að svo virðist sem þeir Magnús og Stephan hafi skipzt á skeytum fram á vorið 1927 (Stephan dó 10. ágúst það ár), hefur ekki varðveitzt bréf frá Magnúsi yngra en frá 2. febrúar 1925. En það kemur í rauninni ekki að sök, því að í þessu bréfi gerir Magnús ósjálfrátt upp skipti þeirra í rúman aldarfjórðung.

Læt ég Magnús nú ljúka greininni með eftirfarandi kafla úr þessu seinasta bréfi hans til Stephans, er varðveitzt hefur:

Góði vinur,

Margar góðar gjafir fékk ég um jólin, en engin þeirra var eins fögur og engin eins kærkomin og sú, er þú sendir: vísan þín hin hlýja og elskulega. Ég hefi raulað hana fyrir munni mér á hverjum degi, og oft á dag, því að „thing of beauty is a joy forever“, eins og Keats komst að orði. — Já, hjartans þökk fyrir þessa gullfallegu vísu.

Ég man eftir því, að þú sendir mér vísu hér um árið, þegar ég var mjög vesæll. Og vísan er svona:

Vorið góða, Magnús minn,
máli rjóða fölu-kinn,
heilsu í blóðið andi inn
og auki hljóði í strenginn þinn.

Ég er viss um, að vísa þessi átti góðan þátt í því, að mér batnaði. Ég fór með hana eins og helgan dóm — eins og barn með kvöldljóð sín. — Ég get sagt þér það, Stephan, að þú hefir verið **mér** um mörg ár — meira en fjórðung aldar — verulegt ákvæðaskáld í orðsins beztu merkingu, því að ljóðin þín (og ekki síður bréfin þín) hafa ávallt hresst mig. Eða með öðrum orðum: Þú hefir jafnan kveðið mér gleðiorð.

J. P. PÁLSSON:

# Umvending Tom Tinde

**Neðanskráð andlegt æfintýri er hér fært í letur til viðvörunar þeim, sem fýsir að leita týndra sauða af Íslands-ætt. —Höf.**

Tom Tinde hefi ég aldrei augum litið. Þykist þó þekkja hann betur en margan, sem ég umgengst daglega. Því ráða þau ódæma bréfaskifti, sem okkur fóru á milli svo árum skifti. Auk þess hlýddi ég á hann daglega í útvarpinu, fyrst af tilviljun, síðar eftir að dætur mínar höfðu sannfært mig um, að þarna væri landi á ferðinni. Þær fullyrtu, að á mæli hans mætti merkja svo sterkan íslenzkan hreim, að ekki væri um neitt að villast — Tom Tinde væri Íslendingur. Og svo nasvísar eru stelpurnar á þetta fyrirbrigði, að ég sló þjóðerni Tom Tinde föstu, þrátt fyrir nafn hans. "What's in a name?" spurði Shakespeare. Danir eiga hér sinn útvarpsloddara, Viktor Borge, en við náskyldir þeim og ekkert á móti því, að okkar maður heiti Tom Tinde. Hann er sá sem koma á, hugsaði ég með mér og varð himinlifandi feginn.

Svoleiðis stóð á fyrir mér — og stendur enn, — að eftir, að lærðir bókmentamenn settu mig í **Vestan um haf** og skipuðu mér þannig í flokk skálda, rithöfunda o. frv., hefi ég pínst og kvalist af afskaplegri löngun — ég vil segja ástríðu — til að eitthvað af skáldverkum mínum, eða hvað það nú er, kæmist á framfæri í Hollívúdd. Þaðan liggur leið andans manna til fjár og frama og ég vildi óður og uppvægur komast í slagtogið með þeim. En það gekk ekki, hvernig sem ég skrifaði og símaði als lags Hollívúdd herrum. Svörin voru öll uppá sömu bókina lærð, semsé, auglýsingar. Eins og ég væri maðurinn, sem ætti að kaupa alt það sem framleitt er í Kanalandi. En til þess hafði ég hvorki efni né löngun, og var fyrir löngu hættur öllum Hollívúdd-hugsunum, þegar Tom Tinde kom til sögunnar. Við það vaknar á ný metnaður minn, fjár- og frama-þorstinn.

Girði ég mig enn í brók, eins og maður sagði í gamla daga, og skrifa mínum nýfundna landa sendibréf. Meðal annars læt ég álit mitt á honum í ljós. Tel hann upprennandi stjörnu o. s. frv., o. s. frv. Spyr hann hvort hann sé Íslendingur. Kveðst sjálfur vera skáld eða eitthvað svoleiðis nokkuð, og vilji vitlaus komast í bréfasamband við upprennandi Hollívúddstjörnu, sem líkleg væri til, að koma ritverkum mínum á markaðinn, svo alþjóð fengi notið ágætis þeirra. Sem aldrei skyldi verið hafa, gat ég þess, að meiri hluti allra Íslendinga væri skáld, og því hefði hann, Tom Tinde, fifti-fifti tjens til að vera skáld eða eitthvað í þá átt, hafi guð og náttúran fylt æðar hans íslenzku blóði og bein frónskum merg. Bréfið hreif. Loks fékk ég svar frá Hollívúdd.

Tom Tinde sýndi geysimikinn áhuga fyrir ætt sinni og uppruna. Hann taldi lítinn efa á ætterni sínu, þó hann hefði verið búinn að steingleyma því. Við bréf mitt hafði ýmislegt rifjast upp fyrir honum. Nú mundi hann greinilega, að þegar hann byrjaði í barnaskóla, kunni hann ekki orð í ensku, en las íslenzkuna reiprennandi. Á þessu var orðið algert hausavíxl og vísiversa, og bað hann mig blessaðaan, að umvenda því öllu saman. Í póstskrift gaf hann mér leyfi til að senda sér smávegis skrif eftir mig — helzt á ensku. Við það fór ég allur á loft. Má hver lá mér það sem vill. Ég ætla ekki að afsaka það. Segi bara, líti hvert skáld í sjálfs síns barm.

Margt og merkilegt fór okkur á milli í póstinum. Ég leit á hann sem inn týnda sauð og þann hundraðasta og mig sem inn góða hirði. Stefndu nú allir mínir andlegu kraftar, og eru þeir nokkrir, að einu takmarki, nfl., lokka Tom Tinde inn í Þjóðræknina. Var sál mín svo óskift við fyrirtækið, að mér gleymdist fyrirhuguð frægð og auður, sem ég ætlaði mér upphaflega að hafa upp úr viðskiftum við nýfundna landann. Og ekki sýndi hann minni áhuga fyrir málefninu. Vildi vitlaus kynnast öllu sem íslenzkt má kallast, og helzt nema tunguna og öll íslenzk fræði. Og þegar ég benti honum á, hversu mikill tími útheimtist til þess arna, kvaðst hann skoða þetta uppátæki sitt sem hobbí, svo það stæli ekki frá sér tíma, og fyltist golflegum áhuga fyrir öllu sem íslenzkt er, og biður mig í öllum bænum, að segja sér hvar það dót sé að finna eða senda sér eitthvað af því, hafi ég það við hendina.

Til að byrja með ráðlagði ég honum að hlaupa í símaskrána og leita uppi þau nöfn sem enda á **sson.** Þar væri landa fyrir að finna, og gæti Tom Tinde gengið upp að honum, eða þeim, og heilsað eins og þeir væru gamlir vinir. Skyldi hann segja til ætternis síns en ekki nafns — svona til að byrja með. Mikið lá við, að landinn væri við aldur. Helzt áttræður eða vel það. Tækist kunningsskapur með þeim, mundi öldungurinn reynast bjargvættur Íslendingsins í Tom Tinde, hversu djúpt sem hann væri sokkinn í Kanasukkið. Í millitíðinni sendi ég honum Zoega ásamt allstórum pakka af blessuðum blöðunum okkar. Á að gizka sitt pundið af hvoru, Lögga og Kringlu og einn Sam bara svona til smekkbætis. Öll voru blöðin gömul, og því fremur dýrmæt, en ekki taldi ég það eftir. Eiginlega sendi ég þau, svo honum yrði ljós ljóðgáfa landans, þó hann kynni ekki málið. Listin segir til sín hvar sem kveðskapur sézt á prenti. Hjálpast þar að upphafsstafir og línulengd og eru það oft aðaleinkenni yfirburða bundins máls yfir ið óbundna. En með alþýðuskáldskap vorum hér vestra hugði ég bezt, að vekja skáldið í týndum sauð af Íslands-ætt, og tókst það vonum framar. Mun þó öldungurinn íslenzki, hvers nafn endaði á **sson,** átt drjúgan þátt í uppfræðslunni, og það ekkert síður en ég. Hvað um það, bréfin frá Tom Tinde báru það með sér, að hann var að læra íslenzku og gekk það vel. Tekur hann að krydda tilskrifin með ís-

lenzku-slettum. Voru þær oft undur fögur og skáldleg lýsingarorð. Með þessu sór hann sig í ættina; og sagði ég honum, að hann væri góður Íslendingur og að mínum dómi skáld af guðs náð. Og líða svo vikur og mánuðir að Tom Tinde rennur námskeiðið með ágætum án þess að rekast á nokkurn skapaðan hlut. Svo rakst hann á.

Hann rakst á þjóðararf vorn og bar sig illa. Kvaðst varla líta svo í íslenzkt blað, að arfsins væri þar ekki getið, en finna hvergi aðferð til að gerast hluthafandi í honum, og vill að ég segi sér á hvern hátt einn landi í Ameríku megi krækja í sinn hlut erfðagóssins. Eftir því sem honum skilst á hann löglega heimting á slurk af reitunum. Hann hafði borið þetta í tal við kunningja sinn, sem er lögfræðingur. Lögfræðingurinn hristi bara höfuðið. Enda náttúrlega bara mentaður uppá Kanalög.

Sé ég nú að Tom Tinde er sýrður og sósaður af amerískum materíalisma af verstu tegund. Spursmál hvort íslenzk andlegheit megna að útrýma slíkri mammonísku. Svo ég leiði hjá mér, að svara erfðarellunni, en legg alla áherzluna á, að sannfæra hann um skáldagáfu hans og in sönnu verðmæti vors dýrmæta menningararfs, sem fólginn er í tungu vorri og bókmenntum. Þegar svo ég er búinn að véra og ossa, í löngum kafla, bæti ég þessu við:

Það er haft eftir hámenntuðum Fransmanni og diplómat í þokkabót, að íslenzkan sé svo þrungin af vizku, að ekkert vitlaust né heimskulegt verði rætt eða ritað á þeirri tungu. Erum vér því gáfaðri en nokkurt annað fólk og bókmenntir vorar aldeilis óviðjafnanlegar og ganga næst Nóbelsverðlaunum. Þetta, en hvorki lönd né lausir aurar, er vor dýrmæti menningararfur og ef til vill ið eina sem Salómon hefði ekki kallað hégóma.

Tom Tinde varð stórhrifinn af því sem haft var eftir Fransmanninum af því hann var ekki Íslendingur, og sór sig enn í ættina. Orð mín um Salómon kvað hann tilgátu eina, sem hann kærði sig ekki um, að andæfa af því við værum vinir. Svo hélt hann áfram að jagast um erfðagóssið. Sagði, eins og satt er, að auðurinn hafi verið, sé enn og verða muni undirstaða allrar menningar, og vitnaði í mannkynssöguna og Bandaríkin. — Sönnuðu ekki orð Fransmannsins, að íslenzk menning er á afskaplega háu stigi? Jú! Ergó: Þjóðin hlýtur að vera stórauðug, að minnsta kosti eftir höfðatölu. Svo komu fjárskýrslur og alskonar hagfræðilegur útreikningur, alt mér óskiljanlegt og ekki svara vert. Ég stríddi þó við þessa meinloku hans á andlegan hátt og eftir megni, en hefði farið halloka í þeirri baráttu, hefðu ekki íslenzku skáldin gengið í lið með mér. Í þeim lá Tom Tinde nótt og dag eða réttara sagt í ljóðabókum þeirra. Þeim var það að þakka, að ég sigraðist á auragirnd hans — ef sigur skyldi kalla. Það tók ekki betra við, því nú tekur hann hugsýki, eins og langt og ýtarlegt bréf hans sýnir.

Erfðir eru þrennskonar, skrifar Tom Tinde, efnalegar, líkamlegar og andlegar. Hvað þær efnalegu snertir, mega þær fara fjandans til fyrir mér, skrifar hann. Þær eru hvort ið er ekki annað en það, sem mölur og

ryð fær grandað — skítt með þær! You can't take it with you. En hvernig er svo komið með vorar líkamlegu erfðir, t. d. lit húðar, hára og augna, vaxtarlag, skapgerð, m. fl. o. fl., Ætli það gangi ekki alt bráðlega úr sér, þegar landar og löndur ganga í hjónasæng og annað með alskonar útlendu hyski og þó bolsar séu? Sömu útreið fá vorar andlegu erfðir, þegar ekki finst lengur landi hér, sem talar eða les á íslenzkt mál. Og mun þessa ekki lengi að bíða. Nú þegar er svo komið, að finnist unglingur, sem stautfær er á íslenzku, er honum hampað á opinberum mannamótum líkt og sýningargrip. Þar er hann látinn þylja sögur og kvæði yfir húsfylli af fólki, sem fæst skilur íslenzku. Og beri lesturinn það með sér, að lesarinn skilji sjálfur hvað hann er að fara með, þykir sú kunnátta ganga kraftaverki næst. Hann er settur í íslenzk fréttablöð og gert þar jafnhátt undir höfði sprenglærðum fyrirlesara-prófessórum þó þeir geti haldið ræður í stórborgum álfunnar og gert stykki sín hvort sem heldur er á íslenzku eða ensku. (Hér vitnar bréfritarinn í Lögga og Kringlu). Og ekki er að sjá, að ungir lærdómslandar fljúgist á um, að komast undir háskólastólinn í Winnipeg. Þar mun lífið vera daufara en svo. Væri það á annan hátt, mundu þau Löggi og Kringla geta þess. Og hvers er þá að vænta í framtíðinni? — Og stóllinn uppá kvart-miljón og meira til — herregúð! — Ekki vantaði, að Tom Tinde kynti sér íslenzk málefni. En alt sem hann hafði upp úr því, var ógleði og ergelsi, sem vall útúr bréfum hans, líkt og syði uppúr grautarpotti.

Ég geri hvað ég get. Sýni honum fram á alt, sem hann græðir á því, að kynnast mér og Lögga og Kringlu og öðrum íslenzkum verðmætum, er telja megi andleg, „gull og gersemi" og — kvóta Sólon okkar. Öll þessi „djásn og dýrmæti" hljóti að efla leikaraskap hans og andagift og muni reynast honum vegaljós og fótalampi á listavegi hans með ágætum, bæti ég við til uppbótar. En allar fortölur mínar reyndust árangurslausar. Tom Tinde sér ekki lengur útúr sótþoku örvæntingarinnar og tekur að kvóta Kristján — „Lífið alt er blóðrás . . ." o. s. frv. En þó var annað verra. Rödd hans hætti að birtast í útvarpinu. Og sá ég þá fyrst hversu langt hann var leiddur. Ég spyr hann hvað valdi þögninni. Hann svarar með annari spurningu. — Hvers virði er oss fé og frami á ensku, höfum vér týnt vorum dýrmæta menningararfi? og kvótar enn Kristján — „Myrkur hylur marar-ál . . ." o. s. frv. — Svona var hann umventur!

Þegar þannig er komið skírskota ég málinu til eðallyndis, göfugmennsku og kærleikslundar Tom Tinde, og raunar allra þeirra dygða, sem einn landa prýða, og tek á allri minni víðtæku þekkingu á lífeðlisfræði, heimspeki og félagsfræði, til að skýra fyrir honum út í yztu æsar, hvernig íslenzkar erfðir eiga eftir að bæta eðli og innræti annara þjóða. — Hver veit, skrifa ég honum, hver veit hvílíkur undramáttur leynist í einum íslenzkum blóðdropa? í einu kvintini af frónskum merg? Hvað lýsti betur með-

fæddri mannást vorri og sjálfsafneitun en það, að leggja arfleifð vora alla á fórnarstallinn, mannkyninu til ævarandi kynbóta.

Þessu tók Tom Tinde úrstint. Var ekki aldeilis á því, að ausa út sínu íslenzka eðliságæti um heim allan. Kvað það vera, að kasta perlum fyrir svín, og fylla flokk þeirra, sem eru altaf að þynna, þynna þynkuna allra hinna — og kvótaði þá báða, Þorstein og Stephan og lét illa. Eftir það voru svör hans við bréfum mínum mestmegnis vísur og vers, sem íslenzk þjóðskáld höfðu ort uppúr fyllirii, kvennafari eða eftir messu. Bölsýni hans var að verða mér ofurefli og var ég í þann veginn að gefast upp, þegar mér kom í hug, að beita við hann krossunum.

Krossana veitir íslenzka stjórnin öllum löndum sem eru þeirra verðir, skrifa ég Tom Tinde. Tákna þeir nákvæmlega manngildi, fé og frama, fræðimensku, m. fl. þeirra, sem eru þeim sæmdir. Og svo örlát hefir íslenzka stjórnin reynst löndum hér vestra, að teljandi persentum þeirra ber hver einn kross eða fleiri; og efast ég ekki um, að Tom Tinde tækist að ná í einn, með útsjón og lagi. Íslenzkt þjóðerni, fé og frami ásamt auglýstum áhuga fyrir viðhaldi vors dýrmæta menningararfs — alt þetta hefir hann til að bera á háu stigi. Og þó hann sé ekki kanske stórefnaður, mætti láta það í veðri vaka, þar eð hann býr í Hollívúdd og útvarpar auglýsingum fyrir miljóna — ef ekki biljóna — sápufabrikku. Og nafn hans kunnugt um alla álfuna — og ef til vill víðar. Nú tel ég víst, að íslenzka krossbera sé fyrir að finna í Kaliforníu og ræð honum til að ná fundi eins þeirra með aðstoð íslenzka öldungsins úr símaskránni. Hygg ég, að hver krossberi sem er, sé fús til að uppfræða frægan Hollívúdd-landa um öll krossamál. Sem sé, hvernig einn landi gerist krossberi, sjálfum sér til heiðurs, guði og íslenzku þjóðinni til dýrðar, og menning vorri yfirleitt til blessunar. Síðan enda ég bréfið á þessum kröftugu orðum: þó allur inn dýrmæti menningararfur vor sökkvi í gleymskunnar haf og Einsteins auðn, munu krossarnir vaxa hér vestra um alla fyrirsjáanlega eilífð, lítt dauðleg merki máttar og megins landans í Ameríku, og „lýsa sem leiftur um nótt“ o. s. frv. — Þá vissi ég ekki betur.

Nú líður og bíður, án þess Tom Tinde geri vart við sig í útvarpi eða sendibréfi; og fer þögn hans heldur en ekki í taugarnar. Áklögur samvizkunnar sækja að mér eins og verstu draugar — íslenzkir, vitaskuld, en bölvaðir þó. Nú fyrst geri ég mér fulla grein fyrir því, að frægðarfýsn mín og ágirnd áttu upptökin að bréfaskiftum okkar og þar af leiðandi óláni og andlegri hörmung eins landa og gení. En það skal alþjóð vita, að reynist mér syndabyrðin of þung, mun ég þverneita, að standa einn undir henni. Ekki þóttist ég vera skáld. Ekki sótti ég um sess í **Vestan um haf.** Það gerðu aðrir. Hlaupi þeir undir baggann ef þörf gerist, hvort lífs eru eða liðnir og — verskú.

Eftir langa mæðu skrifar Tom Tinde mér langt bréf og er allur á lofti. Hafði hann farið að ráðum

mínum og lagt upp í krossberaleit. Finnur hann ágætan landa og krossfestan norðarlega í Kalíforníu, á pikkniki þar, og fer brátt vel á með þeim. Þeir ganga afsíðis út í lund einn mikinn og fagran og ræða þar krossmál fram á rauða nótt. Lætur inn krossfesti dæluna ganga og skýrir málið af mælsku og dómgreind. Telur upp allar þær dygðir, sem krossverðar eru og in mismunandi stig manndóms og menningar, er krossarnir tákna. — Því til eru litlukrossar, miðlungskrossar og stórukrossar, segir krosslandinn. Hann lýsir prýðilega allri diplómatiskri tekník sem útheimtist til þess að verða krossfestur; og kveðst fús til að fylgja Tom Tinde að málum.

Alt bréfið bar vott um áhuga höfundarins fyrir íslenzkum orðum og erfðum. Meðal annars kvaðst hann skoða krossana sem einskonar lögboðinn gjaldmiðil eða valútu, eða víxil uppá andlegar lífsnauðsynjar Íslendinga, sem í erfðir ganga. Hann hafði þegar ásett sér að vinna til krossfestingar á mjög svo frumlegan en þó viðeigandi hátt. Fyrirætlun hans var sú, að finna öllum íslenzkum orðum og krossum í Ameríku sama stað. Með því eina móti yrðu íslenzk menningarverðmæti varðveitt hér vestra. Ýmiskonar öryggisgeymslur hafði hann hugsað sér. Blágrýtisvörðu á Gimli eða öðrum viðeigandi sögustað. Háskólastólinn í Winnipeg. Hellisskúta einhvers staðar og einhvers staðar, þar sem líkt hagar til og í Kentökkí og Kanagulli er komið fyrir. Nógur tími að gera út um staðinn. Þó væri nauðsynlegt, að vinna bráðan bug að málinu, áður en íslenzk andlegheit hér hafa öll gufað upp. . . .

Alt fram að þessu hafði áhugi og andagift bréfritarans hrifið mig með sér og í svipinn hélt ég okkur báða hólpna, en áttaði mig fljótt. Uppfræðslu Tom Tinde í krossólógíu var meir en lítið ábótavant. Bersýnilega var honum ókunnugt um þá lagagrein, sem ákveður, að allir krossar skuli endursendast til íslenzkra stjórnarvalda að berunum látnum. (Þetta sagði mér fróður landi, og þó hann sé ekki krossfestur, er hann svo gætinn og sannorður, að ég trúi honum). En ekki bar ég djörfung til að benda vini mínum á yfirsjón hans eða öllu heldur Alþingis. Hann mundi komast að því sanna fyrr eða síðar. Er á meðan er, hugsaði ég. Og skruggan skall á fyrr en varði.

Innan hálfs mánaðar kemur harmkviða frá Tom Tinde, og var aldeilis ekkert ljóðabréf, en hreinn skáldskapur, fullur sorgar, eymdar og þjáninga. En vel var drápan kveðin, kröftug, kjarnyrt og in frumlegasta. Til að staðfesta þann dóm minn nægir eftirfarandi erindi, sem gripið er úr kviðunni:

Einginn hunzar Íslending
Eftir hann er dáinn;
Þyrpast allir þann um kring:
Þylja lof um náinn.

Þóttist ég nú sjá hvað verða vildi, og kom ekki á óvart fréttin um slysfarir skáldsins. Ég rakst á fréttina af tilviljun, í stórblaði frá Sanfransíkó. Hermdi blaðið, að inn vinsæli og víðþekti þulur og útvarpsleikari, Tom Tinde frá Hollívúdd, hefði farist í fossi, að fjölda manns

áhorfandi; því slysið átti sér stað á pikkniki. Sjónarvottum bar ekki saman um hvernig það atvikaðist. Flestir álitu að manninum hefði orðið fótaskortur. Aðrir þóttust hafa séð hann ganga beint í voðann, eins og stundum gerist í svefni og sögum. Enn aðrir vildu uppvægir sverja, að hann hefði, blátt áfram, kastað sér í fossinn eins og vitlaus maður. Hitt voru allir sáttir um, að Tom Tinde hefði farist þarna á pikknikinu. Ekki var þó lík hans komið til skila þegar blaðið kom út.

— — — — —

Frá því ég las dánarfregnina og þar til ég færði ofanskráð æfintýri í letur, leið heilt ár. En ekki hafði síðasta orð þess fyrr flotið úr penn-anum, en rödd Tom Tinde gall við í útvarpinu, í splunkurnýum spæaraleik í sápu- og óperustíl. Einu sinni enn heyri ég landann briléra. Eins og fyrr leikur hann spæarann, og er það aðalhlutverkið. Óperan nefnist **Grænir skór**, í tilefni þess, að **Júnímjöll** er bezta sáputegund í heimi. Og þó leikarinn gangi undir nýu nafni dylst hann mér ekki. En til að ganga úr skugga um, að hann og Tom Tinde séu einn og sami maðurinn, ber ég þetta undir dætur mínar og bið þær hlusta. Svo hlusta þær á Græna skó og beztu sápu í heimi, og einróma afturgöngu Tom Tinde.

---

**PRÓFESSOR RICHARD BECK:**

# Almanak Ólafs S. Thorgeirssonar

**— Horft yfir farinn veg —**

Eins og kunnugt er orðið, sáu þeir bræðurnir, Geir og Ólafur Thorgeirsson yngri, sér það eigi fært að halda áfram útgáfu **Almanaks Ólafs S. Thorgeirssonar** eftir að það hafði náð sextugsaldrinum 1954. Lágu til þess ýmsar ástæður, sem hér verða eigi raktar; um hitt þarf eigi að fjölyrða, að hvorki þeim bræðrunum né öðrum þeim, er þar áttu hlut að máli, var ljúft að þurfa að taka þá ákvörðun, enda hefir það verið maklega og marg viðurkennt í ritfregnum um Almanakið, að þeir bræður hafi, með því að halda áfram útgáfu ritsins að föður þeirra látnum, sýnt minningu þess ágætismanns lofsverða ræktarsemi og samtímis unnið vestur-íslenzkum þjóðræknis- og menningarmálum þarft verk og þakkarvert.

En með það fyrir augum að hlutverk það, sem Alamanakið gegndi í samfleytt 60 ár, falli eigi með öllu niður, hefir það orðið að samkomulagi milli Gísla Jónssonar, ritstjóra **Tímarits Þjóðræknisfélagsins**, og greinarhöfundar, að fengnu samþykki annarra hlutaðeigenda, að Tímaritið flytji tvo af hinum föstu þáttum Almanaksins, „Helztu viðburðir meðal Íslendinga í Vestur-

heimi“ og „Mannalát“, er mörgum myndi mikil eftirsjá að, vegna fróðleiks- og sögulegs gildis þeirra. Ennfremur hefir Gísli ritstjóri óskað eftir því, að greinarhöfundur fylgdi þeim þáttum úr hlaði að þessu sinni með stuttorðri frásögn um Almanakið frá upphafi vega þess og til leiðarloka. Mjög verður þó stiklað á stærstu steinum í þeirri greinargerð hér, bæði vegna takmarkaðs rúms og eins hins, að höfundur hefir áður rakið þá sögu all ítarlega í fimmtugasta og sextugasta árgangi Almanaksins sjálfs (1944 og 1954), og vísast þangað til fyllri frásagnar um það efni.

Langt er síðan menn gerðu sér það ljóst, hve mikla framsýni og ágæta þjóðrækni í verki Ólafur S. Thorgeirsson sýndi með því að efna til útgáfu Almanaksins sem heildarrits um sögu Íslendinga í Vesturheimi fyrir 60 árum síðan, en eins og sjá má af formálsorðum hans að fyrsta landnámsþættinum, er út kom í Almanakinu 1899, gerði hann sér þá þegar glögga grein fyrir framtíðargildi slíks heimildasafns. Var þessi viðleitni hans einnig í fullu samræmi við skapgerð hans að öðru leyti, fróðleikshneigð hans og þjóðlega hugsun, sem lýsti sér jafnframt í þátttöku hans og forystu í vesturíslenzkum félagsmálum og í bókaútgáfu hans og tímarita, er einnig var hin athyglisverðasta. Hann stóð djúpum rótum í íslenzkum menningarjarðvegi, og er það táknrænt um djúpstæðan ræktarhug hans til ættjarðarinnar, að hann valdi mynd Fjallkonunnar öndvegissess á kápu Almanaksins og kaus því að einkunnarorðum ásthlýjar og ódauðlegar ljóðlínur „listaskáldsins góða“:



**Ó. S. Thorgeirsson**

Þið þekkið fold með blíðri brá
og bláum tindi fjalla,
og svana hljómi, silungsá
og sælu blómi valla
og björtum fossi, björtum sjá
og breiðum jökulskalla —
drjúpi' hana blessun drottins á
um daga heimsins alla!

Annars er Ólafi og þjóðnýtu ævistarfi hans ágætlega lýst í ítarlegri minningargrein ,sem dr. Rögnvaldur Pétursson ritaði um hann í Almanakið 1938, en Ólafur lézt árið áður. Hafði hann óslitið verið bæði útgefandi og ritstjóri Almanaksins í meir en 40 ár, og því öllum fremur, sem þar koma við sögu, mótað stefnu ritsins og sett svip sinn á það að öðru leyti.

Að honum látnum, annaðist Grímur Eyford ritstjórnina næstu tvö árin, en minningargrein um hann, eftir þann, er þetta ritar, er prentuð í Almanakinu 1940.

Með árinu 1941 tók Richard Beck við ritstjórn Almanaksins og hafði hana með höndum þar til ritið hætti að koma út. Skal það jafnframt tekið fram, að þeir Thorgeirsson-bræður sáu alltaf um tímatalið, og höfðu þess vegna allan veg og vanda af þeim grundvallarþætti ritsins.

Eins og þegar er gefið í skyn, var Almanakinu frá byrjun það hlutverk ætlað að vera, auk annars lesmáls, „Safn til Landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi", eins og skilgreint er á titilblaði þess. Og hvað, sem annars má um innihald þess og efnismeðferð segja, þá verður eigi annað með sanni sagt, þegar rennt er sjónum yfir 60 ára feril þess, en að það hafi að mjög miklu leyti náð hinum upphaflega megintilgangi sínum, því að skráðir eru á spjöldum þess landnámsþættir alls þorra íslenzkra byggða vestan hafs, að ótöldum öðrum sögulegum og mannfræðilegum fróðleik, sem það hefir flutt. Kveður þar þó vitanlega mest að sjálfum landnámsþáttunum, enda eru þeir, að áliti hinna dómbærustu manna beggja megin hafsins, taldir ómetanleg heimild um sögu og líf Íslendinga í Vesturheimi. Það er þá einnig sérstaklega vegna landnámsþáttanna, að Almanakið hefir hlotið heiðursheitið „Landnáma Vestur-Íslendinga". Hið mikla sögulega heimildargildi Almanaksins lýsir sér þó eftirminnilegast í því, hve oft er til þess vitnað í hinni miklu **Sögu Íslendinga í Vesturheimi** eftir þá Þorstein Þ. Þorsteinsson skáld og dr. Tryggva J. Oleson prófessor, og í öðrum ritum, á íslenzku og ensku, um landnám Íslendinga, félagslíf þeirra og menningu vestan hafsins.

En Almanakið á varanlegt sögulegt gildi sitt og vinsældir eigi aðeins að þakka útgefendum og ritstjórum sínum, heldur jafnframt hinum mörgu körlum og konum, í hópi menntamanna og alþýðustétt beggja megin hafsins, sem látið hafa því í té landnámsþætti og annað lesmál. Hvað efni Almanaksins snertir, er hlutur vestur-íslenzkra fróðleiksmanna í hinum ýmsu byggðalögum sér í lagi mikill og merkilegur, því að án aðstoðar þeirra, hefði sú saga aldrei verið skráð, að minnsta kosti ekki í þeirri mynd, sem hún geymist í framsögu þeirra sögumanna, er löngum höfðu sjálfir þá sögu, er þeir færðu í letur.

Þó að verðugt væri, verður þeirra eigi frekar getið hér, né heldur hinna mörgu ágætu manna, fræðimanna, rithöfunda og skálda, austan hafs og vestan, sem látið hafa sér sæma að fara miklum viðurkenningarorðum um Almanakið fyrr og síðar. Hitt getur greinarhöfundur fullyrt með þakklátum huga, að þau góðyrði hafa verið útgefendum og öðrum hlutaðeigendum byr í segl í þeirri fræði- og menningarviðleitni, sem þeir hafa leitast við að inna af hendi með útgáfu Almanaksins. Góðhugur velunnara þess og uppörvunarorð hafa ekki sízt verið þakklátlega þegin á síðari árum, þegar róðurinn varð af mörgum ástæðum þyngri um útgáfu ritsins.

En öll hafa þau ummæli verið mjög í anda drengilegra orða dr. Guðmundar Finnbogasonar í ritdómi um Almanakið fyrir árin 1942 og 1943 (**Skírnir** 1943), sem bæði bregða upp skilningsríkri mynd af efni ritsins almennt og tilgangi þess og lýsa samtímis rótgrónum vinarhug höfundar í garð Íslendinga í Vesturheimi:

„Almanak Ólafs S. Thorgeirssonar er orðið ein merkilegasta náma íslenzkrar mannfræði síðari tíma. Það hefir nú komið út nálega hálfa öld og flutt að staðaldri greinar í safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi, auk fjölda greina um einstaka Íslendinga við sérstök tækifæri. Það birtir árlega yfirlit yfir helztu viðburði í lífi Íslendinga vestan hafs, allt sem þeir gera sér til sæmdar í skólum, opinberu lífi og einkaframkvæmdum. Og það flytur góða skrá yfir mannalát á hverju ári, með glöggri grein á helztu æviatriðum. Og auk þess margt bókmenntalegt. Þarna er því samankomið í stuttu máli margt af því, sem þarf til þess að gera sér grein fyrir því, hvernig Íslendingar hafa reynzt vestan hafsins, og jafnframt hefir þetta rit verið merkur þáttur í viðleitni þeirra að halda þjóðernisvitundinni vakandi, með þeim skyldum, er henni fylgja, og gert sitt til að ekki verði sagt um Íslendingabyggðir:

Frumbyggðin sprettur upp
fortíðarlaus
og fóstruð af samtíðaröld.
Og framförin mikla og menningin
hér
við minningar ei hefir töf.

Landar vorir vestan hafs hafa lagt rækt við minningarnar og vaxið á því. Heill sé þeim fyrir það."

Skiljanlega er það því af mörgum ástæðum fagnaðarefni útgefendum Almanaksins og fyrrv. ritstjóra þess, að tveir meginþættir þess halda áfram að koma út hér í ritinu, svo að segja má, að lífsþráður þess slitni eigi með öllu, og vissulega á slíkt lesmál vel heima í riti, sem helgað er þjóðræknismálum vorum og bókmenntaiðju.

## Helztu viðburðir

### meðal Íslendinga í Vesturheimi

— 1954 —

Jan. — Skólaráð Winnipegborgar kaus Peter D. Curry (íslenzkur í móðurætt) formann ráðsins fyrir árið 1954.

Jan. — Gísli S. Borgford, verkamannaleiðtogi í Winnipeg, skipaður umdæmisstjóri verkalýðssamtakanna "Canadian Congress of Labor" í Albertafylki með aðsetur í Edmonton.

Jan. — Hannes J. Pétursson verkfræðingur í Winnipeg skipaður umdæmisverkfræðingur ("Regional Construction Engineer") af hálfu Láns- og byggingarstofnunar landsstjórnarinnar, og tekur starfssvæði

hans yfir sléttufylkin Manitoba og Saskatchewan.

Jan. — Sigurður Sigmundsson, flutningastjóri "British Columbia Electric Company" í Vancouver, fór til Rio de Janiero í Braziliu, til þess að hafa umsjón með skipulagningu á járnbrautarrekstri fyrir "Brazilian Traction Company."

22.—24. febr. — Þrítugasta og fimmta ársþing Þjóðræknisfélagsins haldið í Winnipeg við mjög góða aðsókn. Dr. Valdimar J. Eylands var endurkosinn forseti, og nokkru síðar endurkaus stjórnarnefndin Gísla Jónsson, fyrrv. prentsmiðjustjóra í Winnipeg, ritstjóra **Tímarits** félagsins.

24. febr. — Dr. Stefán Einarsson, prófessor í norrænum fræðum við Johns Hopkins University, Baltimore, Maryland, og séra Einar Sturlaugsson, prófastur á Patreksfriði, kosnir heiðursfélagar Þjóðræknisfélagsins.

26. febr. — Niels G. Johnson lögfræðingur, Bismarck, N. Dak., fyrrv. dómsmálaráðherra þar í ríkinu, skipaður dómari í hæstarétti Norður Dakotaríkis.

1. marz — Miss Laura Einarsson, hjúkrunarkona í Winnipeg, tók við stjórn nýrrar deildar hjúkrunarfélagsins "Victorian Order of Nurses" í Nanaimo, B.C.

Marz — Dr. Richard Beck, prófessor í norrænum fræðum við ríkisháskólann í Norður-Dakota, skipaður forseti háskóladeildarinnar í nýjum og fornum málum og bókmenntum.

Marz — Skáldkonan Laura Goodman Salverson hlýtur $1000.00 skáldaverðlaun Ryerson Press útgáfufélagsins fyrir skáldsögu sína "Immortal Rock".

Marz — Thor Thorgrímsson, er stundar framhaldsnám við háskólann í Toronto, hlýtur $2000.00 námsstyrk frá "Canadian Social Research Council" til sagnfræðináms á Lundúna háskóla (University of London).

16. marz — Minnisvarði reistur á gröf dr. Valtýs Guðmundssonar í kirkjugarðinum í Reykjavík að tilhlutun hálfsystur hans frú Guðrúnar Skaptason í Winnipeg.

Marz — Fylkisstjórnin í Manitoba felur Sir William Stephenson (íslenzkrar ættar) á hendur að rannsaka aðstæður til aukinnar iðnþróunnar innan fylkisins.

Marz — Dr. P. H. T. Thorlakson kosinn formaður framkvæmdanefndar félagsskaparins "The Manitoba Medical Service."

31. marz — Major William Kristjánson, Winnipeg, sæmdur heiðursmerki fyrir starf sitt í þágu herdeildar (Contingent C. O. T. G.) Manitobaháskóla.

Apríl — Kunngert, að Menntamálaráð Íslands hafi veitt dr. Tryggva J. Oleson, prófessor í sagnfræði við Manitobaháskóla, 3000 króna fjárupphæð til sagnfræðilegra rannsókna.

Apríl — Sambandsstjórn Canada skipar Victor B. Anderson, bæjarfulltrúa í Winnipeg, erindreka á alþjóðaþing verkamanna, sem haldið verður í Genf í Svisslandi í júnímánuði.

Apríl — Frú Hólmfríður Daníelson, Winnipeg, endurkosin fræðslumálastjóri kvennasambandsins "Imperial Order Daughters of the Empire" fyrir Manitobafylki.

Maí — Tilkynnt, að prófessor Skúli Johnson, forseti deildarinnar í klassiskum fræðum við Manitobaháskóla, hafi verið kosinn félagi í fræðafélaginu "The Royal Society of Canada."

Maí — Sambandsstjórn Canada felur Thor Eyjólfi Stephenson, flugvélaverkfræðing í Ottawa, umsjón með þeirri starfsdeild stjórnarinnar, er hefir með höndum framleiðslu flugvéla.

Maí — Kunnugt gert, að Menntamálaráð Íslands hafi sæmt frú Jakobínu Johnson, skáldkonu í Seattle, Wash., skáldalaunum að upphæð 5400 krónur.

Maí — Um þær mundir skipaði ríkisstjórinn í Norður-Dakota Ásmund Benson, lögfræðing, Bottineau, N. Dak., héraðsdómara í 2. lögsagnarumdæmi ríkisins með búsetu í Rugby.

Maí — Maurice Eyjólfson kosinn formaður "Progressive-Conservative" stjórnmálasamtakanna í Mið-Winnipeg kjördæminu.

Maí — Dr. Steinn W. Steinson tekur við skólastjórn kennaraskólans Saskatoon Teachers College í Saskatchewan, en hann hafði áður verið þar kennari í sálarfræði.

Maí — Dr. Stefán Einarsson, prófessor í Baltimore, stuttu áður kosinn félagi í "The American Philosophical Society."

Maí — Við vorprófin á Manitobaháskóla var eftirfarandi námsfólk af íslenzkum ættum brautskráð:

**Bachelor of Laws:**
Erlingur Kári Eggertson, B.A. (Hlaut verðlaun Lögfræðingafélagsins).
Holman Kristinn Olson, B.A. (Með heiðri).
Arthur Kristján Swainson. (Með heiðri).

**Doctor of Medicine:**
Böðvar Bjarki Jakobsson.
Harold Grant (íslenzkur í móðurætt).

**Bachelor of Arts** (General Course):
Kristján Vigfús Guttormsson
Leo Freeman Kristjánsson
Sveinbjörn E. B. Peterson
Gerða Jóhanna Schell (íslenzk í móðurætt).
Eleanor Rúna Sigurdson
Clarence Thorsteinn Swainson (Hafði unnið námsverðlaun).
Margaret Ruth Thorvaldson.

**Bachelor of Science** (General Course):
Ralph Erick Helgason
John Hjalti Hjaltason.

**Bachelor of Science in Civil Engineering:**
Arnold Bruce Björnsson (Hlaut gullpening háskólans í námsgrein sinni og fleiri verðlaun).

**Bachelor of Science in Electrical Engineering:**
Richard Allan Johnson (Hlaut gullpening háskólans í námsgrein sinni).

**Bachelor of Science in Agriculture:**
Robert Lorne Kristjánsson.

**Bachelor of Science in Home Economics:**
Margrét Hólmfríður Anderson (Hlaut námsverðlaun).
Margrét Jean Anderson.

**Bachelor of Pedagogy:**
Margrét E. Stephenson, B.A.

**Bachelor of Social Work**
(Diploma in Agriculture):
Stanley Einarsson.

Maí — Eftirfarandi stúdentar af íslenzkum ættum luku námi á fylkisháskólanum í Saskatchewan:

**Bachelor of Science in Agriculture:**
Helgi Hornford, Elfros (Með heiðri, hafði unnið námsverðlaun).
Joseph Ross Thor Oddson, Tyner.

**Bachelor of Arts:**
Guðrún Stefanie Gunnlaugson, Melfort.
Patricia Carmelle Thorfinnson, Wynyard.

**Bachelor of Education:**
Joe Paulson, Saskatoon.

**Bachelor of Science in Geological Engineering:**
Björn Gunnlaugur Gíslason, Wynyard.

**Bachelor of Laws:**
Hjörtur Björn Jónas Leó, B.A., Saskatoon.

**Bachelor of Science in Pharmacy:**
Thordur Kolbeinson, Foam Lake (Vann námsverðlaun).

Maí — Miss Sheila Gwendolyn Breckman (íslenzk í móðurætt), London, Ont., lauk "Bachelor of Arts" prófi við Western University þar í borg. Hafði hlotið námsverðlaun frá háskólanum í Osló og stundað þar nám um hríð.

Maí — Valdimar Benjamín Kjernested (frá Oak View, Man.) lauk prófi í dýralækningum á Ontario Veterinary College, Guelph, Ont., með ágætiseinkunn.

28.—30. maí — Þrítugasta ársþing Bandalags lúterskra kvenna haldið í Selkirk, Man., Mrs. B. Bjarnason, Langruth, endurkosin forseti.

Maí — Dr. Thorvaldur Johnson, sérfræðingur í plöntusjúkdómum, skipaður prófessor við landbúnaðardeild Manitobaháskóla.

3.—5. júní — Leikrit Jóhanns Sigurjónssonar **Galdra-Loftur**, í enskri þýðingu frú Jakobínu Johnson, sýnt í University Playhouse í Seattle, Wash., við ágætar undirtektir.

5. júní — Luku þessir stúdentar af íslenzkum ættum námi á ríkisháskólanum í Norður-Dakota:

**Bachelor of Philosophy:**
Romaine Doyle Thorfinnson, Wahpeton, N.D.

**Bachelor of Science in Commerce:**
Robert Frederick Björnson, Cavalier, N.D.
Roger Warren Goodman, Winnipeg.

**Bacelor of Science:**
Hugh D. Thorfinnson, Lisbon, N.D.

Júní — Snemma í þeim mánuði var Jakob F. Kristjánsson, Winnipeg, umdæmisstjóri atvinnumálanefndarinnar "Unemployment Insurance Commission" í fjórum vesturfylkjum Canada, kosinn í framkvæmdanefnd alþjóðafélagsins "The International Association of Personnel in Employment Security."

10. júní — Thor Thors, sendiherra Íslands í Canada og Bandaríkjunum, afhenti Árna G. Eggertson, Q.C., Winnipeg, stórriddarakross Fálkaorðunnar, sem forseti Íslands, herra Ásgeir Ásgeirsson, hafði stuttu áður sæmt hann fyrir störf hans í þágu Eimskipafélags Íslands og vesturíslenzkra félagsmála.

12. júní — Grettir Eggertson, rafurmagnsfræðingur í Winnipeg kosinn í stjórnarnefnd Eimskipafélags Íslands á ársfundi þess í Reykjavík.

16. júní — Við sérstaka athöfn á Bessastöðum afhenti prófessor Richard Beck, er þá var í Íslands- og Norðurlandaför ásamt frú sinni, forseta Íslands brjóstmynd í eir af Sveini Björnssyni forseta sem gjöf frá fólki af íslenzkum stofni og öðrum vinum Íslands í Bandaríkjunum. Daginn eftir flutti dr. Beck kveðjur Vestur-Íslendinga á lýðveldishátíðinni í Reykjavík.

17. júní — Tíu ára afmælis íslenzka lýðveldisins minnst með fjölsóttum og virðulegum hátíðahöldum víðsvegar vestan hafs, meðal annars með sérstöku útvarpi yfir kerfi CBW stöðvarinnar í Winnipeg. Thor Thors sendiherra hélt ræðu og dr. Valdimar J. Eylands flutti ávarp.

19.—20. júní — Haldið í Winnipeg kirkjuþing "Western Canada Unitarian Conference" (áður „Hið Sameinaða Kirkjufélag Íslendinga"). Séra Philip M. Pétursson endurkosinn forseti.

20. júní — Dr. Haraldur Sigmar, fyrrv. forseti Lúterska Kirkjufélagsins, er var í Norðurálfuför ásamt frú sinni, var fulltrúi kirkjufélags síns við biskupsvígslu dr. Ásmundar Guðmundssonar í Dómkirkjunni í Reykjavík og síðar á Prestastefnu Íslands. Dr. R. Beck fór með hliðstætt fulltrúastarf af hálfu Þjóðræknisfélagsins og Sameinaða Kirkjufélagsins.

20. júní — Séra B. Theodore Sigurðsson settur inn í embætti sem prestur Mountainprestakalls af dr. Valdimar J. Eylands, forseta Lúterska Kirkjufélagsins.

22. júní — Lagði dr. Áskell Löve, prófessor í grasafræði við Manitobaháskóla, af stað til Parísar til þess að flytja erindi og stjórna fundi á alþjóðaþingi grasafræðinga.

Júní — Frú Thora Matthíasson frá Los Angeles, Calif., er var í Íslandsför, ásamt föður sínum, Gunnari Matthíassyni, og manni sínum, hélt söngsamkomu í Reykjavík við prýðilegar viðtökur.

27. júní — Fimmtíu ára prestskaparafmælis séra Kristins K. Ólafssonar, fyrrv. forseta Lúterska kirkjufélagsins, minnst virðulega við sérstaka guðsþjónustu í kirkju hans í Sharon, Wisconsin. Séra Guttormur Guttormsson, varaforseti kirkjufélagsins, var fulltrúi þess við hátíðahaldið.

27.—30. júní — Sjötugasta kirkjuþing Hins Evang.-Lúterska Kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi,

haldið í Winnipeg. Dr. Valdimar J. Eylands endurkosinn forseti.

Júní — Dr. Richard Beck sæmdur heiðursskjali Allsherjarsambands Norðmanna (Nordmanns-Forbundet) á ársfundi þess í Osló.

Júní — Patrick Ólafsson, M. Sc., er stundar nám í efnafræði á ríkisháskólanum í Washington, í Seattle, hlýtur námsstyrk "Du Point Chemical Corporation" til framhaldsnáms í vísindum.

25. júlí — Íslendingadagur haldinn í Blaine, Wash.

1. ágúst — Íslendingadagur haldinn að Silver Lake, Wash.

2. ágúst — Íslendingadagur haldinn að Gimli, Man.

14. ágúst — Sextíu ára afmælis Íslendingadagshalds í Norður-Nýja-Íslandi minnst með fjölþættri hátíð að Iðavelli við Hnausa, Man. Meðal þátttakenda í skemmtiskrá var frú Guðmunda Elíasdóttir, óperusöngkona frá New York.

15. ágúst — Vígði dr. Valdimar J. Eylands, forseti Lúterska kirkjufélagsins, nýja kirkju lúterska safnaðarins að Gimli. Auk sóknarprestsins, séra Haralds S. Sigmar, tóku margir aðrir prestar kirkjufélagsins þátt í vígsluathöfninni.

Ágúst — Miss Lára Thordarson hjúkrunarkona (frá Vancouver) lagði af stað áleiðis til Egyptalands til þess að kenna hjúkrunarfræði við háskólann í Alexandríu á vegum alþjóðafélagsins í heilbrigðismálum ("World Health Organization").

2. sept. — Miss Ásta Eggertson, Winnipeg, skipuð farmkvæmdastjóri Barnahjálparfélagsins ("The Children's Aid Society") þar í borg.

10. sept. — Ungfrú Snjólaug Sigurðsson píanóleikari hélt tónleika í Reykjavík við ágætar undirtektir áheyrenda.

Sept. — Séra Pétur Magnússon, prestur í Vallanesi, er ferðast hafði um Bandaríkin í boði utanríkisráðuneytis þess, flutti prédikun í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg og ræður víðar meðal Íslendinga í Manitoba.

Sept. — Helgi Austman landbúnaðarráðunautur skipaður aðstoðar framkvæmdastjóri fræðsludeildar ("Extension Service") fylkisstjórnarinnar.

Okt. — Á ársþingi verzlunarráðsins í Canada ("The Canadian Chamber of Commerce"), er haldið var í Halifax í byrjun þess mánaðar, var G. S. Thorvaldson, Q.C., Winnipeg, kosinn forseti þess alþjóðafélagsskapar.

Okt. — Á því hausti var Skúli Hrútfjörð búfræðingur skipaður framkvæmdastjóri fræðslustarfsemi ("Extension Service") landbúnaðardeildar ríkisháskólans í Minnesota.

16.—17. okt. — Tuttugasta og áttunda ársþing Íslenzkra Frjálstrúar kvenna haldið í Winnipeg. Mrs. S. McDowell endurkosin forseti.

17. okt. — Tuttugu og fimm ára prestsskaparafmælis séra Sveinbjarnar S. Ólafssonar, prests Methodistakirkjunnar í South St. Paul, Minn., minnst með veglegu samsæti að lokinni hátíðarguðsþjónustu í kirkju hans.

3. nóv. — Átti dr. Vilhjálmur Stefánsson landkönnuður sjötíu og fimm ára afmæli, og var honum margvíslegur sómi sýndur á þeim tímamótum, en hann er löngu heimsfrægur fyrir rannsóknarferðir sínar, fræðimennsku og ritstörf.

Nóv. — Árni G. Eylands stjórnarráðsfulltrúi, er verið hafði ásamt frú sinni á ferð um Bandaríkin í boði utanríkisráðuneytis þeirra og einnig heimsótt ýmsar byggðir Íslendinga þarlendis, fluttir erindi víðsvegar meðal Íslendinga í Manitoba á vegum Þjóðræknisfélagsins.

Des. — Thomas E. Oleson skipaður héraðsritari og friðdómari í Glenboro, Man. Tók hann við báðum þeim embættum af föður sínum, G. J. Oleson, er gegnt hafði þeim áratugum saman.

Des. — Blaðafrétt skýrir frá því, að Jónas J. Samson verkfræðingur (frá Winnipeg) hafi á því hausti átt þrjátíu ára starfsafmæli hjá Edison Commonwealth rafurmagnsfélaginu í Chicago, Ill.

— 1955 —

Jan. — Valdimar Björnson, fyrrv. fjármálaráðherra í Minnesotaríki, fór til Íslands, ásamt frú sinni, í erindum Bandaríkjastjórnar.

Jan. — Séra Philip M. Pétursson útnefndur í spítalaráð ("Municipal Hospital Commission") Winnipegborgar.

Jan. — Tilkynnt, að dr. Ásmundur Guðmundsson, biskup Íslands, hafi verið kosinn heiðursverndari Hins Evang. Lúterska Kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi.

Jan. — Magnús Elíasson, Vancouver, ráðinn útbreiðslustjóri C.C.F. samtakanna í Albertafylki.

Febr. — Nokkuru áður hlaut Miss Lauga Geir, kennslukona í Edinburg, N. Dak., verðlaun í leikritasamkeppni Jóns Sigurðssonar félagsins í Winnipeg, fyrir leikrit sitt "In the Wake of the Storm", sem gerist snemma á landnámsárum í íslenzkri byggð í N. Dak. Síðar á árinu (í nóvember) var leikritið sýnt í Winnipeg, við ágæta aðsókn og undirtektir, undir leikstjórn frú Hólmfríðar Danielson.

Febr. — Grettir L. Jóhannson, ræðismaður Íslands í Winnipeg, afhenti þeim ungfrú Margréti Pétursson, Walter J. Lindal dómara og Lárusi Sigurðsson lækni þar í borg, riddarakross íslenzku Fálkaorðunnar, sem forseti Íslands hafði sæmt þau fyrir störf þeirra í þágu íslenzkra menningarmála vestan hafs.

21.—23. febr. — Þrítugasta og sjötta ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi haldið í Winnipeg við góða aðsókn. Dr. Valdimar J. Eylands var endurkosinn forseti, og nokkru síðar endurkaus stjórnarnefnd félagsins Gísla Jónsson ritstjóra **Tímarits** félagsins.

Marz — Kunnugt gert, að Guttormur J. Guttormsson skáld hefði stuttu áður verið kjörinn heiðursfélagi í Félagi íslenzkra rithöfunda.

Marz — Blaðafrétt skýrir frá því, að dr. Richard Beck hafi nýlega, af hálfu háskólakennara, verið kosinn í stjórnarnefnd ("Administrative Committee") ríkisháskólans í N. Dakota.

Marz — Í tilefni af sextugsafmæli Davíðs skálds Stefánssonar frá Fagraskógi sýndi „Leikfélag landans" (félag ungra Íslendinga, nýlega komnir vestur um haf) þætti úr leikriti hans **Gullna hliðinu**, undir leikstjórn dr. Áskels Löve, við mikla aðsókn og sambærilegar undirtektir.

Marz — Stanley Loptsson, stórbóndi í grennd við Bradenbury,

Sask., skipaður af hálfu sambandsstjórnar Canada í kornræktarráð ("Board of Grain Commissioners").

Marz — Arnold Bruce Björnsson, er lauk námi í verkfræði á Manitobaháskóla vorið áður, hlýtur Athlone-námsstyrkinn til tveggja ára framhaldsnáms í Englandi.

Marz — Seint í þeim mánuði komu Gunnar Thoroddsen, alþingismaður og borgarstjóri í Reykjavík, og frú hans til Winnipeg í boði Manitobaháskóla og Þjóðræknisfélagsins. Flutti hann ræður þar í borg og víða annars staðar í Íslendingabyggðum í Manitoba, enn fremur í Grand Forks og Bismrack, N. Dak., og í Minneapolis.

Apríl — Frú Hólmfríður Daníelson, Winnipeg, endurkosin fræðslumálastjóri kvennasambandsins "Imperial Order Daughters of the Empire" í Manitoba.

Apríl — Dr. P. H. T. Thorlakson kosinn formaður "Manitoba Medical Service" samtakanna.

Apríl — Um þær mundir tókst séra Skúli J. Sigurgeirsson á hendur prestsembætti í Duluth, Minn.

Maí — Blaðafregnir herma, að bandaríska menningarstofnunin "The Fund of the Republic" telji dr. Vilhjálm Stefánsson landkönnuð einn af fimmtán mikilhæfustu amerískum þegnum samtíðarinnar.

Maí — Kom út í Winnipeg ritið **Fimmtíu ára afmæli Kvenfélags Frjálstrúarsafnaðarins í Winnipeg 1904—1954**, skrifað á íslenzku af frú J. B. Skaptason, en á ensku af ungfrú Margréti Pétursson.

Maí — Var þetta námsfólk af íslenzkum ættum brautskráð af fylkisháskólanum í British Columbia:

**Bachelor of Arts** (General Course):
Rosemary Selma Alden
Jóhann Erickson
Mrs. Ásta Linnolt
Norma Laurian Thorne.

**Chemical Engineering:**
Victor Leó Ísfeld.

**Bachelor of Laws:**
Clive Victor Nylander, B.A.

13. maí — Lauk eftirfarandi námsfólk af íslenzkum ættum burtfararprófi á Saskatchewanháskólanum:

**Bachelor of Arts:**
Morley Edward Árnason, Regina, Sask.
John William Grímson, B.Ed., Estevan, Sask.

**Civil Engineering:**
Donald Hugh Shields, Rainy River, Ont. (Íslenzkur í móðurætt, hlaut fjölda námsverðlauna, meðal annars Athlone-námsverðlaunin).

**Hospital Laboratory Technician:**
Louise Anna Torfason, Wadena, Sask.

**Associate in Arts:**
Fjóla Margaret Johnson, Regina.
Donald Gene Ólafson, Windthorst, Sask.

**Medicine:**
Patricia Carmelle Thorfinnson, B.A., Wynyard, Sask.

17. maí — Lögðu G. L. Jóhannson, ræðismaður Íslands og Danmerkur í Winnipeg, og frú af stað í Norðurlandaför. Sem fulltrúi vesturíslenzkra hluthafa sat hann aðalfund Eimskipafélags Íslands í Reykjavík, og síðar í Kaupmannahöfn fund ræðismanna Danmerkur í boði danska utanríkisráðuneytisins.

18. maí — Við vorprófin á Manitobaháskóla brautskráðust þessir nemendur af íslenzkum ættum:

**Master of Education:**
Terry Angantýr Árnason, B.A., M.A., B.Ed.

**Bachelor of Education:**
Margrét Sigríður Anderson
Mrs. Jóhanna Guðr. Wilson, B.Sc.

**Bachelor of Pedagogy:**
Andrea Kathleen Sigurjónsson, B.A. (Skaraði fram úr í námi og hlaut Fletcher gullpening háskólans).
Guðmundur Kristján Breckman
Dorothy Merle Kristjánsson, B.A.
Ólafur Allen Olson, B.A.

**Doctor of Medicine:**
Norman Murray Helgason
John Ivan Blair Antonius
William Christie Meredith (Íslenzkur í móðurætt).

**Bachelor of Commerce** (Honors Course):
Kenneth Thor Clark (Íslenzkur í móðurætt; hlaut heiðurspening háskólans úr gulli fyrir framúrskarandi námshæfileika).

**Bachelor of Arts** (General Course):
Wallace Martin Bergman
Lilja María Eylands
Alvin Kristján Sigurdson
Jón Frederick Page Sigurdson
Sveinn Albert Thorvaldson
Marion Eileen Martin.

**Bachelor of Science in Pharmacy:**
Allan August Beck.

**Bachelor of Science:**
Árni Thordur Laxdal
Leonard Guðni Sigurdson
Robert Kenneth Thompson.

**Bachelor of Science in Engineering:**
Richard David Vopni (Civil Engineering)
Irwin Hjálmar Ólafsson (Mechanical Engineering)

**Bachelor of Science in Home Economics:**
Dorothy Joan Johnson.

**Bachelor of Social Work:**
Joyce Ásta Johnson, B.A.

**Diploma in Agriculture:**
Jóhann Sigurjón Johnson.

**Diploma in Dairying:**
Sigurður Vídal.

Maí — Á því vori hlaut prófessor Hjörvarður Árnason, forseti listfræðadeildarinnar við ríkisháskól-

ann í Minnesota, "Fullbright"-styrk Bandaríkjastjórnarinnar til framhaldsnáms í Norðurálfu. Verður hann árlangt við nám í París.

21. maí — Heimsótti Landstjórinn í Canada, Rt. Vincent Massey, Gimli, við hina virðulegustu móttöku. Bæjarstjórinn að Gimli, Bjarni Egilsson, hafði samkomustjórn með höndum og bauð hinn tigna gest velkominn, en G. S. Thorvaldson, Q.C., kynnti hann. Ungmennakór af Úkraníuættum söng undir stjórn Jóhannesar Pálssonar.

Maí — Sigurbjörn Sigurdson, Winnipeg, skipaður fiskimálastjóri (Director of Fisheries") í Manitoba.

Maí — Tilkynnt, að ungfrú Lilja Eylands, B.A., hafi verið veittur námsstyrkur íslenzku ríkisstjórnarinnar til náms í íslenzkum fræðum við Háskóla Íslands skólaárið 1955—'56.

Maí — Í lok mánaðarins flutti séra Eric H. Sigmar frá Seattle til Winnipeg til þess að stofna lúterskan söfnuð í River Heights hverfinu þar í borg á vegum Sameinuðu lútersku kirkjunnar ("The United Church of America").

2. júní — G. S. Thorvaldson, Q.C., Winnipeg, forseti Viðskiptaráðsins í Canada, lagði af stað til Norðurálfu, ásamt frú sinni, til þess að sitja allsherjarþing "Commonwealth Chambers of Commerce" í Stratford on Avon á Englandi og flytja ræður þar og í Skotlandi sem fulltrúi Canada.

3.—5. júní Þrítugasta og fyrsta ársþing Bandalags lúterskra kvenna haldið í Glenboro, Man. Mrs. B. Bjarnason, Langruth, endurkosin forseti.

4. júní — Luku þessir nemendur af íslenzkum ættum námi við ríkisháskólann í N. Dakota:

**Bachelor of Arts:**
Jón Valdimar Eylands, Grand Forks, N. Dak. (Stundar framhaldsnám í læknisfræði).

**Bachelor of Philosophy:**
Lawrence Sigurður Arason, Grand Forks, N. Dak.

**Bachelor of Science in Education**
(And Bachelor's Diploma in Teaching):
Thorey Helga Magnússon, Milton, N. Dak. (Hafði hlotið sérstaka námsviðurkenningu).

**Bachelor of Science in Civil Engineering:**
Edmund L. Thordarson, Backoo, N. Dak.

**Bachelor of Science in Mechanical Engineering:**
Richard Beck, Jr., Grand Forks, N. Dak. (Hafði unnið sér margvíslegan námsframa).

Júní — Stefán Hansen, Winnipeg, skipaður af fylkisstjórninni í Manitoba í fimm manna nefnd til þess að ákveða kostnað sjúkravistar fyrir fátækt aðkomufólk, sem þarfnast læknisaðgerða.

Júní — Á ársfundi Sambands starfsmanna fylkisstjórna í Canada ("Canadian Coucil of Provincial Employer Association"), er haldinn var í Windsor, Ont., var William Kristjánson, Winnipeg, kosinn forseti Sambandsins.

8. júní — Paul Thorkelsson kosinn í skólaráð Winnipegborgar við aukakosningu í 2. kjördeild borgarinnar.

Júní — Paul Harold Westdal, skordýrafræðingur í þjónustu Landbúnaðardeildar sambandsstjórnarinnar, Brandon, Man. kosinn forseti Vestur-Manitobadeildar Landbúnaðarstofnunarinnar í Canada ("Western Manitoba Branch, Agricultural Institute of Canada") fyrir árið 1955—'56.

Júní — Joseph T. Thorson, dómstjóri í Ottawa, endurkosinn forseti Alþjóðafélags lögfræðinga ("International Congress of Jurists") á ársfundi þeirra samtaka í Aþenuborg.

15.—17. júní — Aldarafmælis íslenzka landnámsins í Utah minnst með fjölþættu og tilkomumiklu hátíðahaldi, að viðstöddu fjölmenni, meðal annars með mikilli skrúðgöngu og með sögulegri sýningu, er eitt hundrað manns tóku þátt í, sem frú Hólmfríður Daníelson hafði samið og sett á svið. Fulltrúi Bandaríkjastjórnar var Marselis Parsons úr Utanríkisráðuneytinu. Pétur Eggerz, sendiráðunautur í Washington, var fulltrúi ríkisstjórnar Íslands, og flutti bæði sérstaka kveðju frá forseta Íslands og afhenti hátíðarnefndinni skrautritað ávarp frá ríkisstjórninni. Prófessor Finnbogi Guðmundsson flutti kveðjur Þjóðræknisfélagsins. Á hátíðinni afhenti Pétur sendiráðunautur ennfremur þeim John Y. Bearnson, formanni hátíðarnefndar, og frú Cate Carter, systur hans, riddarakross hinnar íslenzku Fálkaorðu, sem forseti Íslands hafði sæmt þau í þakkarskyni fyrir starf þeirra í þágu íslenzkra mála og varðveizlu íslenzkra menningarerfða í Utahríki.

17. júní — Lýðveldisdagur Íslands haldinn hátíðlegur þann dag eða næstu daga víða í byggðum og borgum meðal Íslendinga vestan hafs.

17. júní — Forseti Íslands sæmdi dr. Valdimar J. Eylands stórriddarakrossi hinnar íslenzku Fálkaorðu í viðurkenningarskyni fyrir víðtæka þátttöku hans og forustu í kirkju- og þjóðræknismálum Íslendinga í Vesturheimi.

Júní — Árni G. Eggertson, Q.C., endurkosinn í framkvæmdarstjórn Eimskipafélagsins á aðalfundi þess í Reykjavík.

Júní — Komu þau Björgvin Guðmundsson tónskáld á Akureyri og frú hans til Winnipeg til nokkurra mánaða dvalar vestan hafs. Ferðuðust þau víða um byggðir Íslendinga, og hélt tónskáldið margar söngsamkomur og sagði fréttir af Íslandi, jafnframt því og þau hjónin endurnýjuðu forn kynni meðal landa sinna í Vesturheimi.

19. júní — Daniel John Simundson (frá Seattle) lauk prófi á Stanford háskólanum í Californíu með hæstu ágætiseinkunn, og hlaut menntastigið "Bachelor of Arts." Hafði hann unnið mörg námsverðlaun og heiðursviðurkenningar. Hann stundar guðfræðinám á lúterska prestaskólanum í Maywood, Ill.

25.—30. — Sjötugasta og fyrsta ársþing Hins ev. lút. kirkjufélags Íslendinga haldið að Gimli, Man. Á þinginu var minnst með sérstöku hátíðahaldi 70 ára afmælis félagsins. Fulltrúi Sameinaða kirkjufélagsins

lúterska var Dr. George Harkness frá New York, en séra Ólafur Skúlason, er nýkominn var vestur um haf, var fulltrúi þjóðkirkju Íslands og biskupsins yfir Íslandi, dr. Ásmundar Guðmundssonar, og flutti faguryrt kveðjuávarp frá honum. Dr. Valdimar J. Eylands var endurkosinn forseti kirkjufélagsins.

30. júní—3. júlí — Ársþing "The Western Canada Unitarian Conference" (áður Hið Sameinaða Kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi) haldið í Wynyard, Sask. Rev. Richard B. Gribbs, Boston, útbreiðslustjóri Únítarafélagsins þar, var gestur þingsins. Séra Philip M. Pétursson var endurkosinn forseti. Samtímis hélt Samband Frjálstrúarkvenna 29. ársþing sitt í Wynyard. Mrs. S. McDowell endurkosin forseti.

1.—3. júlí — Sjötíu og fimm ára afmæli íslenzku byggðarinnar í Argyle, Man., haldið hátíðlegt með fjölbreyttum og fjölsóttum samkomum. Einn af fimm fyrstu landnámsmönnum byggðarinnar, Friðbjörn S. Friðriksson frá Hóli á Melrakkasléttu (96 ára að aldri), var heiðursgestur á hátíðinni. Sonur hans, Fred Frederickson, var formaður hátíðarnefndarinnar, en annar sonur byggðarinnar, dr. Tryggvi J. Oleson, prófessor í sagnfræði við Manitobaháskóla, flutti aðalræðuna.

Júlí — Á ársþingi Hljómlistarkennara sambandsins canadiska ("Canadian Federation of Music Teachers Association") í Vancouver var frú Björg Ísfeld, Winnipeg, kosin forseti sambandsins.

Júlí — Fór Emile Walters listmálari til Íslands á vegum utanríkisráðuneytis Banadaríkjanna til þess að mála sögustaði, er snerta Vínlandsfund Íslendinga til forna.

Júlí — Snemma á sumrinu var Hannes J. Pétursson verkfræðingur skipaður umdæmisverkfræðingur af hálfu Láns- og byggingarstofnunar Sambandsstjórnarinnar fyrir Albertafylki og Yukon Territories, en hann hafði áður haft sléttufylkin, Manitoba og Saskatchewan, að starfssvæði.

17. júlí — Minnisvarði um íslenzka frumbyggja í Álftavatns og Grunnavatnsbyggðum afhjúpaður og vígður að Lundar, Man., með virðulegri og fjölsóttri athöfn. Skúli Sigfússon, fyrrv. þingmaður, afhjúpaði minnismerkið, en sóknarpresturinn, séra Bragi Friðriksson, vígði það.

Júlí — Snemma á því sumri var dr. Helgi Johnson, forseti jarðfræðideildarinnar við Rutgers University í Bandaríkjunum, útnefndur yfirmaður rannsóknarstofnunar í jarðfræði í Yellowstone National Park að sumrinu, en jafnframt heldur hann áfram háskólastarfi sínu.

Júlí—ágúst Hinir árlegu Íslendingadagar voru haldnir, sem hér segir: Blaine, Wash., 31. júlí; Gimli, Man., 1. ágúst; og Silver Lake, Wash., 7. ágúst.

11. ágúst — Átti Einar P. Jónsson skáld og ritstjóri **Lögbergs** 75 ára afmæli; hann er aldursforseti starfandi ritstjóra íslenzkra beggja megin hafsins og hefir með mörgum hætti komið við sögu íslenzkra félags- og menningarmála vestan hafs.

Sept. — John A. Vopni, ritstjóri og blaðaútgefandi í Davidson, Sask., kosinn forseti Vikublaðasambands-

ins canadiska ("The Canadian Weekly Newspaper Association") á ársfundi þess í Vancouver, B.C.

18. sept. — Séra Ólafur Skúlason settur inn í embætti sem prestur íslenzku safnaðanna í Norður-Dakota af dr. Valdimar J. Eylands, forseta Lúterska kirkjufélagsins.

Sept. — Á því sumri ferðuðust þeir Kjartan Ó. Bjarnason, kvikmyndatökumaður frá Reykjavík, og prófessor Finnbogi Guðmundsson um byggðir Íslendinga beggja megin landamæranna í þeim erindum að taka kvikmynd af byggðum þeirra, lífi og starfi; héldu þeir félagar jafnframt samkomur á mörgum stöðum.

2. okt. — Séra Bragi Friðriksson settur inn í embætti sem prestur lúterska safnaðarins að Gimli af forseta Kirkjufélagsins.

8.—9. okt. — Dr. Richard Beck, forseti hinnar erlendu tungumáladeildar ríkisháskólans í N. Dakota, var einn í hópi átján háskólakennara, er sátu sérstaka ráðstefnu í þeim fræðum í New York borg í boði Allsherjarfélags tungumálakennara í Bandaríkjunum ("The Modern Language Association of America").

9. okt. — Séra Haraldur S. Sigmar, áður prestur íslenzka safnaðarins að Gimli, settur inn í embætti sitt sem presutr lúterska safnaðarins í Kelso, Wash.

13. okt. — Átti dr. S. E. Björnsson skáld sjötugsafmæli; hann hefir tekið mikinn þátt í vestur-íslenzkum félagsmálum, bæði kirkju- og þjóðræknismálum.

Okt. — W. H. Finnbogason skipaður umferðaverkfræðingur ("City Traffic Engineer") Winnipegborgar.

Okt. — Dr. Carol J. Félsted, Vancouver, hlaut verðlaunaskjöld fyrir skartgripateikningu í víðtækri listasamkeppni í Bandaríkjunum. Fyrir ári síðan hlaut hún doktorsnafnbót í listasögu á Parísarháskóla.

Okt. — Dr. Percy Johnson, læknir í Flin Flon, Man., kjörinn forseti Læknasambandsins í Manitoba ("The College of Physicians and Surgeons") á sjötugasta ársþingi þess.

Okt. — Kom út í Winnipeg mikið rit og merkilegt um Íslendinga í Saskatchewan, **The Saskatchewan Icelanders**, eftir Walter J. Lindal dómara, sem vakið hefir mikla athygli og hlotið lofsamlega dóma.

Okt. — Dr. P. H. T. Thorlakson kosinn heiðursforseti Stúdentafélags ("The Alumni Association") Manitobaháskóla.

Okt. — Dr. E. T. Félsted, Vancouver skapaður aðstoðar-prófessor í læknisfræði við Oregon-háskólann.

Okt. — Á því hausti var Dr. Sveinbjörn Stefán Björnsson ráðinn "State Medical Examiner" í Delaware-ríki með búsetu í Wilmington, Del.

26. okt. — Við bæjarstjórnarkosningar í Winnipeg var Paul W. Goodman endurkosinn í bæjarstjórn og Paul Thorkelson í skólaráð.

Nóv. — Skúli Sigfússon, fyrrv. þingmaður St. George kjördæmisins um langt skeið, kosinn lífstíðarheiðursfélagi Liberal-Progressive stjórnmálasamtakanna á ársþingi þeirra í Winnipeg.

4. des. — Sjötíu og fimm ára afmælis Garðar-safnaðar í Norður-Dakota minnst með sérstakri há-

tíðarguðsþjónustu. Séra Ólafur Skúlason flutti hátíðarprédikunina, en bréflegar kveðjur bárust frá fyrrv. prestum safnaðarins, séra Kristni K. Ólafsson og dr. Haraldi Sigmar.

10. des. — Í tilefni þess, að Svíakonungur afhenti Halldóri Kiljan Laxness bókmenntaverðlaun Nóbels þann dag í Stokkhólmi, var efnt til „Kiljansvöku" á vegum Þjóðræknisdeildarinnar „Fróns". Dr. Áskell Löve, Björn Sigurbjörnsson og frú Helga Pálsdóttir lásu valda kafla úr ritum skáldsins, en prófessor Finnbogi Guðmundsson hafði samkomustjórn með höndum og flutti erindi um skáldið.

# Mannalát

**Janúar 1953**

17. Thorbjörg Helga Jóhannsson, ekkja Björns Jóhannssonar (d. 1909), á elliheimilinu „Höfn" í Vancouver, B.C. Fædd í Stóru-Gröf í Skagafjarðarsýslu 9. des. 1872. Foreldrar: Jón Jónsson og Guðný Halldórsdóttir. Fluttist til Canada aldamótaárið.

**Marz 1953**

4. Guðmundur Elíasson, áður bóndi í Árnesbyggð í Manitoba, á Almenna sjúkrahúsinu í Vancouver, B.C. Fæddur í Görðum í Breiðuvík í Snæfellsnessýslu 18. nóv. 1871. Foreldar: Elías Vigfússon og Sigríður Jósepsdóttir. Kom til Vesturheims 1891.

**Maí 1953**

16. Thorsteinn S. Laxdal, fyrrum bóndi og verzlunarmaður í Mozart, Sask., á sjúkrahúsi í Wynyard, Sask. Fæddur á Krossastöðum í Eyjafirði 29. júlí 1876. Foreldrar: Sigurður Sigurðsson og Marja Guðmundsdóttir. Kom til Ameríku 1888.

**Júlí 1953**

19. Guðrún Sveinsson, ekkja Þorleifs Sveinssonar (d. 1921), að heimili sínu í Víðir-byggð í Nýja-Íslandi. Fædd 2. apríl 1863 í Grímstungu í Vatnsdal. Foreldrar: Eggert Eggertsson og Halldóra Runólfsdóttir. Flutti til Ameríku 1904.

**Ágúst 1953**

31. Jón Sveinsson, í Billings, Montana. Fæddur að Mountain, N. Dak., 18. marz 1885. Foreldrar: Sveinn Sveinsson, frá Sleitustöðum, og Guðrún Símonardóttir frá Veðramóti.

**September 1953**

12. Magnús Árnason málarameistari, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur í Reykjavík 16. júní 1884. Foreldrar: Árni Magnússon og Elín Sighvatsdóttir frá Kalmanstjörn. Kom til Canada 1911.

20. Sveinn Sveinsson, í Portland, Oregon. Fæddur að Mountain, N. Dak., 12. apríl 1899. (Um ætt hans , sjá dánarfregn Jóns bróður hans 31. ágúst sama ár).

**Desember 1953**

24. Helga Benediktsdóttir (Benson) Westford, kona Sveins Westford, á heimili sínu í Bellingham, Wash. Fædd á Seyðisfirði 2. des. 1881. Kom frá Íslandi 1883.

29. Hannes Kristjánsson, fyrrum landnámsmaður við Wynyard, Sask., að heimili sínu í Seattle, Wash. Fæddur í grennd við Mountain, N. Dak., 25. júlí 1884. Foreldrar: Kristján G. Kristjánsson, frá Úlfsstöðum í Skagafirði, og Svanfríður Jónsdóttir frá Ytri-Brekkum á Langanesi.

30. Mrs. Jóhanna Wolfe, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 86 ára. Kom til Canada af Íslandi um aldamótin.

**Janúar 1954**

3. Finnbogi Hjálmarsson, að heimili sínu í Vancouver. B.C. Fæddur 16. sept. 1860 í Breiðuvík á Tjörnesi. Foreldrar: Hjálmar Finnbogason og Kristbjörg Hjaltadóttir. Fluttist vestur um haf 1887. Fróðleiksmaður mikill og skálmæltur vel.

3. Valdimar Jóhannesson bóndi, í Árborg, Man. Fæddur í Garðsvík á Svalbarðsströnd 23. júní 1881. Foreldrar: Jóhannes Grímsson og Ragnheiður Davíðsdóttir. Fluttist til Bandaríkjanna 1907, en til Canada árið eftir. Áhugamaður um félagsmál.

3. Jónas Gottfred Jóhannsson, á sjúkrahúsi í grennd við Bellingham, Wash. Fæddur 26. ágúst á Akureyri. Foreldrar: Jóhann Gunnlaugur Jóhannsson og Sigríður Karolína Jónasdóttir. Kom til Canada 187.

4. Björg Jörundsdóttir Grímsson, kona Valdimars Grímssonar, í Vancouver, B.C. Fædd á Búrfelli í Hálsasveit í Reykholtsdal. Foreldrar: Jörundur Sigmundsson og Auður Grímsdóttir. Fluttist til Ameríku 1882.

8. Soffía Sigríður Davidson, kona Júlíusar byggingameistara Davíðssonar, að heimili sínu í Winnipeg. Fædd á Seyðisfirði 18. okt. 1883. Foreldrar: Jakob Þorsteinsson og Þóra Gunnarsdóttir. Fluttist til Canada 1885.

12. Sigríður K. S. Thorarinsson, ekkja Metúsalems Thorarinssonar byggingarmeistara, í Winnipeg. Fædd í Reykjavík 10. júlí 1890. Foreldrar: Andrés Davíðsson og Steinunn Jónsdóttir. Kom til Canada 1904.

19. Lúðvík Torfason, bóndi að Lundar, á Deer Lodge hermannasjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur á Kambi í Vopnafirði 12. júní 1890. Foreldrar: Skúli Torfason og Jóhanna Martina Jakobsen. Fluttist til Canada 1903.

23. Guðjón Sólberg Friðriksson, að elliheimilinu „Betel", Gimli, Man. Fæddur 4. nóv. 1867 að Meðaldal í Dýrafirði. Foreldrar: Friðrik Ólafsson og Sólveig Oddsdóttir. Kom til Canada 1911.

24. Björn Magnússon, í Keewatin, Ont. Fæddur 5. júlí 1876 á Grímsstöðum við Reykjavík. Foreldrar: Magnús Þorkelsson og Vigdís Guðmundsdóttir. Fluttist til Vesturheims 1887. Sérstakur áhugamaður um skógrækt á Íslandi.

29. Halldór Bjarnason, áður kaupmaður í Glenboro og Winnipeg, í Davidson, Sask. Fæddur að Litla-Múla í Dalasýslu 29. nóv. 1862. Fluttist vestur um haf 1889.

31. Mrs. Emily Eyford Howard, að heimili sínu í Redding, Calif., 62 ára að aldri.

31. Mrs. Thoranna Sigríður Einarsson, í Árborg, Man., 95 ára.

**Febrúar 1954**

1. Thorsteinn Sigmundsson, útgerðarmaður að Hnausum, á Victoria sjúkrahúsinu í Winnipeg, 62 ára. Fluttist vestur um haf á tvítugsaldri.

5. Herbert Júlíus Brandson, að heimili sínu í Winnipeg, 34 ára, sonur Magnúsar trésmíðameistara og Guðrúnar Brandson.

8. Rebekka Bjarnason, ekkja Þórðar Bjarnasonar (d. 1933), á heimili sínu í Árnes-byggð í Nýja-Íslandi. Fædd í Hlöðuvík í Aðalvík 10. ágúst 1860. Foreldrar: Stefán Sigurðsson og Guðrún Ísleifsdóttir. Kom vestur um haf 1887.

9. Árni Thordarson hárskeri, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man. Fæddur að Miðhúsum í Eiðaþinghá 5. febr. 1859. Foreldrar: Þórður Guðmundsson og Jóhanna Þorsteinsdóttir. Fluttist til Vesturheims 1889.

18. Aðalbjörg Brandson, ekkja dr. B. J. Brandson, að heimili sínu í Winnipeg. Fædd að Stóru-Völlum í Þingeyjarþingi 2. sept. 1878. Foreldrar: Benedikt Jónsson (Benson) og Nanna Arngrímsdóttir. Kom af Íslandi til Winnipeg 1882.

21. Miss Jónína Johnson, að heimili sínu í Winnipeg, 65 ára. Fædd að Baldur, Man. Foreldrar: Kristján og Arinbjörg Johnson.

23. Friðrik Kristjánsson byggingarmeistari, að heimili sínu í Winnipeg. Fæddur á Flögu í Hörgárdal 23. júní 1885. Foreldrar: Kristján Jónasson og Guðbjörg Þorsteinsdóttir. Kom til Vesturheims 1906. Athafnamaður mikill.

24. Guðbjörg Jónína Snowfield, ekkja Magnúsar Snowfield (d. 1944), á elliheimilinu „Borg" að Mountain, N. Dak. Fædd á Tindi í Strandasýslu 10. febr. 1864. Foreldrar: Guðmundur Sakaríasson og Guðný Tómasdóttir. Fluttist vestur um haf 1882.

25. Thórunn Pálína Magnússon, ekkja Bergs Magnússonar (d. 1933), að heimili sínu í Hensel, N. Dak. Fædd að Fossvöllum í Jökuldal 9. okt. 1876. Foreldrar: Jón Sigurðsson og Sigríður Magnúsdóttir. Kom til Vesturheims 1882.

**Marz 1954**

3. Rakel Maxon, ekkja Sæmundar Maxon (d. 1932), á Almenna sjúkrahúsinu í Selkirk, Man. Fædd að Brekknakoti í Suður-Þingeyjarsýslu 25. des. 1883. Foreldrar: Gunnlaugur Oddsson og Guðný Sigfúsdóttir. Fluttist til Canada 1888.

4. Egill Egilsson, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man. Fæddur að Garðakoti í Ölfusi 1862. Foreldrar: Egill Steindórsson og Guðrún Magnúsdóttir. Fluttist til Canada 1897.

5. Sigríður Benson, ekkja Björns Benediktssonar (Benson, d. 1909), á sjúkrahúsi í Kenora, Ont. Fædd 12. sept. 1860 á Tjörnesi í Suður-Þingeyjarsýslu. Kom til Vesturheims 1883.

6. Harvey Halli Vouge kennari, að heimili sínu í Chico, Calif. Fæddur 11. apríl 1901 í Reykjavík; fluttist barnungur vestur um haf með móður sinni, Guðlaugu Jónsdóttur (Mrs. Hannes Teitson) Blaine, Wash.

7. Þuríður Jónsdóttir Baines, á sjúkrahúsi í Tisdale, Sask. Fædd á Þórshöfn á Langanesi 24. marz 1902. Foreldrar: Jón Jónsson og Dómhildur Jóhannsdóttir. Fluttist til Canada 1909.

16. Ívar Björnsson, að heimili sínu í Winnipeg. Fæddur 23. sept. að Skjaldakoti á Vatnsleysuströnd. Foreldrar: Björn Guðnason og fyrri kona hans, Margrét Ívarsdóttir. Kom til Canada 1893.

17. Sigfús S. Bergman, á sjúkrahúsi í Bellingham, Wash. Fæddur 21. marz 1868 á Akureyri. Fluttist til Canada 1882.

23. Ólafur G. Ólafsson, á Deer Lodge sjúkrahúsinu í Winnipeg, 69 ára gamall; kom vestur um haf innan við tvítugt.

26. Lawrence Thorleifson, að heimili sínu í East Kildonan, Man., 55 ára að aldri; kom til Vesturheims með foreldrum sínum þriggja ára gamall, frá Hrjót í Hjaltastaðaþinghá.

28. Mrs. Flora McQueen, hjúkrunarkona,, ekkja dr. John D. McQueen, (d. 1948), að heimili sínu í Winnipeg, á sjötugsaldri. Fædd að Gimli, Man. Foreldrar: Capt. John og Jóhanna Stevens.

28. Sigvaldi Guðmundsson Nordal, að heimili sínu í Selkirk, Man. Fæddur 15. ágúst 1857 í Kirkjubæ í Norðurdal í Húnavatnssýslu. Foreldrar: Guðmundur Ólafsson og Margrét Jónsdóttir. Flutti til Canada 1887.

30. Matthildur Málmquist, kona Karls J. Málmquist,, á sjúkrahúsi í Selkirk, Man., 68 ára. Ættuð frá Geithellum í Álftafirði í Suður-Múlasýslu, og kom til Canada 1914.

30. Guðný Kaprasíuson (Kaperson), ekkja Magnúsar Kaprasíuson (d. 1927), að Langruth, Man., 93 ára að aldri. Fluttist til Canada 1888.

31. Jón Johnson, að heimili sínu í Winnipeg. Fæddur að Þorvaldsstöðum í Breiðdal í Suður-Múlasýslu 29. febr. 1880. Fluttist barnungur með foreldrum sínum, Jóhanni Johnson og Guðrúnu Runólfsdóttur, vestur um haf.

**Apríl 1954**

2. Sveinn Pálmason trésmíðameistari, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur á Yztagili í Húnavatnssýslu 9. okt. 1877. Foreldrar: Pálmi Sigurðsson og Guðrún Sveinsdóttir. Kom til Vesturheims á tvítugsaldri. Áhugamaður um félagsmál.

5. Mrs. Steinunn Sigurðsson, að heimili sínu í Winnipeg, 85 ára. Hafði dvalið þar í borg frá því hún kom frá Íslandi fyrir 66 árum.

13. Leifur E. Summers, áður deildarstjóri hjá T. Eaton félaginu í Winnipeg, á sjúkrahúsi í Vancouver, B.C. Fæddur að Carberry í Manitoba 21. maí 1893. Foreldrar: Eiríkur Sumarliðason og Þorbjörg Jónsdóttir, ættuð úr Borgarfirði syðra.

13. Elín Thorlacius, á heimili sínu í Winnipeg. Fædd í Fagranesi í Skagafirði 1862. Foreldrar: Séra Magnús Thoralacius og Guðrún Jónasdóttir. Fluttist vestur um haf 1889.

14. Jóhann Sigmundsson Jonathan, einn af frumherjum byggðarinnar, í Minneota, Minn., 83 ára. Sonur Sigmundar Jónatanssonar, gestgjafa á Húsavík. Kom til Vesturheims 1873.

15. Ingibjörg Guðmundsson, kona Guðmundar Sigurbjörnssonar Guðmundsson, í Wynyard, Sask., 68 ára að aldri.

17. María Anderson, kennslukona, í Vancouver, B.C., ættuð úr Borgarfirði eystra.

17. Björn Brynjólfsson, í Chicago, Ill. Foreldrar: Sveinn og Thordís Brynjólfsson, er síðast bjuggu að Crescent, B.C.

18. Halldór Briem Christopherson, í Vancouver, B.C., 71 árs; sonur Sigurðar Christopherssonar landnema í Argyle, Man.

18. Þorlákur Jónasson, landnemi í Norður-Dakota og Saskatchewan, á sjúkrahúsi í Vancouver, B.C. Fæddur 18. jan. 1864 á Krossi í Ljósavatnsskarði í Suður-Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Jónas Jónasson og Guðný Jónsdóttir. Kom til Ameríku 1881.

19. Jóhanna Hólm, ekkja Kristjáns Hólm Þórðarsonar smiðs (d. 1915), að heimili sínu í Winnipeg. Fædd á Draflastöðum í Suður-Þingeyjarsýslu 24. febr. 1878. Foreldrar: Hrólfur Matthíasson og Ingunn Jónatansdóttir. Flutti vestur um haf 1912.

22. Grímur Hallson, einn af frumherjum byggðarinnar, að heimili sínu í Foam Lake, Sask. Fæddur að Hjaltabakka í Húnavatnssýslu 11. des. 1870.

28. Ingvar Goodman, áður að Point Roberts, á sjúkrahúsi í Bellingham, Wash. Fæddur 29. apríl 1867, Árnesingur að ætt. Fluttist til Vesturheims 1899.

Um mánaðamótin apríl-maí — Norman B. Johnson, á sjúkrahúsi í Boston. Hafði stundað sjómennsku þar yfir 20 ár.

**Maí 1954**

3. Hjörtur Brandsson smiður, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 78 ára að aldri. Kom vestur um haf 1897 frá Ólafsvík á Snæfellsnesi. Skáldmæltur vel.

7. Guðjón Jónsson (Johnson), áður bóndi í grennd við Árborg í Nýja-Íslandi, á elliheimilinu „Betel" að Gimli. ,Man. Fæddur að Ytra-Núpi við Vopnafjörð 4. okt. 1867. Foreldrar: Jón Jónsson og Guðlaug Gísladóttir. Kom vestur um haf 1893.

8. Mrs. Edgar (Steinunn Solveig) Kaeding, á sjúkrahúsi í Devils Lake, N. Dak., 45 ára. Foreldrar: Guðjón og Steinunn Finnsson, búsett við Churchbridge, Sask.

9. Ingibjörg A. Eiríksdóttir, ekkja Þorsteins Péturssonar prentara og bónda, að heimilinu sínu Piney, Man. Fædd á Brekkuseli í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu 3. nóv. 1869. Foreldrar: Eiríkur Magnússon og Guðrún Hallgrímsdóttir. Kom til Ameríku 1889.

10. Söngkonan Sigríður Hall, kona prófessors Steingríms K. Hall, á sjúkrahúsinu í Saskatoon, Sask., 73 ára að aldri. Ættuð úr Dalasýslu.

14. Guðmundur Jónasson Bergman, áður bóndi í Geysis-byggð í Nýja-Íslandi, að heimili sínu á Gimli, Man. Fæddur að Litlu-Tungu í Miðfirði í Húnavatnssýslu 22. sept. 1869. Foreldrar: Jónas Jónasson og Soffía Bjarnadóttir. Kom vestur um hafa aldamótaárið.

14. Þorbjörg Anderson, ekkja Guðmundar Anderson (d. 1934), að heimili sínu í Vancouver, B.C. Fædd að Kjólsvík í Borgarfirði eystra 5. febr. 1880. Foreldrar: Guðni Stefánsson og Guðný Högnadóttir. Kom til Canada 1903.

19. Solveig Nielsen, ekkja Charles Nielsen póstfulltrúa (d. 1952), á Grace sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fædd í Hrísey í Eyjafirði 10. júní 1890. Foreldrar:: Þorsteinn Einarsson frá Brú í Jökuldal og seinni kona hans Jóhanna Matthíasdóttir. Fluttist til Canada 1911.

25. Björn Gunnlaugsson, á sjúkrahúsi í Victoria, B.C., 74 ára að aldri.

Seint í maí — Mrs. Alex (Lorna) Kay, frá Winnipeg, drukknaði skammt frá Pointe du Bois, Man., 31 árs að aldri. Foreldrar: Tryggvi Briem og kona hans, Riverton, Man.

31. Gísli Ólafsson, á heimili sínu að Lundar, Man., 89 ára að aldri; kom til Canada 1888.

**Júní 1954**

9. Eiríkur J. Hallsson landnámsmaður, að heimili sínu að Lundar, Man. Fæddur 2. apríl 1863 að Márseli í Jökulsárhlíð. Foreldrar: Jón Hallsson og Ingibjörg Sæbjörnsdóttir. Fluttist til Canada 1888.

17. Þorbjörg Runólfsdóttir Mýrdal, á heimili sínu við Árborg, Man. Fædd að Kvíslhöfða í Álftaneshreppi í Mýrasýslu 28. júní 1860. Foreldrar: Runólfur Guðmundsson og Þorbjörg Jónsdóttir. Kom til Vesturheims um aldamótin.

17. Thórður Ísfjörð, á heimili sínu að Gimli, Man. Fæddur 12. nóv. 1876 í Ísafjarðarsýslu. Foreldrar: Þórður Þórðarson og Gróa Jónsdóttir. Kom til Canada 1893.

20. Kristín Þórðardóttir Johnson, á elliheimilinu „Höfn" í Vancouver, B.C. Fædd 24. sept. 1855 að Hafurstöðum í Helgafellssveit á Snæfellsnesi. Foreldrar: Þórður Sveinsson og Guðrún Sigurðardóttir. Kom til Canada 1888.

21. Eyjólfur Thorsteinsson, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 72 ára að aldri. Ættaður úr Hróarstungu og kom vestur um haf fyrir 44 árum.

23. Aurora Johnson, ekkja Thomasar H. Johnson ráðherra, á heimili sínu í Madison, New York, 76 ára. Dóttir landnámshjónanna Friðjóns og GuðnýjarFrederickson.

24. Halldór Kalman Bardal lögfræðingur í Wynyard, Sask., af slysförum að Calmar, Alberta. Fæddur í Wynyard 9. marz 1925. Foreldrar: Þórhallur og Sigríður Jakobína Bardal.

26. Valgerður Johnson, á heimili sínu í Winnipeg, 77 ára að aldri. Fluttist þangað fyrir 71 ári.

Í júní — Stanley Sigurðsson, Selkirk, Man., af slysförum, 43 ára gamall.

**Júlí 1954**

2. Pétur Erlendsson, á heimili sínu í Winnipeg. Fæddur á Djúpavogi 11. nóv. 1870. Kom vestur um haf 1889.

10. Þorbjörg Ásta Hjörleifsson, á heimili sínu í St . Vital, Man. Fædd 6. okt. 1892. Foreldrar: Sigfús Bjarnason og Guðfinna Bjarnadóttir, ættuð úr Norðfirði í Suður-Múlasýslu. Flutti til Vesturheims 1898.

12. Svanhildur Guðrún Sigurgeirsson, á heimili sínu við Siglunes, Man. Fædd 24. ágúst 1872. Foreldrar: Sigurbjörn Sigurðsson (frá Einarsstöðum í Kræklingahlíð í Eyjafirði) og Guðbjörg Jónsdóttir kona hans. Kom til Canada 1906.

15. Sigurður Jónsson, á heimili sínu í Tantallon, Sask. Fæddur 1869 að Hellu í Skagafirði. Fluttist vestur um haf 1887.

28. Böðvar Magnússon, í Winnipeg, 86 ára að aldri. Kom til Canada 26 ára gamall.

**Ágúst 1954**

7. Ellen Albertina Sigurðsson, að Sandy Hook, Man., á sjúkrahúsi að Gimli, 57 ára að aldri, fædd í Selkirk, Man.

7. Hermann Bjarnason, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 55 ára, fæddur í Brandon, Man.

8. Guðjón Björnsson, að Riverton, Man., 57 ára. Fæddur á Íslandi, en búsettur í Riverton um 34 ár.

8. Guðný Sigurbjörg Einarsson, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fædd 10. júní 1887 í Akrabyggðinni í N. Dakota. Foreldrar: Halldór Einarsson frá Egilsseli í Norður-Múlasýslu og Vilborg Gunnlaugsdóttir kona hans frá Flögu í Breiðdal í Suður-Múlasýslu.

11. H. G. Jónasson, bóndi að Langruth, Man., á sjúkrahúsi í Glandstone, Man. Fæddur 1898 í grennd við Baldur, Man.

16. Guðmundur Johnson, á sjúkrahúsinu að Gimli, Man. Fluttist til Canada fyrir 46 árum.

21. Jón Helgi Grímsson, á sjúkrahúsi í North Bellingham, Wash. Fæddur í Garðar-byggð í N. Dakota 1. febr. 1891, sonur Daníels og Sigríðar Grímsson,

22. Guðlaug Jakobsson, ekkja Böðvars Jakobssonar, Árborg, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg, 64 ára að aldri.

24. S. W. Jónasson byggingarmeistari, að heimili sínu í Santa Ana, Cali., 75 ára að aldri. Fæddur í Minneota, Minn., en var um þrjátíu ár búsettur í Aberdeen, S. Dakota.

26. Kristín Ísleifsdóttir, kona Sigurbjörns Steinkers Skagfeld, á heimili sínu að Oak Point, Man. Fædd í Grunnavatnsbyggð í Manitoba 29. okt. 1890. Foreldrar: Ísleifur Guðjónsson og Guðleif Jónatansdóttir, ættuð úr Þistilfirði.

27. Egill Laxdal, landnámsmaður í Kandahar-byggðinni, í Wynyard, Sask. Forustumaður í sveitarmálum.

Í ágúst — Brynjólfur I. Sveinsson fiskimaður, á sjúkrahúsinu á Gimli, Man., 71 árs gamall.

**September 1954**

2. Clarence Valdimar Thor Josephson, af slysförum, að Mozart, Sask. Fæddur að

Mozart 24. febr. 1933. Foreldrar Thorfinnur og Margrét Josephson.

7. Elísabet Eyjólfsdóttir Sigurdson, að heimili sínu í Churchbridge, Sask. Fædd 13. apríl 1853. Hafði dvalist langvistum vestan hafs.

8. Þórdís Anderson, á sjúkrahúsi í New York borg. Fædd 1880 í Villingadal í Dalasýslu. Foreldrar: Þorleifur Andrésson og Ragnheiður Sigvaldadóttir. Kom til Ameríku aldamótaárið.

13. Andrés Daníelsson (Andrew Danielson), friðdómari og fyrrv. ríkisþingmaður, á heimili sínu í Blaine, Wash. Fæddur á Harastöðum á Skagaströnd 21. des. 1879. Foreldrar: Daníel Andrésson og Hlíf Jónsdóttir. Kom vestur um haf níu ára gamall. Forustumaður í félagsmálum.

17. Guðrún Sigríður Linekar, á heimili sínu í Winnipeg. Fædd á Ísafirði 27. maí 1879. Foreldrar: Halldór Halldórsson og Kristín Pálsdóttir. Kom til Canada 1887.

19. Ögmundur Ólafsson, fyrrum bóndi í Leslie, Sask., og víðar, á Almenna sjúkrahúsinu í Vancouver, B.C., 82 ára að aldri. Fæddur á Hvassahrauni á Vatnsleysuströnd; fluttist vestur um haf um 1890.

22. Guðbjörg Hjartveig Jónsdóttir (Bertha Johnson), á sjúkrahúsi í North Bellingham, Wash. Fædd 22. okt. 1886. Foreldrar: Jón Guðmundsson og Sigríður Hjartardóttir úr Steingrímsfirði í Strandasýslu. Kom til Canada tveggja ára gömul.

24. Bjarni Guðmundsson trésmíðameistari, á heimili dóttur sinnar í Tunjunga, Calif. Fæddur í Útverkum á Skeiði í Árnessýslu 1. júlí 1870. Foreldrar: Guðmundur smiður Bjarnason og Gjaflaug Þórðardóttir. Fluttist til Canada laust eftir aldamótin.

26. Emilía Sigríður Eyjólfsson, ekkja Ásvaldar Thoris Eyjólfssonar í Riverton, Man., á heimili sínu í Winnipeg, 65 ára. Fædd að Gardar, N. Dakota.

**Október 1954**

2. Sigríður Johnson, á elliheimilinu „Stafholt" í Blaine, Wash. Fædd 4. ágúst 1876 á Akureyri. Foreldrar: Sigurður Sigurðsson og Þóra Sigurðardóttir. Fluttist til Canada 1883.

2. Jónas Gísli Ólafsson, lengi bóndi í Árnesi, Man., á sjúkrahúsi í St. Boniface, Man. Fæddur 24. ágúst 1895 í Djúpadal í Skagafirði. Foreldrar: Ólafur Jónasson og Helga Jónasdóttir. Kom til Canada fimm ára gamall.

6. Gunnlaugur Gíslason, á heimili sínu í Wynyard, Sask. Fæddur að Hallgilsstöðum í Þistilfirði 22. okt. 1862. Foreldrar: Gísli Þorsteinsson og Guðrún Björnsdóttir. Hafði búið í Wynyard-byggð síðan 1912, en áður í Pembina, N. Dak.

7. Ingibjörg Helga Johnson, á heimili sínu að Oak Point, Man. Fædd 4. des. 1874 á Hæli í Flókadal í Borgarfjarðarsýslu. Foreldrar: Þorsteinn Guðmundsson og Ljótunn Pétursdóttir. Kom til Canada 1887.

9. Magnús Árnason, frá Wadena. Sask., í Vancouver, B.C., 27 ára að aldri.

14. Björn Thorvaldson, áður kaupmaður í Cavalier, N. Dak., á heimili sínu í Los Angeles, Calif.; sonur Stígs Thorvaldsonar fyrrum kaupmanns að Akra, N. Dak.

17. Hálfdán Pétur Bardal bóndi, á heimili sínu við Wynyard, Sask., 66 ára.

19. Björgdís Benson, að heimili sínu í Selkirk, Man. Fædd í Skagafirði 26. okt. 1884. Foreldrar: Jón og Ingibjörg Frímannsdóttir Skardal, er fluttust frá Íslandi til Sayreville, New Jersey, en námu síðar land við Árnes, Man.

22. Swain Joseph Swainson málmfræðingur, á sumarheimili sínu í Southold, Long Island, í New York ríki. Fæddur í Mountain, N. Dak., 21. maí 1901. Foreldrar: Oddur Sveinsson og Guðný Schrom. Kunnur vísindamaður í sinni fræðigrein.

22. Einar Thompson, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 87 ára að aldri; kom vestur um haf fyrir 44 árum.

Okt. — Sigurjón Jónasson, í Mary Hill, Man. Fæddur 15. apríl 1871 á Miðhálsstöðum í Hörgárdal. Foreldrar: Jónas Jónsson og Ólöf Sigurðardóttir. Kom vestur um haf 1899.

Seint í október — Hóseas Hóseasson landnámsmaður, á heimili sínu í Mozartbyggð í Saskatchewan. Fæddur 29. júní 1866 í Jórvík í Breiðdal í Suður-Múlasýslu. Foreldrar: Hóseas Björnsson og Guðbjörg Gísladóttir. Kom til Ameríku 1903.

**Nóvember 1954**

1. Vilhjálmur Björgvin Oddson, að heimili sínu í Geysisbyggð í Nýja-Íslandi, 62 ára gamall. Fæddur að Moutain, N. Dak., en fluttist til Manitoba 1902.

2. Jónas Marino Jónasson, að heimili sínu í Geysisbyggð í Nýja-Íslandi, 66 ára að aldri. Fæddur vestan hafs. Foreldrar: Jónas Þorsteinsson og Lilja Friðfinnsdóttir frá Teigi í Óslandshlíð í Skagafirði, er komu til Vesturheims 1883.

6. Björn Jónsson Arnfinnsson, á heimili sínu að Lundar, Man. Fæddur að Hamborg í Norður-Múlasýslu 28. jan. 1874. Foreldrar: Jón Arnfinnsson og Sveinbjörg Sigmundsdóttir. Kom til Canada 1901.

7. Runólfur S. Benson kaupmaður, að heimili sínu í Selkirk, Man. Fæddur í Vopnafirði í Norður-Múlasýslu 12. okt. 1879. Foreldrar: Sigurbjörn Benson og Stefanía Magnúsdóttir. Kom vestur um haf 1893.

14. Petrína Sigríður Ingimarsdóttir Kjartansson, frá Reykjavík, Man., á sjúkrahúsi í St. Rose du Lac, Man. Fædd að Hvammi í Norðurárdal 19. marz 1872. Foreldrar: Ingimar Marísson og Marta

Pétursdóttir. Kom til Canada aldamótaárið.

18. Hans Pétur Tergesen, kaupmaður og fyrrum bæjarstjóri að Gimli, Man., á heimili sínu þar í bæ. Fæddur á Stóra-Eyrarlandi við Akureyri 16. febr. 1863. Foreldrar Pétur Tergesen kaupmaður og Judit Ingibjörg Guðjónsdóttir. Flutti til Vesturheims 1887.

21. Mrs. Þórdís Samson, á heimili sínu í Swan River, Man., 90 ára. Kom vestur um haf 1894.

23. Halldór Kjernested, að heimili sínu í Víðinesbyggð í Nýja-Íslandi, 85 ára að aldri. Kom til Canada 1876.

23. Sigríður Stefánsson, áður í Mikley, Man., í Vancouver, B.C., rúmlega áttræð. Foreldrar Halldór Halldórsson og Guðrún Guðmundsdóttir úr Borgarfjarðarsýslu. Fluttist til Vesturheims 1878.

24. Guðný Sigurjóna Ólafsson, á sjúkrahúsi að Vita, Man. Fædd í grennd við Mountain, N. Dak., 31. maí 1885. Foreldrar: Þorkell Magnússon og Ingibjörg Guðmundsdóttir, er komu vestur um haf 1884.

26. Eiríka Sigurbjörg Sveinbjörnsdóttir Kristjánsson, á heimili sínu að Lundar, Man. Fædd 6. sept. 1880 á Seyðisfirði. Foreldrar: Sveinbjörn Sigurðsson og Eiríka Sigríður Eiríksdóttir. Fluttist vestur um haf 1884.

27. Anna Guðmundsson Osbeck, í Seattle, Wash. Foreldrar: Jón Guðmundsson og Guðríður Kristjánsdóttir frá Barmi á Barðaströnd. Kom til Ameríku 1901.

**Desember 1954**

2. Jóhannes Einarsson, fyrrum í Árborg Man., á elliheimilinu „Betel" á Gimli, Man., 86 ára að aldri. Fluttist til Canada um aldamótin.

3. Guðveig Margrét Sveinsson, á sjúkrahúsi í Ottawa, Ont., Fædd í Winnipeg 27. nóv. 1915. Foreldrar: Bjarni og Matthildur Sveinsson í Keewatin, Ont.

5. Jóel Ágúst Ísfeld, áður í Elfros, Sask., í Cardston, Alberta. Fæddur í Curityba í Brazilíu 17. apríl 1886. Fluttist með foreldrum sínum, Magnúsi Guðmundssyni Ísfeld (Brazilíufara) og Elínu Jóelsdóttur Jónsson, frá Brazilíu til Canada 1905. Forustumaður í sveitarmálum í Elfros.

8. Ágúst Ásmundsson, á heimili sínu í Red Deer, Alberta. Fæddur 25. ágúst 1871 að Haga í Gnúpverjahreppi í Árnessýslu. Foreldrar: Ásmundur Benediktsson og Sigurlaug kona hans. Kom vestur um haf 1900.

14. Guðrún Ágústa Jóhannesdóttir Jónasson, í Flin Flon, Man. Fædd í Reyðarfirði 12. ágúst 1876. Foreldrar: Jóhannes Jónsson og Snjólaug Þorsteinsdóttir. Kom vestur um haf aldamótaárið.

16. Mrs. Guðrún Norman, að Gimli, Man.

17. Friðrik H. Fljózdal, fyrrv. forseti Bandalags Járbrautar-viðgerðarmanna í Bandaríkjunum og Canada, á heimili sínu í Detroit, Michigan, 86 ára að aldri. Austfirzkrar ættar; fluttist ungur vestur um haf með fósturforeldrum sínum, Eiríki og Vilborgu Johnson, um langt skeið búsett í Árborg, Man. Víðkunnur og mikilsmetinn verkalýðsleiðtogi.

21. Vilborg Guðmundsson (Goodman), áður í Winnipegosis, Man., á heimili sínu í London, Ont. Fædd að Rofabæ í Meðallandi í Vestur-Skaptafellssýslu 26. júlí 1866. Foreldrar: Ólafur Ólafsson og Vilborg Höskuldsdóttir. Kom til Canada 1905.

21. Elín Helgason, ekkja Andrésar Helgasonar málara (d. 1932), á sjúkrahúsi í Wynyard, Sask. Fluttist vestur um haf 1889.

23. Jón Stefánsson, að heimili sínu í Blaine, Wash., 74 ára að aldri. Þingeyingur að ætt. Foreldrar: Stefán Jónsson og Kristín Jónsdóttir að Skinnalóni á Melrakkasléttu.

Í des. — Gordon Melsted, í Des Moines, Iowaríki, 49 ára; sonur Sigurðar W. Melsted og konu hans í Winnipeg.

27. Samson Finnbogason, frá Bisset, Man., í Ninette, Man., 55 ára.

29. Guðlaugur Sigurðsson, fyrrum að Lundar, á heimili sínu í Winnipeg, níræður að aldri.

**Janúar 1955**

1. Guðmundur Jóhannesson, á heimili sínu í Winnipeg. Fæddur að Keldunesi í Kelduhverfi 26. nóv. 1886. Foreldrar Jóhannes Árnason og Ingiríður Ásmundsdóttir. Kom vestur um haf 1903.

2. Sigurjóna Helga Bjarnason, kona Júlíusar Bjarnasonar, í Wynyard, Sask. Fædd 15. ágúst 1873 á Litlu-Laugum á Tjörnesi. Foreldrar: Sigurður Þorkelsson og Ingibjörg kona hans. Fluttist til Canada 1893.

2. Hjörtur J. Davidson gullsmiður, á heimili sínu að Souris, Man., áttræður að aldri.

2. Anna Kristín Sawyer, á heimili sínu í St. Vital, Man. Ættuð úr Húnaþingi, fædd 16. sept. 1871. Foreldrar: Jóhann Guðmundsson og Anna Gunnarsdóttir. Kom til Canada 1887.

3. Margrét Guðmundsdóttir, frá Garðar, N. Dak., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fædd 19. jan. 1885 að Hreinsstöðum í Norður-Múlasýslu. Kom vestur um haf 1913.

5. Valdimar Anderson, í Chicago, Ill. Fæddur að Lundar, Man., 31. okt 1903. Foreldrar: Stefán Egilsson (Anderson) frá Bakka í Borgarfirði eystra og Gyðríður Guðnadóttir frá Kjólsvík í sömu sveit, er komu vestur um haf 1903.

8. Séra Sigurður Christophersson, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur að Ytri-

Neslöndum við Mývatn 21. apríl 1876. Foreldrar: Sigurjón Kristófersson, síðar landnámsmaður í Argyle, og Helga Jórunn Jónsdóttir. Kom til Vesturheims 1893.

8. Marsibil Stefanía Helgason, landnámskona í Árnesbyggð í Nýja-Íslandi, á Gimli, Man. Fædd að Syðsta-Hvammi í Húnavatnssýslu 25. júlí 1877. Foreldrar: Jónatan Jónsson og Marsibil Jónsdóttir. Fluttist vestur um haf 1887.

15. Ingibjörg Margrét Jónatansdóttir Jameson, áður um langt skeið í Spanish Fork, Utah, á heimili sínu í Huntington Park, Calif. Frá Marðarnúpi í Vatnsdal, 97 ára að aldri.

15. Guðrún Gottsveinsdóttir Kárason, á sjúkrahúsi í grennd við Seattle, Wash., 83 ára.

19. Mrs. William (Þorbjörg Sesselja) Riches, á heimili sínu í Chicago, Ill., 63 ára gömul. Foreldrar: Landnámshjónin Páll og Guðný Kjernested við Narrows, Man.

21. Finnur Jónsson, fyrrv. bóksali í Winnipeg og ritstjóri **Lögbergs**, á elliheimilinu „Betel" að Gimli Man. Fæddur á Melum í Hrútafirði 6. marz 1868. Foreldrar: Jón Jónsson og Sigurlaug Jónsdóttir. Kom vestur um haf 1893.

22. Thóra Markússon, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 78 ára að aldri. Kom vestur um haf 1881.

25. Jóhanna Bjarnason, á heimili sínu í Winnipeg. Fædd á Dröngum á Skógarströnd 29. apríl 1859. Foreldrar Bjarni Ingvarsson og Kristín Helgadóttir. Fluttist til Vesturheims snemma á árum.

25. Sigríður Árnadóttir Sveinsson, frá Marquette, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fædd á Glæsibæ í Skagafirði 29. júlí 1892. Foreldrar: Árni Jónsson læknir og seinni kona hans Sigurveig Friðfinnsdóttir. Kom til Canada 1905.

27. Þorbjörn Magnússon smiður, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man. Fæddur 8. nóv. 1864 að Stóru-Hildisey í Austur-Landeyjum. Foreldrar: Magnús Björnsson hreppstjóri og Margrét Þorkelsdóttir. Fluttist til Vesturheims 1892.

30. Jón Sveinsson Skagfjörð, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man. Fæddur 9. sept. 1883 á Hrauni á Skaga. Foreldrar: Sveinn Jónatansson og Guðbjörg Jónsdóttir. Kom til Canada um aldamótin.

30. Árni Ólafur Anderson, að Oak Point, Man. Fæddur að Bægisá í Eyjafirði 15. jan. 1882. Foreldrar: Jón Anderson og Ástríður Jóhannsdóttir. Fluttist vestur um haf um aldamótin.

Jan. — Eiríkur Kristinn Sigurðsson, á heimili sínu í Reykjavíkurbyggð í Manitoba, 63 ára. Foreldrar: Guðmundur Sigurðsson, úr Langadal, og Eyvör Eiríksdóttir frá Helgastöðum á Skeiðum. Kom til Ameríku aldamótaárið.

**Febrúar 1955**

1. Guðjón Kristjánsson, að Reynistað í Mikley, Man., hálfníræður að aldri, austfirzkur að ætt. Kunnur skákmaður.

2. Oscar G. Jóhannsson, í Port Arthur, Ont. Fæddur í Selkirk, Man., 2. des. 1896. Foreldrar: Gestur Jóhannsson og kona hans, lengi búsett að Poplar Park, Man.

2. Salome Helga Backman, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fædd 22. sept. 1876 að Arnarstapa í Álftanesshreppi í Mýrarsýslu. Foreldrar: Bjarni Sigurðsson og Margrét Ólafsdóttir. Fluttist til Canada 1901. Lét sig mikið skipta félagsmál.

4. Ásta Árnadóttir Norman málari, að Point Roberts, Wash., í Seattle, Wash. Fædd 3. júlí 1883 í Narfakoti í Gullbringusýslu. Foreldrar: Árni Gíslason bóndi og kennari og Sigríður Magnúsdóttir. Kom vestur um haf 1920.

5. Sigurður Tómasson, í Langruth, Man., 88 ára að aldri. Kom í byggðina 1910.

5. Guðný Árnason, áður í Chicago, á heimili sínu í Tarzan, Calif., 68 ára að aldri. Fædd í Riverton, Man. Foreldrar: Sigfús Jónsson og Guðrún Hildibrandsdóttir.

7. Guðmundur Vigfússon í Árborg, Man., 85 ára. Frá Árnesi í Hornafirði. Kom vestur um haf til Nýja-Íslands 1903.

8. Gíslína Gísladóttir Olson, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 86 ára gömul. Kom vestur um haf 1873 og til Winnipeg tveim árum síðar.

9. Mrs. Ella Ögmundsson, lengi búsett í Winnipegosis, í Flin Flon, Man., 73 ára að aldri.

9. Hansína Einarsson Olson, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man. Fædd á Húsavík 3. okt. 1863. Foreldrar: Einar Jónsson og Guðrún Halldórsdóttir. Fluttist vestur um haf 1882.

10. Gestur V. Sigurdson, áður póstafgreiðslumaður í Newton, Man., á sjúkrahúsi í Eriksdale, Man., sjötugur að aldri.

10. Laura S. Pridham, á heimili sínu í Winnipeg, 56 ára. Foreldrar: Snorri Johnson og kona hans, um langt skeið búsett í Swan River byggðinni í Manitoba.

11. Guðmundína Ingjaldson, ekkja Chris Ingjaldson úrsmiðs, í Fort William, Ont., 83 ára.

13. Carl O. Sigurdson, á heimili sínu að Charlson, N. Dak., 71 árs að aldri. Fæddur í Minneota, Minn. Foreldrar: Stefán Sigurdson og Sigríður Jóakimsdóttir frumherjar þar í byggð.

16. Jósep Jóhannson, lengi bóndi í Garðarbyggð í N. Dak., á sjúkrahúsi í Cavalier, N. Dak. Ættaður úr Húnavatnssýslu, 89 ára gamall.

17. Karl Jónsson, í Wynyard, Sask. Frá Digurholti á Mýrum í Austur-Skaftafellssýslu, 68 ára að aldri. Kom vestur um haf 1902.

19. Guðrún Johnson, á elliheimilinu „Betel“ að Gimli, Man. Fædd að Setbergi í Nesjum í Hornafirði 28. maí 1871. Foreldrar: Jón Jónsson og Sesselja Sigurðardóttir. Kom til Vesturheims 1890.

20. Hólmfríður Johnson, í Cochrane, Alberta.

22. Oddný Jóhannsdóttir Johnson, í Winnipeg. Fædd að Kálfafellsstað í Austur-Skaftafellssýslu 24. apríl 1861. Foreldrar: Jóhann Magnússon og Björg Björnsdóttir. Kom vestur um haf 1885.

25. Solveig Thorarinsson, í Selkirk, Man., 81 árs að aldri.

**Marz 1955**

1. Jakobína Breckman, ekkja Guðmundar Breckman að Lundar, Man., í Winnipeg, áræðt að aldri.

2. Bogi Pétursson (Peterson), áður bæjarráðsmaður í Wynyard, Sask., á sjúkrahúsi í Saskatoon. Fæddur að Garðar, N. Dak., 15. okt. 1900.

3. Guðmundur Kristinn Johnson trésmiður, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur að Kirkjubæjarklaustri, og var 59 ára að aldri. Foreldrar: Einar Jónsson og Guðrún Guðmundsdóttir. Kom til Canada 1912.

3. Jonathan Kristjánsson Steinberg trésmiður, í San Diego, Calif. Fæddur að Barmi í Barðastrandasýslu 14. maí 1874. Foreldrar: Kristján Einarsson og Anna Jónsdóttir. Kom til Ameríku 1895.

8. Baldwin Baldwin, í Saskatoon, Sask., sextugur að aldri, fæddur að Baldur, Man.

12. Kristín Johnson, á heimili sínu í Blaine, Wash. Fædd 1864 að Berjanesi undir Eyjafjöllum. Foreldrar: Jón Ólafsson og Geirdís Jónsdóttir. Fluttist til Vesturheims 1902.

15. Margrét Gísladóttir Jónsson (Johnson), ekkja Sigurðar Jónssonar frá Syðstu-Mörk, á sjúkrahúsi í Rugby, N. Dak.

15. Guðrún Pétursson, á heimili sínu í Mount Royal, Quebec. Fædd 9. febr. 1874 á Öndólfsstöðum í Aðalreykjadal. Foreldrar: Jóhannes Ísleifsson og María Magnúsdóttir. Kom vestur um haf 1884.

17. Gunnlaugur Hávarðsson, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 59 ára gamall. Fæddur í Hnefilsdal á Jökuldal. Foreldrar: Guðmundur Hávarðsson og María kona hans.

19. Samson Friðjón Samson, á hermannaspítala í Vancouver, B.C. Fæddur á Seyðisfirði 17. apríl 1886. Foreldrar: Jónas Samson og Katrín Ásmundsdóttir. Kom til Ameríku 1889.

19. Halldór Austman, frá Riverton, Man., á sjúkrahúsi að Gimli, Man., 81 árs að aldri. Foreldrar: Jón Jónsson Austmann og kona hans, frá Bót í Hróarstungu, er fluttust til N. Dakota snemma á landnámsárum.

19. Thora Pétursdóttir Hávarðsson, frá Jökuldal, í Grafton, N. Dak., 72 ára að aldri.

23. Hermann Thorsteinsson útgerðarmaður, á heimili sínu í Riverton, 68 ára. Fæddur í Mikley, Man. Foreldrar: Thorsteinn Kristjánsson og seinni kona hans Valgerður Sveinsdóttir.

**Apríl 1955**

1. Jón Sigurðsson, á heimili sínu í Winnipeg. Fæddur að Höfnum í Húnavatnssýslu 17. okt. 1869. Foreldrar: Sigurður Jónsson og Anna Jónsdóttir. Kom vestur um haf 1888.

3. Thorkell Charles Magnússon, í Keewatin, Ont. Fæddur að Grímsstöðum á Seltjarnarnesi 12. ágúst 1866. Kom til Canada 1887.

4. Elízabet Katrín Lovísa Benson, ekkja Egils Benson, á elliheimilinu „Betel“ að Gimli, Man., 93 ára Fædd í Þórshöfn í Færeyjum, en fluttist til Íslands 1879 og þaðan vestur um haf.

5. Magnús Pearson, í St. James, Man., 95 ára að aldri.

Kristján Gestur Steinberg, í New Westminster, B.C. Fæddur 3. marz 1920 í Foam Lake byggðinni í Saskatchewan. Foreldrar: Helgi og Kristín Steinberg.

5. Mrs. H. H. Gray (Selah Árnason), á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fædd í Churchbridge, Sask. Foreldrar: Jón Árnason og Sigurveig Sigurðardóttir.

14. Helga S. Frederickson, á heimili sínu í Winnipeg, 62 ára.

16. Páll Guðmundsson, lengi póstafgreiðslumaður að Mary Hill, Man., á Lundar, Man., 87 ára. Fæddur á Snotrunesi í Borgarfirði eystra og kom vestur um haf 1894.

17. Pétur Jónsson, í Riverton, Man. 84 ára.

18. Ragnar Jóhannesson, frá London, Ont., í Rochester, Minnesota, 47 ára.

19. Þóra Loftsson, frá Lundar, Man.., í Vancouver, B.C. Fædd að Mary Hill, Man., 9. febr. 1894. Foreldrar: Guðmundur og Eyjólfína Bjarnason.

24. Magnús Jónsson, á heimili sínu í Winnipeg, 88 ára að aldri, frá Ferstiklu á Hvalfjarðarströnd.

24. Eggert Júlíus Árnason, á heimili sínu í Calgary, Alberta. Fæddur 4. júlí 1886 að Minna-Knararnesi á Vatnsleysuströnd. Foreldrar: Árni Þorláksson og Helga Kjartansdóttir. Kom vestur um haf 1905.

Guðbergur Ástínus Sigurdson, Riverton, Man., sextugur að aldri. Fæddur í Mikley. Foreldrar: Landnámshjónin Helgi Sigurðsson og Valgerður Brynjólfsdóttir.

25. Sigurður Freysteinsson, á heimili sínu í Riverton, 79 ára.

26. Einar Einarsson, áður bóndi í Pine Valley-byggð í Manitoba, á sjúkrahúsi í Vancouver, B.C. Fæddur 19. des. 1877 við Íslendingafljót í Nýja-Íslandi. Foreldrar:

Einar Einarsson og Katrín Margrét Hjálmarsdóttir, er komu vestur um haf í „stóra hópnum“ 1876. Forustumaður í sveitamálum í byggð sinni.

Apríl — Stefán Sigbjörnsson Hofteig, á Lundar, Man. Fæddur í Minneota, Minnesota, 20. febr. 1881. Foreldrar: Sigbjörn Sigurðsson og Steinunn Magnúsdóttir, er komu til Vesturheims 1878.

**Maí 1955**

1. Mrs. Guðrún M. (Stephensen) Black, á heimili sínu í Winnipeg, 57 ára.

3. L. H. Westdal, í Minneota, Minn. Sonur Sveins Oddssonar prentara í Winnipeg.

11. Thora Pétursson, á elliheimilinu „Betel“ að Gimli, Man. Fædd að Kleifarkoti í Ísafjarðarsýslu 28. ágúst 1866. Foreldrar: Bergur Sakaríasson og Kristín Pétursdóttir. Kom til Canada 1902.

12. Guðbjörg Sveinsson, að Camp Morton, Man., 88 ára að aldri.

18. John Benson (Guðjón Steingrímur Benediktsson), í Winnipeg. Fæddur 11. sept. 1883 í Steinnesi í Húnavatnssýslu. Foreldrar: Benedikt Þorsteinsson og Elsabet Þorsteinsdóttir. Fluttist til Canada 1890.

19. Samson Jónasson Samson, fyrrv. lögregluþjónn, í Winnipeg. Fæddur í Keldudal í Skagafirði 14. júní 1876. Foreldrar: Jónas Jónsson og Björg Jónsdóttir. Kom vestur um haf 1887.

19. Helga Júlíus, á sjúkrahúsi nálægt Ladner, B.C. Fædd 24. nóv. 1887 í grennd við Glenboro, Man. Foreldrar: Þorsteinn Antoníusson og Sigríður Erlendsdóttir, ættuð úr Norður-Múlasýslu.

21. Bertha Laxdal Curry, í San Diego, Calif., áttræð að aldri. Kom vestur um haf á fermingaraldri, en flutti til Californíu fyrir 50 árum.

**Júní 1955**

1. Prófessor Skúli Johnson, forseti deildarinnar í klassiskum fræðum við háskólann í Manitoba, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur 1888 að Hlíð á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu. Foreldrar: Sveinn Jónsson og Kristín Þórðardóttir. Kom ársgamall vestur um haf. Víðkunnur fræðimaður.

6. Hallur Gilsson, í Selkirk, Man. Fæddur 25. júní 1871 á Krossanesi í Álftaneshreppi í Mýrarsýslu. Foreldrar: Gils Sigurðsson og Guðrún Andrésdóttir. Kom til Canada 1901.

12. Inga Þórey Beatrice (Ísfeld) Sigurðsson, í Glenboro, Man.

15. Lawrence Edward Ingimundson, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur í Selkirk, Man. 13. marz 1905.

16. Anna Margrét Kristjánsdóttir Pálsson, í Seattle, Wash. Fædd 11. okt. 1863 að Hallsteinsnesi í Gufudalssveit. Kom til Vesturheims 1922.

16. Guðmundur S. Guðmundsson, frá Garðar, N. Dak., á sjúkrahúsi í Grafton, N. Dak. Fæddur að Cashel, N. Dak., 12. apríl 1887. Foreldrar: Sigurður Guðmundsson og Guðrún kona hans frá Skálum á Langanesi, er fluttust vestur um haf 1882.

17. Júlíana Guðrún Friðriksdóttir Thordarson, ekkja dr. Hjartar Thordarson, á Washington eyju í Wisconsinríki. Fædd 10. sept. 1854, dóttir Friðriks Gíslasonar kaupmanns í Reykjavík.

20. Guðmundur Eiríksson byggingarmeistari, í Vancouver, B.C. Fæddur í Reykjavík 7. júlí 1888.

23. Helgi Árnason múrhúðari, á heimili sínu í Winnipeg, 69 ára að aldri, ættaður úr Reykjavík.

24. Guðrún Johnson, frá Árnesi, Man., á sjúkrahúsinu að Gimli, Man. Fædd 25. febr. 1877 á Reyn í Hegranesi í Skagafirði. Foreldrar: Þorvaldur Þorvaldsson og Guðríður Þorbergsdóttir. Fluttist til Canada 1887.

26. Sólveig Emilía Johnson, á sjúkrahúsi í North Bellingham, Wash. Fædd 31. maí 1893 nálægt Hallson, N. Dak. Foreldrar: Eggert Guðmundsson og Sigurlaug Jónsdóttir.

28. Axel Guðni Jónsson, í Elfros, Sask. Frá Þverá í Öxnadal í Eyjafjarðarsýslu, fæddur 2. nóv. 1878. Foreldrar: Ágúst Jónasson og Björg Guðnadóttir. Kom til Canada aldamótaárið.

30. Jón H. Norman smiður, áður kornkaupmðaur í Hensel, N. Dak., á elliheimili í Twin Valley, Minn., 88 ára að aldri.

**Júlí 1955**

1. Finnbogi Saunders, í Wynyard, Sask., 73 ára að aldri.

2. Sigrún Bardarson Dodd, á heimili sínu í Seattle, Wash. Fædd í Winnipeg 1. apríl 1894. Foreldrar: Sigurður Bárðarson læknir og seinni kona hans Guðrún Davíðsdóttir.

3. Guðrún Valdís Lanigan, á heimili sínu í Regina, Sask. Fædd í Seljavík í Tungusveit í Strandasýslu 1872. Foreldrar: Guðmundur Magnússon og Helga Jónsdóttir. Fluttist vestur um haf 1877.

3. Margrét Sveinsson, á elliheimilinu „Borg“ að Mountain, N. Dak. Fædd á Parti í Húsavík við Seyðisfjörð 10. júlí 1863. Foreldrar: Ásmundur Guðmundsson frá Hánefsstöðum og Kristín María Sæbjörnsdóttir. Kom til Vesturheims 1889.

4. Thorsteinn Thorsteinsson, á heimili sínu í Winnipeg, 87 ára gamall. Kom til Ameríku 1876.

4. Carl K. Thorláksson, úrsmiður og skrautmunasali, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur á Ísafirði 25. sept. 1888. Foreldrar: Þorlákur Magnússon og

Júlíana Ingimundardóttir. Fluttist til Canada 1911. Skákmaður góður.

4. Guðrún Helga Freeman (Sigurdson), í Medicine Hat, Alberta. Fædd 22. nóv. 1876 að Álfhólfi í Hofssókn í Húnavatnssýslu. Foreldrar: Þorleifur Björnsson og Sigríður Hansdóttir. Kom vestur um haf 12 ára gömul.

6. Kristján Sveinbjörn Goodman, á heimili sínu í Glenboro, Man. Fæddur í Winnipeg 22. nóv. 1886. Foreldrar: Hafliði Guðmundsson og Halldóra Stefánsdóttir úr Víðidal í Húnavatnssýslu.

8. Sigvaldi Sigurðsson Vídal, á sjúkrahúsi að Gimli, Man., 73 ára. Kom til Canada með foreldrum sínum, Sigurði og Kristínu Vídal, frá Víðidal í Húnavatnssýslu, 1887.

9. Sveinn George Richter, á elliheimili í Seattle, Wash. Fæddur 10. nóv. 1865 að Hraunhöfn í Staðarsveit á Snæfellsnesi. Foreldrar: Kristján Sigurðsson og Steinunn Jónsdóttir. Hafði dvalið langvistum í Vesturheimi.

17. Sigurlaug Johnson, á heimili sínu í St. James, Man., 76 ára að aldri.

18. Guðmundur Óskar Einarsson, lengi forstjóri Samvinnuverzlunarinnar í Árborg, Man., á sjúkrahúsi þar í bæ, 67 ára gamall. Fæddur í Riverton, sonur Einars frá Skógum í Mjóafirði. Áhugamaður um félagsmál og skáld gott.

19. Þorsteinn J. Gíslason landnámsmaður, á sjúkrahúsi í Morden, Man. Fæddur að Flatatungu í Skagafjarðarsýslu 12. maí 1875 Foreldrar: Jón Gíslason og Sæunn Þorsteinsdóttir. Kom vestur um haf 1883. Sveitarhöfðingi og leiðtogi í félagsmálum.

21. Guðrún Ingibjörg Hunt, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, fertug að aldri.

27. Thorleifur J. Thorleifsson, á heimili sínu í Bottineau, N. Dak. Fæddur á Íslandi 1877, en fluttist vestur um haf 1883 með foreldum sínum, Jóni og Solveigu Thorleifsson.

Hvallátrum í Barðastrandasýslu, sonur Össurar Össurarsonar. Kom til Vesturheims snemma á árum. Fornlundaður fróðleiksmaður.

16. Anna Kristín Jónsdóttir (Anna Johnson), á heimili sínu í Winnipeg. Fædd að Grund í Svarfaðardal 2. ágúst 1869. Foreldrar: Jón skipstjóri Jónsson og Kristín Jónsdóttir. Kom til Canada 1886.

17. Jón J. Bíldfell, fyrrv. forseti Þjóðræknisfélagsins og ritstjóri **Lögbergs**, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur að Bíldsfelli í Grafningi 1. maí 1870. Foreldrar: Jón hreppstjóri Ögmundsson og Þjóðbjörg Ingimundardóttir. Fluttist til Canada 1887. Kom mjög við sögu vestur-íslenzkra félagsmála.

17. Swain Swainson, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man. Fæddur 5. jan. 1866 á Hóli í Höfðahverfi. Foreldrar: Sveinn Sveinsson og Anna Jónasdóttir. Kom til Canada 1893.

19. Rósa Johnson, í Seattle, Wash. Fædd 16. marz 1864 að Grund í Vatnsdal í Húnavatnssýslu. Foreldrar: Jóhannes Guðmundsson og Margrét Jónsdóttir.

20. Sören Hjaltalín, á elliheimilinu „Borg" að Moutain, N. Dak. Fæddur 21. maí 1880 í Nýja-Íslandi. Foreldrar: Tryggvi Hjaltalín og Kristín Jónatansdóttir, bæði ættuð úr Eyjafirði.

21. Helga Johnson, í Regina, Sask. Fædd í Skagafjarðarsýslu 11. okt. 1868. Fluttist til Ameríku um aldamótin.

21. Mrs. Frank Wolf, í Brisbane, Calif. Fædd í Brandon, Man., 6. jan. 1895. Foreldrar: Guðmundur Guðbrandsson (Brown) og kona hans.

Ágúst — Jón Ólafsson, fyrrum kaupmaður, í Leslie, Sask., háaldraður.

Ágúst — Mrs. S. M. S. Askdal, í Minneota, Minn, Minn., 88 ára. Kom vestur um haf mjög snemma á árum.

Ágúst — Benedikt Guðmundsson, á heimili sínu við Petersfield, Man., 45 ára að aldri.

**Ágúst 1955**

2. Þorsteinn Jósefsson Thompson, á heimili sínu í Winnipeg. Fæddur að Hlíf í Norðurárdal í Mýrarsýslu 13. ágúst 1859. Foreldrar: Jósef Helgason og Sigríður Einarsdóttir. Fluttist til Canada 1876.

3. María Johnson, á sjúkrahúsi í Árborg, Man., 69 ára.

11. Gunnar Bergþór Johnson, að heimili sínu í grennd við Westbourne, Man. Fæddur að Hólum í Hjaltadal 5. jan. 1876. Foreldrar: Jón Benediktsson og Sigríður Halldórsdóttir. Kom vestur um haf 1887.

14. Jóhanna Thórðarson, í Winnipeg. Fædd í Múlakoti í Fljótshlíð 12. maí 1864. Foreldrar: Sigurður Eyjólfsson og Þórunn Jónsdóttir. Fluttist til Canada 1888.

15. Nikulás Ottenson, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 91 árs að aldri. Ættaður frá

**September 1955**

2. Anna Hansson, á heimili sínu í Winnipeg. Fædd á Íslandi 15. sept. 1907. Foreldrar: Halldór Gíslason og Guðlaug Kristjánsdóttir, er kom vestur um haf 1910.

12. Halldór J. Ólafsson múrhúðari, á heimili sínu í St. Vital, Man. Fæddur 14. sept. 1894 að Hensen, N. Dak. Foreldrar: Ólafur Ólafsson (frá Sveinsstöðum í Húnaþingi) og Þorgerður kona hans.

12. Árni Jóhannsson, í Hallson-byggð í N. Dakota, 83 ára að aldri. Ættaður frá Steinsstöðum í Skagafjarðarsýslu, og kom með foreldrum sínum, Jóhanni Jónssyni og Arnþrúði konu hans, til Vesturheims á fyrstu landnámsárum.

22. Albert Ólafsson, í Vancouver, B.C. Fæddur í Piney, Man., 12. apríl 1913.

The above statement has been audited and found correct.

**Steindór Jakobsson, Jóhann Th. Beck,**
Auditors

Fundi frestan til kl. 2 e. h.

## ANNAR FUNDUR

þjóðræknisfélags þingsins hófst kl. 2 e.h. 21. febr. Ritari las þingbók fyrsta fundar og var hún samþykkt.

Mrs. H. F. Danielson lagði fram skýrslu kjörbréfanefndar og lagði til að hún yrði samþykkt sem bráðabirgðaskýrsla vegna þess að væntanlegir væru fleiri erindrekar úr byggðunum. Samþykkt.

Forseti hvatti fulltrúa til að sitja alla fundi þings, þar eð þeir sætu ekki hér aðeins í eigin nafni, heldur færu með umboð frá mörgum.

Formaður dagskrárnefndar, Dr. Beck, las álit þeirras nefndar, er lagði til að hinni prentuðu dagskrá yrði breytt á tveim stöðum og var það samþykkt.

### Skýrsla dagskrárnefndar

Nefndin leggur til, að fylgt sé hinni prentuðu dagskrá þingsins, að því viðbættu, að skipuð sé allsherjarnefnd, er taki við þeim málum, sem ekki sérstaklega heyra undir starfssvið annarra nefnda. Verður dagskráin á þessa leið: —

1. Þingsetning
2. Ávarp forseta
3. Kosning kjörbréfanefndar
4. Kosning dagskrárnefndar
5. Skýrslur embættismanna
6. Skýrslur deilda
7. Kosning allsherjarnefndar
8. Skýrslur milliþinganefnda
9. Útbreiðslumál
10. Fjármál
11. Fræðslumál
12. Samvinnumál
13. Útgáfumál
14. Ný mál
15. Kosning embættismanna
16. Ólokin störf og þingslit.

**Richard Beck**
**Kristín Johnson**
**E. S. Brynjólfsson**

## SKÝRSLUR DEILDA

Jón Jónsson, forseti Fróns, las skýrslu deildarinnar.

### Skýrsla ritara Fróns

fyrir árið 1954

Aðalfundur deildarinnar var haldinn í Góðtemplarahúsinu mánudagskvöldið 30. nóv., kl. 8.

Forseti deildarinnar, Jón Ásgeirsson, setti fundinn og stjórnaði honum þar til stjórnarkjöri hafði verið lýst. Eftirtaldir menn voru kjörnir í stjórn deildarinnar fyrir árið 1954:

Jón Jónsson, forseti
Heimir Thorgrímsson, varaforseti
Thor Víking, ritari
Ingi Swainson, vararitari
Jochum Ásgeirsson, gjaldkeri
Dr. Tryggvi J. Oleson, varagjaldkeri
Gestur Davíðsson, fjármálaritari
Einar Sigurðsson, varafjármálaritari.
Endurskoðendur:
Grettir L. Johannson
J. Th. Beck.

Þegar Jón Ásgeirsson hafði lýst stjórnarkjöri bauð hann hinum nýkjörna forseta að taka við fundarstjórn.

Þakkaði hann fráfarandi forseta starf hans í þágu deildarinnar fyrr og síðar. Þessu næst bað forseti Guðmund A. Stefánsson sem formann byggingarnefndar „Fróns“, er kosin var á síðasta fundi deildarinnar, að gefa skýrslu um störf nefndarinnar. Varð Guðmundur við þeim tilmælum. Kvað hann nefndina aldrei hafa verið boðaða á fund og þar af leiðandi hefði ekkert verið gert í málinu, utan þess, sem hann og meðnefndarmenn hans hefðu rætt það sín á milli.

Næsti liður á dagskrá var „Ný mál“. Heimir Thorgrímsson fylgdi því máli úr hlaði. Ræddi hann aðallega um bókasafn deildarinnar og störf bókasafnsnefndar, en hann er formaður hennar; er hann hafði lokið máli sínu, lagði hann fram eftirfarandi tillögu:

„Legg til að bókaverði deildarinnar sé leyft að gefa öllum, sem komnir eru yfir sjötugt, og þess óska, aðgang að bókasafni Fróns, gegn eins dollars ársgjaldi“.

Tillaga þessi var samþykkt í einu hljóði.

Síðasti liður á dagskránni var ræða: „Trúin á landið“, Björn Sigurbjörnsson flutti. Var ræða hans hin fróðlegasta, prýðilega samin og röggsamlega flutt. — Þökkuðu fundarmenn Birni ræðuna með lófataki.

Skýrsla mín í fyrra varð lengra mál en til var ætlast; hefi ég því hugsað mér, að verða fáorðari að þessu sinni, ekki þó vegna þess, að starfsemi deildarinnar hafi verið minni á þessu ári en á undanförnum árum nema síður væri. — Haldnir hafa verið þrír almennir fundir á árinu. Voru þeir allir vel sóttir eða um 90 manns til jafnaðar á fundi. Var að sjálfsögðu reynt að vanda til þessara funda sem frekast var unnt, enda var svo að sjá, að fundarfólk færi ánægt heim að loknum þessum kvöldstundum, og þætti betur farið en heima setið.

Auk þessara funda var hið árlega Fróns mót haldið í Fyrstu lútersku kirkju í febrúarmánuði. Aðsókn að því var góð eins og oftast áður og þótti það takast vel. —

Ennfremur minntist Frón 10 ára afmælis hins íslenzka lýðveldis, 17. júní, með samkomu í Sambandskirkjunni. — Samkoma þessi var hin ánægjulegasta í alla staði og ágætlega sótt, um 200 manns. — Nefndarfundir á árinu voru sjö.

Um fjárhag deildarinnar er það að segja, að hann er með betra móti. Meðlimatalan er svipuð og hún var í fyrra, en þó hafa deildinni bætzt nokkrir nýir meðlimir árinu. — Bókasafnið hefir fengið allmargar nýjar bækur á þessu ári og aðsókn að því hefir verið góð. Frá 1. september 1953 til 1. júní 1954 höfðu 102 fengið 2956 bækur að láni, eða til jafnaðar 68 bækur á dag.

Eins og skýrsla þessi ber með sér, þá hefir starfsemi deildarinnar á liðnu ári verið sízt minni en oft áður, og er það gott eins langt og það nær. Æskilegt væri þó, að hún væri miklu meiri og fjölbreyttari; en til þess að svo geti orðið, verður hver einn og einasti meðlimur hennar að leggja nokkuð af mörkum og vera þannig virkur þátttakandi í störfum hennar og athöfnum, en það skortir vissulega mikið á að svo sé, og hafa menn jafnan afsakanir á reiðum höndum, t. d. að þeir hafi ekki tíma til þess að taka þátt í þessu eða hinu, — sem sagt: allir eru að flýta sér, þó að enginn viti til hvers. — Það er eins og einhver ómótstæðilegur kraftur dragi menn inn í hringiðu hraðans og véltækninnar. Þessu til frekari skýringar skal þess getið, að með hverju árinu sem líður reynist erfiðara að fá menn til að starfa í stjórn deildarinnar. Hefi ég rekið mig mjög átakanlega á þetta undanfarnar vikur, þar eð ég var á síðasta fundi deildarinnar skipaður í útnefningarnefnd, en hún hefir það hlutverk með höndum, svo sem nafn hennar bendir til, að tryggja það, að menn fáist til að starfa í stjórn hennar. — Vera má, að ykkur finnist þetta fullmikil svartsýni, en engu að síður er það sannleikurinn og hann er alltaf sagnabeztur, segir einhvers staðar.

Að lokum þetta: Tökum höndum saman og strengjum þess heit að vinna öll í einingu að vexti og viðgangi „Fróns". — Minnumst þess að Íslendingsnafnið er orðið sæmdarheiti í þessu mikla meginlandi, og að það verður bezt varðveitt með því að við höldum sem allra lengst við líði íslenzkum félagsskap, er hafi það ætíð efst á stefnuskrá sinni að kynna hérlendum samborgurum okkar allt það fegursta og bezta, sem fyrir finnst í sögu Íslands og Íslendinga.

Eftirtaldir meðlimir „Fróns" létust á árinu: Þorsteinn Sveinsson, Friðrik Kristjánsson, Hjörtur Brandsson, Sveinn Pálmason, Jóhanna Hólm, Böðvar Magnússon, George Cooney, Einar Thomson.

**Jón Jónsson**, forseti
**Thor Víking**, ritari

Jón Jónsson gerði þá tillögu, að skýrslan yrði viðtekin; Mrs. L. Sveinsson studdi. Miss E. Hall kvað venjulegt, að fjárhagsskýrsla væri einnig lögð fram. Sagði Jón Jónsson að hún hefði verið lesin á ársfundi deildarinnar og skýrði síðan lítillega frá fjárhag deildarinnar. Samþykkt var að viðtaka skýrsluna og var hún þökkuð með lófataki.

Mrs. Lovísa Gíslason las skýrslu deildarinnar „Ísland".

**Skýrsla**
**Þjóðræknisdeildarinnar „Ísland"**
Morden, Manitoba

Aðeins 3 fundir haldnir á árinu 1954, sem voru allvel sóttir eftir ástæðum. Meðlimatala deildarinnar svipuð og að undanförnu. Embættismenn deildar okkar eru:

Forseti Óskar Gillis
Ritari Guðrún Thomasson
Fjármálaritari Jónathan Thomasson
Féhirðir Thorsteinn J. Gíslason.

Sunnud. 17. okt. fengum við skemmtilega gesti frá Lundar, séra Braga Friðriksson og Mr. og Mrs. Leo Danielson — og seinna um kvöldið óvænta gesti frá Winnipeg: Próf. F. Guðmundsson og Mr. Thor Viking, og með með þeim tvenn hjón, nýkomin frá Íslandi, Reynir Þórðarson og frú og Kár Guðmundsson og kona hans og dóttir.

Eftir messu séra Braga, var slegið á deildarfundi. — Próf. Finnbogi hafði að þessu sinni meðferðis hreyfimyndir af Lýðveldishátíðinni á Þingvöllum, og sumar í því sambandi teknar í Reykjavík; einnig ágætar hljómplötur, sem hann lét okkur heyra. Þetta var hrífandi og eftirminnileg skemmtun. — Þetta er í þriðja skiptið, sem próf. Finnbogi heimsækir okkur og gefur okkur glaða og uppbyggilega kvöldstund og erum við honum stórlega þakklát fyrir.

Ekki má gleyma að minnast á í þessu sambandi, að séra Bragi Friðriksson sagði okkur frá sumu af því, sem gerðist á kirkjuþingi því hinu mikla — "World Council of Churches," — er haldið var í Evanston, Illinois, síðastliðið sumar, en séra Bragi var þar mættur sem fulltrúi fyrir hönd Þjóðkirkju Íslands; var þetta fróðlegt og skemmtilegt og erum við séra Braga þakklát fyrir.

Svo óskum við, að þjóðræknisþingið gangi vel og ákjósanlega, og að félag vort eigi langa og góða framtíð fyrir höndum.

Fyrir hönd deildarinnar „Ísland"

Virðingarfyllzt,

**T. J. Gíslason**

Skýrslan viðtekin samkvæmt tillögu Dr. Becks og Mrs. H. Eiríksson og hún og árnaðaróskir þakkaðar.

Ritari las skýrslu deildarinnar „Gimli“.

**Árskýrsla deildarinnar „Gimli“ árið 1954**

Deildin telur 60 meðlimi. Fjórir starfs- og skemmtifundir hafa verið haldnir á árinu og nefndarfundir eftir þörfum. — Þetta hefir verið viðburðaríkt ár fyrir deildina, og aldrei hefir verið starfað jafn mikið. Æft var leikritið „Happið“ og sýnt í Winnipeg, Lundar, Mikley og Gimli; einnig á elliheimilinu Betel. Fyrir hönd leikflokksins þakkar deildin fyrir ágætar viðtökur á öllum stöðunum.

5. ágúst stóð deildin fyrir samkomu, sem séra Eric H. Sigmar og frú hans, Svava, höfðu á vegum Þjóðræknisfélagsins.

Einnig í ágúst hélt söngkonan góðkunna frú Guðmunda Elíasdóttir söngsamkomu, er deildin stóð fyrir.

21. nóvember bauð deildin Árna G. Eylands (stjórnarráðsfulltrúa frá Reykjavík) og frú hans að koma til Gimli og sýna kvikmyndir frá Íslandi.

Kvöldlestrum hefir verið haldið uppi eins og að undanförnu. Lesin ljóð og leikrit undir umsjón Mrs. Kristínar Thorsteinsson.

Börn hafa ætíð komið fram á deildarfundum, með söng, upplestur og framsögn.

Við íslenzka messu á annan í jólum sungu börnin sálmana, lásu jólasögur og höfðu upplestra.

Skóli hefir eigi verið starfræktur í vetur.

Embættismenn deildarinnar eru sem hér segir:

Forseti, Mrs. Kristín Thorsteinsson
Vara-forseti, Mrs. H. G. Sigurðsson
Ritari, Mr. Ingólfur N. Bjarnason
V.-ritari, Mrs. Ingólfur N. Bjarnason
Gjaldkeri, Mr. W. J. Árnason
V.-gjaldkeri, Mrs. W. J. Árnason
Fjármálaritari,
Mr. Hjálmur Thorsteinsson
V.-fjármálaritari,
Mr. Sigurjón Jóhannsson
Skjalavörður, Mrs. Helgi S. Stevens.

Í sjóði frá árinu sem leið $179.23.

Kær kveðja til þingsins,

**Ingólfur N. Bjarnason**

Var skýrslan viðtekin og kveðjur þakkaðar samkvæmt tillögu Ingibjargar Jónsson og Mrs. Skagfjords.

Ritari las skýrslu frá deildinni í Blaine og ennfremur kveðjur til þingsins.

**Árskýrsla „Öldu“**
yfir árið 1954

Áril 1954 hefur Þjóðræknisdeildin Aldan í Blaine, Wash., starfað eftir því sem atvik og kringumstæður hafa gefið tilefni og möguleika til. Fjórir almennir fundir og tveir stjórnarnefndarfundir hafa verið haldnir; líka hafði hin skipulagða samvinnunefnd deildanna hér á Ströndinni, Vestri í Seattle, Aldan í Blaine, og Ströndin í Vancouver, fund til að ræða sameiginleg áhugamál, þá nefnd skipa þrír menn úr hverri deild.

Þrjár almennar skemmtisamkomur hafa verið haldnar; sú fyrsta 17. júní til minningar um frelsi og sjálfstæði Íslands; skemmtiskrá, undir stjórn forseta, var í fylsta máta góð. 13. nóvember hélt elliheimilisnefnd deildarinnar samkomu til arðs fyrir heimili hinna öldruðu; tókst hún mjög vel, inntektir voru $107.75, og voru $100.00 gefnir til Stafholts. Þriðja og síðasta samkoman var höfð 20. des. Tildrögin voru þau, að Árni G. Eylands, búnaðarmálaráðunautur íslenzku stjórnarinnar, hafði verið á ferðalagi á vegum stjórnar Bandaríkjanna til að kynna sér búnaðarmál í þessu landi; ferðaðist hann einnig um nokkrar byggðir Íslendinga hér og í Canada fyrir atbeina Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi. Létu framkvæmdamenn Öldu þá ekki ónotað tækifærið að ná til hans þegar hann var hér í námunda, og varð hann góðfúslega við þeirri beiðni að koma til Blaine fyrrnefndan dag; sýndi hann ágætar kvikmyndir og flutti fróðlegan og athyglisverðan fyrirlestur um íslenzkt efni um kveldið. Heillaði hann samkomugesti með prúðmannlegri framkomu og prýðilegu málfari. Að fyrirlestrinum loknum las kona hans, frú Margit Eylands, þrjú fögur kvæði eftir mann sinn. Var kveldstundin hvorutveggja í senn skemmtileg og uppbyggileg.

Dauðinn hefir enn höggvið tilfinnanlegt skarð í meðlimahóp deildarinnar, þrjú félagssystkini hafa verið kölluð burt á árinu, eru það: Jónas Gottfreð Jóhannsson búsettur á Point Roberts; Andrew Danielson, einn af stofnendum deildarinnar og féhirðir frá byrjun; og Sigríður Johnson, líka ein af stofnendunum.

Meðlimatala í lok ársins 1954 er 38.

**A. E. Kristjánsson**, forseti
**Dagbjört Vopnfjörð**, ritari

Þjóðræknisdeildin Aldan í Blaine, Wash., sendir hinu þrítugasta og sjötta ársþingi Íslendinga í Vesturheimi alúðarkveðjur og og hugheilar óskir um heppilega úrlausn allra mála.

**A. E. Kristjánsson**, forseti
**Dagbjört Vopnfjörð**, ritari

Lagði Thorsteinn Gíslason til , en Friðfinnur Lyngdal studdi, að skýrslan og árnaðaróskirnar væru viðteknar með þökkum.

Séra Eiríkur Brynjólfsson flutti munn-

lega skýrslu frá deildinni „Ströndin"; ennfremur skýrði hann frá fundi, er fulltrúar frá þremur deildum á Ströndinni hefðu haldið. Kvað hann Ströndina aldrei hafa starfað með eins miklu fjöri eins og síðastliðið ár. Hefði hún átt samstarf með söfnuðinum og lagt fram $1000.00 til hinnar nýju kirkjubyggingar. Þakkaði forseti honum fyrir hans frábæra þjóðræknisstarf og var skýrslan viðtekin af þingheimi með þökkum.

Ársskýrsla deildarinnar „Ströndin", sem ritara barst síðar, birtist hér ásamt skýrslu féhirðis:

**Ársskýrsla deildirinnar „Ströndin"**

Á árinu voru haldnir 3 almennir fundir, auk nokkurra stjórnarnefndarfunda. Á þeim voru rædd ýms áhugamál varðandi samvinnu á meðal Íslendinga, og einnig á meðal annara skandinaviskra þjóðflokka. Fjórar skemmtisamkomur voru haldnar, sem deildin stóð fyrir. Þann 21. apríl Sumarmálasamkoma í Swedish Hall. Voru þar til skemmtunar erindi flutt af forseta deildarinnar Stefáni Eymundssyni og séra Eiríki Brynjólfssyni. Einnig voru einsöngvar og almennur söngur. Góðar veitingar á eftir.

Þann 17. júní var haldin fjölmenn samkoma á Hotel Georgia. Sóttu hana á þriðja hundrað manns. Ræðuhöld, söngflokkur safnaðarins, ágæt hljómsveit til að spila fyrir dansinum, og góðar veitingar jafnframt.

Þann 22. sept. sýndi deildin 2 ágætar íslenzkar hreyfimyndir, sem Þjóðræknisfélagið í Winnipeg lánaði deildum út um landið til afnota.

Þann 8. okt. hélt deildin sína árlegu hlutaveltu og dans á eftir. Var hún haldin í Swedish Hall við góða aðsókn. Veitingar voru seldar. Þá er deildin „Ströndin" félagsdeild í "Central Scandinavian Committee," sem er Samband skandinavisku þjóðflokkanna hér í Vancouver. Munu vera um 14—16 deildir og klúbbar í því sambandi. Aðalfulltrúi fyrir deildina „Ströndin" er Dr. Júlíus Friðleifsson, sem starfað hefir nú í 2 ár með þeim við ágætum árangri.

Vancouver í janúar 1955

G. Stefánsson, ritari

Vancouver, B.C., 16. janúar 1955

**Fjárhagsskýrsla**

yfir inntektir og útgjöld 1954

(Samandregin úr bók féhirðis)

Yfirfarin og rétt fundin af Ó. Anderson og G. Jacobson.

INNTEKTIR 1954

| | |
|---|---|
| Sjóður frá fyrra ári 1953 | $246.00 |
| Inntektir 1954 | 738.85 |
| Peningar alls 1954 | $984.85 |

ÚTGJÖLD 1954

| | |
|---|---|
| Útgjöld 1954 | $659.24 |
| Sjóður á banka 31. des. 1954 | 325.61 |
| | $984.85 |

Með virðingu yðar,

C. H. Ísfjörð, féhirðir

Mrs. L. Sveinsson las skýrslu Lundar deildar. Th. Gíslason lagði til að hún yrði viðtekin. Um leið og dr. Beck studdi tillöguna sagði hann, að hann vissi af eigin reynd að vinabæjasambandið milli Lundar og Selfossbæjar á Íslandi mæltist mjög vel fyrir. Hefði hann heimsótt Selfoss og talað þar við ýmsa forráðamenn bæjarins. Frumkvæðið að þessu vinabæjasambandi átti séra Bragi Friðriksson. Skýrslan var viðtekin með þökkum.

**Ársskýrsla deildarinnar „Lundar"**

fyrir árið 1954

Fjórir fundir hafa verið haldnir á árinu og einn auka-fundur. Ein samkoma og tvær myndasýningar voru haldnar til arðs fyrir deildina. Í því sambandi langar mig til að votta þakkir deildarinnar þeim prófessor Finnboga Guðmundssyni, hr. Ragnari Stefánssyni og séra Phillip M. Péturssyni fyrir ágæta aðstoð við áðurnefnda samkomu.

Við höfum haft þá ánægju að taka á móti mörgum góðum gestum frá Íslandi á árinu.

Fyrst má nefna Þórir Þórðarson, dócent við Háskóla Íslands, og frú Inger konu hans; dvöldu þau á Lundar í gistivináttu séra Braga Friðrikssonar og frú Katrínar. Sátu þau fund með okkur í júlí. ..

Séra Eric H. Sigmar og frú Svava ferðuðust um íslenzku byggðirnar í sumar á vegum Þjóðræknisfélagsins. Sá deildin um allan undirbúning fyrir samkomu, er þau héldu á Lundar; var skemmtiskrá þeirra hjóna vel valin og einkar vel rómuð af öllum viðstöddum.

Hr. Árni G. Eylands og frú heimsóttu Lundar í haust. Flutti hann fyrirlestur og sýndi íslenzkar myndir. Bauð deildin samkomugestum til kaffidrykkju á eftir, svo fólki gæfist tækifæri til að kynnast gestunum.

Í haust hélt deildin kveðjusamsæti fyrir Þorstein Þorsteinsson, frá Húsafelli í Borgarfirði, sem dvaldi hér um tíma hjá systur sinni, Mrs. Kristínu Pálsson, og frænda sínum Þorsteini Hjálmarssyni frá Reykjavík.

Jón Kristgeirsson, kennari frá Reykjavík, var hér nokkrar vikur í vetur hjá bróður sínum, Sveini Johnson. Var hann einnig kvaddur af deildinni með samsæti.

Vinabæjasamband var sett á fót milli Selfoss-bæjar á Íslandi og Lundar. Mun

þjóðræknisdeildin styðja það mál í framtíðinni.

Stjórnarnefnd skipa fyrir árið 1955:

Ólafur Hallsson, forseti
Kári Byron, varaforseti
Ljótun Sveinsson, skrifari
Margrét Björnsson, varaskrifari
Daníel Líndal, féhirðir
Ásgeir Jörundsson, varaféhirðir.

Með beztu kveðjum til þingsins.

**Ó. Hallsson**, forseti
**L. Sveinsson**, skrifari

Nú var kaffihlé í neðri sal hússins í 25 mínútur. Þar flutti Dr. Beck frumkveðnar gamanvísur. Mrs. Lovísa Gíslason lék íslenzka þjóðsöngva á píanó, en séra Eiríkur Brynjólfsson stjórnaði söngnum, er allir tóku þátt í og skemmtu menn sér hið bezta.

Þegar tekið var til þingstarfa á ný, skipaði forseti þessa menn í allsherjarnefnd: Sr. Eirík Brynjólfsson, Dr. Richard Beck og Th. Gíslason.

Næst lágu fyrir skýrslur milliþinganefnda.

Formaður lagabreytingarnefndar, W. J. Lindal dómari, las og útskýrði álit þeirrar nefndar og lagði til að hún væri samþykkt. Meðnefndarmaður hans G. L. Johannson studdi tillöguna. Þá las þriðji nefndarmaðurinn, próf. Finnbogi Guðmundsson, minnihluta-nefndarálit. Hófust nú allmiklar umræður um málið, er margir tóku þátt í. Jón Jónsson lagði til en W. J. Lindal studdi, að málinu yrði vísað aftur til nefndarinnar til frekari athugunar og framsetningar, samþykkt.

**Kennslubókarmálið**

Formaður þeirrar nefndar, Dr. Beck, skýrði frá því að hvorki hann né meðnefndarmaður hans, próf. Finnbogi Guðmundsson, hefðu haft tíma til að sinna málinu; hefðu þeir báðir verið fjarverandi í marga mánuði í Íslandsferð. Mæltist hann til að þeir væru leystir formlega úr nefndinni, en hét því jafnframt, að þeir skyldu báðir halda áfram að hugsa málið og vinna að því ótilkvaddir. Séra Eiríkur Brynjólfsson skýrði frá, að hann vissi af eigin reynslu hvílík þörf væri fyrir kennslubók í íslenzku við hæfi vesturíslenzkra ungmenna og hvatti prófessorana mjög til að halda áfram starfi, en lagði samt til að þeir væru leystir úr nefndinni; var tillagan samþykkt.

Samkvæmt tillögu Dr. Becks og séra Eiríks var forseta falið að skipa þingnefndir í þau mál er fyrir lágu. Var síðan fundi frestan til kl. 10 f. h. á þriðjudagsmorgun.

**ÞRIÐJI FUNDUR**

þingsins hófst kl. 10 f. h. á þriðjudag. Fundargerningur fyrri fundar lesinn og samþykktur. Nú voru komnir á þing allmargir fulltrúar, sem höfðu orðið veðurteptir fyrsta dag þingsins.

Sigurður Einarsson frá Árborg las skýrslu deildarinnar Esjan.

**Ársskýrsla deildarinnar „Esju“,**
Árborg

Bókasafn deildarinnar var flutt úr bústað Tímóteusar Böðvarssonar í skrifstofubyggingu Bifrastarsveitar, sem sveitastjórnin hefir góðfúslega látið okkur ókeypis í té. Auk þeirra bóka, sem deildin átti fyrir og keypti á árinu, hefir bókakostur á árinu aukizt við að Lestrarfélag Víðis-byggðar hefir afhent okkur bókasafn sitt, um 600 bækur að tölu. Mun safnið nú telja nokkuð yfir 1700 bindi. Þess ber að geta, að synir þeirra hjóna Ásmundar heitins Jóhannssonar og Sigríðar konu hans hafa gefið deildinni hið vandaða rit „Foreldraminning“. Deildin vottar þeim beztu þakkir fyrir þessa gjöf.

Í haust tók deildin að sér að ráðstafa samkomu, þegar Árni G. Eylands búnaðar málafulltrúi Íslands kom til Árborgar á vegum Þjóðræknisfélagsins. Allir voru sammála um, að erindi hans og kvikmyndir frá Íslandi, sem hann sýndi, hefði verið hið ánægjulegasta að heyra og sjá. Á þessari samkomu skemmtu einnig nokkur börn úr byggðinni með íslenzkum söng og framsögn ljóða.

Einnig á árinu var haldin ein dansskemmtun til fjáröflunar.

Fjárhagur deildarinnar hefir verið allsæmilegur á árinu.

Meðlimatala hefir nokkuð aukizt frá fyrra ári.

**Robert Jack**, ritari

Séra Eiríkur lagði til að þessi ágæta skýrsla væri viðtekin; Guðm. Jónasson studdi, samþykkt.

Guðm. Jónasson frá Mountain flutti munnlega skýrslu frá deildinni „Báran“, því hin skriflega skýrsla hafði einhvern veginn týnst í hríðarbylnum nýafstaðna. Bar ræðumaður sig fremur illa yfir framtíð þessarar deildar. Dr. Beck benti honum á ýmislegt, er deildin hefði afrekað á árinu, og hét Mr. Jónasson því að senda ritara skriflega skýrslu um starf deildarinnar seinna.

Ritari las ágæta skýrslu frá deildinni „Brúin“ í Selkirk og lagði til að hún væri viðtekin af þinginu og árnaðaróskirnar þakkaðar. Mrs. L. Sveinsson studdi tillöguna og var hún samþykkt.

**Skýrsla deildarinnar „Brúin“,**
Selkirk, Man.

Deildin hefir haldið tíu fundi á árinu auk ársfundar. Allir fundir nokkuð vel sóttir. — Einnig fjórar arðberandi samkomur.

Deildin vill þakka Þjóðræknisfélaginu fyrir að koma því til leiðar, að séra Eric Sigmar og kona hans höfðu hér samkomu 30. júlí, þar sem þau sýndu myndir af ferðum sínum um Ísland og útskýrðu þær. Töluðu þau hjón bæði og skemmtu fólki með söng. Var það ágæt skemmtistund.

Ekki hefir deildin fundið sig færa að hafa íslenzkukennslu, og hefir því ekkert verið gjört í því efni.

Deildin hefir haft á bak að sjá einum góðum og gömlum meðlim á þessu ári, Rakel Maxson; hún hafði verið meðlimur deildarinnar í mörg ár.. Fjórir nýir meðlimir hafa gengið í félagið þetta ár, og teljast meðlimir nú 42.

Með beztu óskum til þingsins.

**Allie Goodbrandson,** skrifari
**E. Magnússon,** forseti

Mrs. Hólmfríður Danielson lagði fram endanlega skýrslu kjörbréfanefndar.

**Skýrsla kjörbréfanefndar**

| | |
|---|---|
| **Frón,** 10 fulltrúar með 18. atkv. hver | 180 |
| **Ströndin,** 2 fulltrúar með 20 atkv. | 40 |
| **Esjan,** 3 fulltrúar með 13 atkv. hver og einn fulltrúi með 12 atkv. | 39 |
| **Brúin,** 3 fulltrúar með 13 atkv. hver | 39 |
| **Lundar,** 2 fulltrúar með 18 og 17 atkv. | 35 |
| **Báran,** 3 fulltrúar með 20 atkv. hver | 60 |
| **Gimli,** 2 fulltrúar með 20 atkv. hver | 40 |

Alls sjö deildir, 27 fulltrúar með 445 atkv. Auk þess eru einstakir meðlimir með eitt atkvæði hver.

Mrs. L. Sveinsson lagði til og Dr. Beck studdi, að skýrslan yrði samþykkt, og var það gert.

**Skógræktarmálið**

Dr. Beck las skýrslu milliþinganefndar í þessu máli; flutti hann jafnframt alllanga greinargerð um málið; ennfremur fylgdi Mrs. S. E. Björnsson nefndarálitinu úr garði með ágætri ræðu og benti á, að jafnframt fræinu myndi Íslandi koma vel að fá girðingavír.

**Nefndarálit milliþinganefndar í skógræktarmálinu**

Eins og marga mun reka minni til, flutti frú Marja Björnsson ítarlegt erindi um skógrækt á þjóðræknisþinginu 1951, og hvatti eindregið til þess, í nafni þeirra hjónanna beggja, að Þjóðræknisfélagið styddi það mál, sérstaklega með því að fá land undir skógrækt á hentugum stað á Íslandi og afgirða það og sjá um það að öllu leyti.

Var máli frú Marju vel tekið og vísað til þingnefndarinnar í samvinnumálum við Ísland til frekari athugunar og fyrirgreiðslu. Fékk málið ágætar undirtektir í nefndinni, er lagði fram eftirfarandi tillögur um það, og voru þær samþykktar einum rómi:

(A) Þingið hvetur félagsfólk og aðra Vestur-Íslendinga til þess að gerast félagar í Skógræktarfélagi Íslands og styðja með þeim hætti þá fögru hugsjón „að klæða landið“.

(B) Nefndin leggur til, að af fé því, sem Þjóðræknisfélagið á á Íslandi, sé væntanlegri stjórnarnefnd falið að gefa í nafni þess 5000 krónur í sjóð Skógræktarfélags Íslands, og mælist jafnframt til þess við stjórn Skógræktarfélagsins, að því fé verði varið til byrjunar á ræktun skógarbletts á Þingvöllum í nafni Vestur-Íslendinga.

Í framanskráðum tilgangi var ofannefnd fjárupphæð afhent hlutaðeigendum á Íslandi, og tilkynntu þeir síðar, að henni hefði verið varið til þess að planta trjáreit á Þingvöllum, er nefnist „Minningarlundur Vestur-Íslendinga“.

Á síðasta þjóðræknisþingi vorum við undirrituð skipuð í milliþinganefnd til þess að komast eftir því, hvernig sakir stæðu með þetta skógræktarmál okkar á Íslandi, og grennslast sér í lagi eftir því, hvers hlutaðeigendur þar óskuðu eftir af félagsins hálfu um viðhald og frekari ræktun trjáreitsins á Þingvöllum. Var okkur ennfremur falið að athuga hvað hægt væri að gera máli þessu til styrktar af hálfu Vestur-Íslendinga almennt.

Þegar þeir Richard Beck og Finnbogi Guðmundsson fóru til Íslands síðastliðið sumar, áttu þeir báðir ítarlegt viðtal við Hákon Bjarnason skógræktarstjóra um málið. Sagði hann, að hlutaðeigendur heima á Íslandi vildu fúslega standa straum af trjáreitnum á Þingvöllum, og kysu miklu fremur, að fjárframlögum frá Þjóðræknisfélaginu eða öðrum aðilum vestan hafs væri varið til þess að útvega trjáfræ þar í landi, sérstaklega kæmi það sér vel, ef unnt væri að fá vissar frætegundir úr Klettafjöllum, norðan til í British Columbia (Strandafjöllunum).

Þar sem málið horfir nú þannig við, gerir milliþinganefndin eftirfarandi tillögur:

1) Að þjóðræknisfélagið leggi, eftir ástæðum, fram nokkra fjárupphæð til frækaupa.

2) Að milliþinganefnd haldi áfram að starfa að málinu, bæði með því að hvetja menn til að styðja málið með frjálsum framlögum, og með því að gerast félagar í Skógræktarfélagi Íslands, en hið almenna félagsgjald er $2.00.

3) Sé það jafnframt tekið skýrt fram, að fjárframlögum þessum sé varið til frækaupa samkvæmt ósk hlutaðeigenda á Íslandi, og sé þeim frjálst að nota það trjáfræ, er aflast kann með þessum hætti, á hvern þann veg, er þeir kjósa.

**Richard Beck**
**Marja Björnson**
**Finnbogi Guðmundsson**

Séra Eiríkur vék að því, að í British Columbia-fylkinu myndi finnast trjáfræ, sem myndi vaxa vel á Íslandi, því að í báðum stöðunum væri sams konar loftslag. Bauð hann aðstoð deildarinnar „Ströndin" við að útvega slíkt fræ; það vildi líka svo vel til að við trjáræktarstöðvar fylkisins störfuðu ágætir landar, er þessu myndu hlynntir.

Samkvæmt tillögu Becks og Dr. S. E. Björnssons var nefndarálitið tekið til umræðu lið fyrir lið.

1. lið var vísað til fjármálanefndar, samkvæmt tillögu Mrs. B. E. Johnson og Dr. Becks.

2. liður samþykktur samkvæmt tillögu séra Eiríks og Mrs. H. Eiríksson.

3. liður var og samþykktur eftir nokkrar umræður og svo nefndarálitið í heild.

**Ávarp frú Marju Björnsson**

Fyrir fjórum árum síðan var ég stödd hér á Þjóðræknisþingi og talaði þá nokkur orð um skógræktarmálið á Íslandi. Fór ég þá fram á það, að Þjóðræknisfélagið tæki málið að sér og gerði ráðstafanir fyrir því að fá blett til ræktunar á Íslandi, og leggja fram fé til fyrirtækisins eftir því sem hægt væri. Var þessu máli þá vel tekið og voru lagðar fram 5000 kr. til að byrja með. Land var þá fengið fyrir ræktunina á Þingvöllum og hefir Skógræktarfélag Íslands síðan séð um það að öllu leyti, án frekari tillaga héðan að vestan. Nú finnst mér þetta ekki vera í framkvæmdinni eins og upphaflega var til ætlast, því hugmynd mín var, — og einnig hugmynd þingsins þá, — að þessi skógur yrði okkar eign, en eins konar tillag héðan til fyrirtækis þjóðarinnar að klæða landið skógi. En því miður hefir þessu nú verið snúið við og Skógræktarfélagið hefir tekið málið í sínar hendur vegna þess, að engin frekari tillög hafa verið send héðan að vestan. Málinu hefir þó verið hreyft síðan á þingum Þjóðræknisfélagsins og á hverju ári hefir milliþinganefnd verið útnefnd til að hafa þetta mál með höndum og mun sú nefnd gefa sína skýrslu einnig á þessu þingi, og hefi ég sem einn aðili í nefndinni litlu við það að bæta. Vil ég þó benda á leiðir, sem mér finnst að gætu orðið að gagni í þessu máli.

Eins og kunnugt er, þá er Skógræktarfélag Íslands, landið og fólkið þar að leggja á sig mikið verk og ærinn kostnað við skógræktun á hverju ári. Kostnaður við öflun á fræi hefir orðið mikill, því menn hafa verið sendir víðsvegar í því augnamiði að ná í réttar tegundir af fræi og á réttum tímum ársins. Ég vil því benda þinginu á, að æskilegt væri, að gera ráðstafanir fyrir því að útvega fræ, réttar tegundir af fræi, og senda heim til gróður setningar í þeim reit sem okkur var úthlutaður, eða hvar annars staðar sem er.

Annað atriði er skortur á girðingavír, því eins og skiljanlegt er, þurfa reitirnir að vera afgirtir, svo að skepnur slíti ekki upp allan gróðurinn.

Þetta tvennt útheimtir auðvitað útgjöld, og til þess að mæta þeim verður að finna einhver ráð.

Ég er á þeirri skoðun að ennþá sé nógu mikið af góðhug til Íslands hér vestra til þess að ljá þessu máli stuðning, ef almennra samskota væri leitað. En nú er þetta mál algjörlega í höndum Þjóðræknisfélagsins og þess vegna ber því að leitast við að ráða fram úr öllum vanda þar að lútandi. Ég bendi einnig á þessa leið til íhugunar. Ég treysti því að hin nýja fjármálanefnd sjái sér fært að gefa þessu máli þann stuðning, sem að gagni má verða til styrktar þessu máli.

Vor fold var lengi rænd og niður nídd,
og nakin beið og eyddist gróðurmoldin.
En aftur verður mörkin skógi skrýdd
og skuldin forna goldin.

Og þar sem fyrr um auðnir okkar lands
til efstu heiða foksandurinn næddi,
skal laufgað dafna líf og starf hvers
manns,
er land sitt aftur klæddi. **X. X.**

Séra Eiríkur vakti máls á því, að mikið af ljósmyndum af eldri Íslendingum glötuðust. Mæltist hann til þess að Þjóðræknisfélagið beitti sér fyrir að safna slíkum myndum og koma þeim á öruggan stað, svo sem í íslenzka safnið við Manitoba-háskólann. Skyldi það hvetja fólk til að skrifa nöfn, ætterni og aðrar upplýsingar á myndaspjöldin, væri hér um mikinn sögulegan fróðleik að ræða. Ennfremur vék hann að því að útfararræðum presta ætti einnig að safna og geyma á öruggum stað, því í þeim feldist einnig mikill sögulegur fróðleikur um látna Íslendinga, er hvergi annars staðar væri að finna. Sagði hann að söfnun slíkra heimilda væri þegar hafin á Íslandi og þessi sögulegu gögn væru geymd á þjóðskjalasafninu. Var gerður góður rómur að máli séra Eiríks, enda er það mikilvægt og aðkallandi.

Forseti vék að því að margar merkar íslenzkar bækur færu forgörðum þegar eigendur þeirra féllu frá og væri einnig mikilsvert að reyna að safna þeim og varðveita.

Ólafur Hallsson tók til máls og benti þingmönnum á, að nú væri hægt að senda gjafir til vina og ættingja á Íslandi tollfrítt, ef þeir væru ekki meir en $10 virði, ef reglum því viðvíkjandi væri fylgt. En Ólafur Hallsson átti frumkvæðið að því máli og vann að því að það var svo vel til lykta leitt.

**ÞINGNEFNDIR**

Forseti hafði skipað þessar þingnefndir til að fjalla um þessi mál:

**Útbreiðslumál**
Séra Eiríkur Brynjólfsson
Einar Einarsson
Mrs. Ásta Eiríksson.

**Fjármál**
G. L. Johannson
F. O. Lyngdal
Dan Líndal.

**Fræðslumál**
Finnbogi Guðmundsson
Mrs. S. E. Björnsson
Mrs. H. Eiríksson.

**Samvinnumál**
Dr. Richard Beck
G. L. Johannson
Finnbogi Guðmundsson.

**Útgáfumál**
Philip M. Pétursson
Guðmann Levy
Mrs. L. Sveinsson.

**Álit fræðslumálanefndar**

Nefndin gerir sér grein fyrir, að of lítið hefur verið starfað að fræðslumálum á s.l. ári. Leggur hún því til, að deildirnar hefjist handa, eigi síðar en næsta haust, um skipulega íslenzkukennslu. Til eru nú nokkrar birgðir af kennslubókum í lestri og lesbókum, er fræðslumálaskrifstofan í Reykjavík hefur góðfúslega sent hingað vestur. Mun eflaust verða framhald á slíkum sendingum, ef þess verður óskað. Liggja sýnishorn þessara bóka hér frammi þingfulltrúum til athugunar. Er tvennt til og hvorttveggja nauðsynlegt: að efna til skólahalds, þar sem skilyrði eru til þess, svo sem í bæjunum, en jafnframt að senda lesbækurnar inn á sem allra flest heimili, því að án stuðnings og áhuga heimilanna er öll íslenzkukennsla vonlítil.

**Herdís Eiríksson**
**Marja Björnsson**
**Finnbogi Guðmundsson**

Formaður þessarar nefndar Finnbogi Guðmundsson fylgdi áliti nefndarinnar úr hlaði með ýtarlegri greinargerð; benti hann jafnframt þingmönnum á að til staðar væri sýnishorn af íslenzkum lestrarkennslubókum og lesbókum og útskýrði þær að nokkru. Myndi þær fást ókeypis.

Séra Eiríkur lagði til, en F. Lyngdal studdi, að skýrslan yrði viðtekin.

Mrs. L. Sveinsson kvaðst vera því fylgjandi að íslenzkukennsla væri hafin í sinni byggð, en hún væri í vafa um árangurinn.

Guðm. Magnússon frá Gimli lét í ljósi ánægju yfir þessum kennslubókum, sem nú væru fáanlegar og í sama streng tók séra Eiríkur. Sagði hinn fyrrnefndi, að það kæmi fyrst og fremst til kasta foreldranna að kenna börnunum og hvetja þau til að læra íslenzku. Mrs. Herdís Eiríksson efaðist um að hægt væri að byrja íslenzku kennslu í hennar bæ; sams konar bækur hefðu fengist áður hjá félaginu og hefði það sent þær til heimila út um landið og hefði það borið góðan árangur. Skýrslan var síðan samþykkt.

Samkvæmt tillögu Dr. Becks og Mrs. S. E. Björnsson var forseta og skrifara falið að senda bréflegar kveðjur og þakklæti til forseta, forsætisráðherra og biskups Íslands fyrir þær kveðjur, er þeir sendu félaginu og Vestur-Íslendingum með Dr. Beck.

Fundi frestað til kl. 2 e. h.

**FJÓRÐI FUNDUR**

hófst kl. 2 e. h. Fundargerningur fyrri fundar lesinn og samþykktur.

**Byggingarmálið**

Milliþinganefnd sú, er kosin var á síðasta þjóðræknisþingi til þess að athuga möguleika á byggingu samkomuhúss fyrir Íslendinga í Winnipeg, hélt sex fundi með sér á árinu og rannsakaði málið allýtarlega. Vill hún nú skýra þinginu frá starfi sínu og gera nokkrar athugasemdir um framtíð þessa máls.

Nefndin ræddi talsvert um, hvar mundi hentugast að byggja samkomuhús í borginni, og fannst víst flestum nefndarmönnum að lóð í vestur- eða miðbænum mundi ákjósanlegust. Forseti fékk þær upplýsingar hjá Victor bæjarráðsmanni Anderson, að borgin ætti engar hæfilegar lóðir á þessum slóðum. Var þeim Jóni Ásgeirssyni og Lúðvík Kristjánssyni þá falið að rannsaka hvort lóðir væru fáanlegar í vesturbænum. Athuguðu þeir þetta grandgæfilega og gátu skýrt nefndinni frá því, að ein hæfileg lóð mundi fáanleg innan tveggja til þriggja ára. Er hún á suðausturhorni Toronto og Sargent gatna, 100 fet á lengd og álíka breið. Eini vankostur við þessa lóð er það, að hún er ekki nægilega stór til þess, að hafa mætti á henni bæði samkomuhús og bílastæði (parking lot), en ef til vill mætti kaupa lóð undir stöðina í nágrenninu. Ef svo væri, mundi nefndin óhikað mæla með þessari lóð, en

að öðrum kosti telja nauðsynlegt að reisa húsið í einhverjum útjaðri borgarinnar.

Þá leitaði nefndin sér upplýsinga um, hversu kostnaðarsamt yrði að reisa ákjósanlegt hús, og varð hún að sjálfsögðu í því sambandi að athuga, hvað mundi teljast ákjósanleg bygging. Gaf séra Bragi Friðriksson ýmsar upplýsingar um sams konar byggingar á Íslandi. Einnig aflaði nefndin sér upplýsinga um höll þá hina miklu, er Norðmenn reistu fyrir skömmu í Seattle og nefnist **Norway Centre**. Er þetta mjög vönduð bygging og margfalt stærri en sú, er Íslendingar þyrftu hér. **Norway Centre** er þrílyft hús, er skiptist í tvær aðal álmur, sem eru að stærð 60'x120' og 76'x120'. Kostaði þetta stórhýsi þó aðeins $375,000, (innanhúsmunir $40,000 og eldhúsáhöld og veitingasalsmunir $75,000). Annars leggur nefndin hér með lýsingu og uppdrætti af þessu völundarhúsi.

Þá bað nefndin Skapta verkfræðing Borgford, er góðfúslega hafði boðist til þess, að aðstoða nefndina, a gefa henni áætlun um kostnað á byggingu, er innihéldi eftirfarandi herbergi:

Samkomusal er rúmaði 600 manns.
Eldhús og smáan veitingasal
Tíu svefnherbergi
Gripasafn og lestrarsal
Tvo smáa fundarsali
Anddyri
Íbúð eftirlitsmanns
Salerni.

Hr. Borgford reiknaðist til að slíka byggingu, 9,900 ferhyrningsfet að flatarmáli, mætti auðveldlega reisa fyrir $250,000 og væri í þeirri upphæð innifalið verð á bílastæði, er rúmaði 80 bíla.

Taka má það fram, að séra Bragi Friðriksson kom með þá tillögu, að höfð væru nokkur svefnherbergi í byggingunni eins og tíðkast í sams konar byggingum á Íslandi, þar sem utanbæjargestir gætu fengið næturgisting. Taldi hann að vel gæti komið til mála, að ýmis byggðarlög legðu fram andvirði eins herbergis hvert. Flestum nefndarmönnum mun hafa fundist ýmisir örðugleikar í sambandi við þessa hugmynd, en þó telur nefndin rétt að geta hennar, því margt hefur hún til síns ágætis, sérstaklega þegar athugað er, að samkomuhúsið ætti að skoðast sem megin miðstöð Íslendinga vestan hafs í félagslegu tilliti, en ekki séreign Winnipeg-Íslendinga.

Nefndin naut einnig góðvildar þeirra húsameistara, Wolfgang Gerson og A. J. Donahue. Gerðu þeir uppdrátt að samkomuhúsi, sem væri einlyft, og leggur nefndin hann fram ásamt þessari skýrslu, þótt hún kæmist að þeirri niðurstöðu, að öllu athuguðu, að tvílyft hús væri bæði kostnaðarminna og hentugra. Vildi nefndin mælast til þess, að Þjóðræknisfélagið greiddi þeim Gerson og Donahue sómasamlega þóknun fyrir þennan uppdrátt.

Nefndin telur, að auðvelt væri að reisa ákjósanlegt samkomuhús fyrir ekki meira fé en $200,000. Álítur hún lóðina á Toronto og Sargent hentugan stað fyrir slíkt hús og að hægt væri að fá lóð undir bílastæði í nágrenninu.

Að lokum vill nefndin gera nokkrar athugasemdir í sambandi við byggingarmálið. Henni finnst, að ef nokkuð á að verða úr byggingu Íslendingahúss hér í borg verði Þjóðræknisfélagið að taka nýja afstöðu til þessa máls. Fram að þessu hefur það verið vani á þingum, að skipa milliþinganefnd í þetta mál. Hafa svo þessar nefndir annað hvort lítið starfað, eða notið, þegar þær hafa starfað, hvorki samúðar né hjálpar frá stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, að ekki sé meira sagt. Nefndin telur það gagnslaust að skipa fleiri milliþinganefndir í þessu máli undir sömu skilyrðum og að undanförnu. Nefnd, sem á að geta aflað sér upplýsinga, fengið uppdrætti gerða og sinnt öðrum nauðsynlegum störfum eins og vera ber, þarf að hafa nokkur peningaráð. Til þess, að þetta mál fái verulegan byr undir vængi verður að afla því nokkurs fjár nú þegar. Finnst nefndinni að hér hvíli mest skylda á Þjóðræknisfélaginu, að ganga ötullega fram í þessu. Þjóðræknisfélagið á nú Jóns Bjarnasonar bygginguna, og þess ber að minnast, að félagið fékk þá byggingu með þeim skilningi, að hún skyldi notuð í þarfir íslenzka mannfélagsins hér í borg. Væri það allgóð byrjun að byggingarsjóði, ef félagið seldi húsið og léti fé það, sem fengist fyrir það, renna í slíkan sjóð. Hyggur nefndin, að þá kæmist greiður gangur á þetta mál, því ekki er að efa, að Íslendingar geta reist sér samkomuhús ef hugur fylgir máli. En til þess að svo verði, verður einhver að sýna viljann í verkinu.

Um rekstur hússins — en nefndin efar ekki, að það fái borið sig fjárhagslega — vill hún aðeins geta þess, að hún telur ófært að reka það, án þess að samið verði um rekstur þess við ákveðna aðila, enda liggur þetta í augum uppi.

Þá vill nefndin taka það fram, að nauðsynlegt sé að framkvæmdarnefnd í þessu máli verði kjörin úr hópi sérfræðinga í hinum ýmsu greinum, er það varða.

Winnipeg, 21. febrúar 1955

**Björg V. Ísfeld**, forseti
**T. J. Oleson**, skrifari
**Bragi Friðriksson**
**Lúðvík Kristjánsson**
**Erlingur Eggertson**

Einn nefndarmanna, **Jón Ásgeirsson,** hefur verið fjarstaddur á Íslandi og gat því eigi skrifað undir skýrsluna.

Formaður nefndarinnad, Mrs. Björg V. Ísfeld las skýrsluna.

Lagt var til og samþykkt, að skýrslan yrði viðtekin til umræðna.

Sr. Bragi Friðriksson reifaði nokkuð nefndarálitið og benti þingheimi á þau atriði þess, er nefndin vildi leggja sérstaka áherzlu á. Taldi hann, að á þessu stigi væri ekki um annað að ræða en að hefjast handa um framkvæmdir eða láta málið falla niður að fullu.

Forseti og Hólmfríður Daníelsson fóru viðurkenningarorðum um starf nefndarinnar og tóku í sama streng og sr. Bragi. Sr. Eiríkur Brynjólfsson kvaðst efast um, hvort fulltrúum mundi unnt að taka ákvörðun um slíkt mál án þess að ráðgast við deildirnar heima fyrir. Ólafur Hallsson tók til máls og benti á, að ekki væri að vita, nema íslenzka ríkisstjórnin mundi fús til að styrkja þetta byggingarmál. Sr. Bragi lagði sem fyrr áherzlu á, að farið væri fram á úrskurð þingsins í þessu máli. Frú Björg Ísfeld eggjaði þingheim lögeggjan og hvatti hann og forráðamenn félagsins að reka af sér slyðruorðið í þessu máli. Að loknum nokkrum frekari umræðum, þar sem þeir tóku til máls Guðmann Levy og Walter Líndal, er bentu á nauðsyn þess, að tryggja fyrst fjárhagsgrundvöll málsins, og rakti Líndal að nokkru reynslu kennarastólsnefndarinnar.

Samþykkt var loks tillaga um að forseti skipaði 5 manna þingnefnd til að leggja þetta mál fyrir síðar á þinginu.

Í nefndina voru skipaðir:
Ólafur Hallsson
Hólmfríður Daníelsson
Guðmann Levy
Björg Ísfeld
Gísli Jónsson.

Fundi frestað til kl. 4.

Lagt var fram álit meirirluta- og minnihluta nefndarinnar um lagabreytingar.

**Tillögur lagabreytingarnefndar**

20. og 21. lagagrein Þjóðræknisfélagsins:

20. GREIN: Réttindi félaga:

Skuldlausir félagar, 18 ára eða eldri, hafa heimild til að greiða atkvæði á þingum, hafi þeir ekki afsalað sér þeim réttindum samkvæmt 21. grein.

21. GREIN: Réttur deilda:

Nú æskir deild félagsins, að einstakir félagar, er eigi geta sótt þing, fái neytt atkvæðisréttar síns. Skal þá félagsmönnum heimilt að veita einhverjum deildarfélaga skriflegt umboð til þess að fara með atkvæði sín, enda hafi forseti og skrifari deildarinnar staðfest umboðið með undirskriftum sínum. Þó skal engum fulltrúa leyfilegt að fara með fleiri en 20 atkvæði samdeildarmanna.

**Meirihluta-álit**

Milliþinganefnd um lagabreytingar leggur til að 20. og 21. verði eins og hér segir:

20. GREIN: Réttindi félaga:

a) Skuldlausir félagar, 18 ára eða eldri hafa heimild til að greiða atkvæði á þingum.

b) Nú æskir deild félagsins, að einstakir félagar, er eigi geta sótt þing, fái neytt atkvæðisréttar síns. Skal þá félagsmönnum heimilt að veita einhverjum deildarfélaga skriflegt umboð til þess að fara með atkvæði sín, enda hafi forseti og skrifari deildarinnar staðfest umboðið með undirskriftum sínum. Þó skal engum fulltrúa leyfilegt að fara með feiri en 20 atkvæði samdeildarmanna.

21. GREIN: Réttindi deilda:

Deildir Þjóðræknisfélagsins hafa atkvæðisrétt á þingum félagsins á þessa leið:

a) Eitt atkvæði fyrir hverja tíu eða brot af tíu meðlimum deildarinnar, sem fullnægja 20. grein, „a" lið.

b) Stjórnarnefndir deilda skulu veita einhverjum deildarfélaga skriflegt umboð til þess að fara með atkvæðisrétt deildarinnar. Geti sá umboðsmaður ekki sótt þing, hefur stjórnarnefnd deildarinnar heimild til að gefa einhverjum meðlimi Þjóðræknisfélagsins eða deilda þess skriflegt umboð til þess að sækja þing og neyta atkvæðisréttar deildarinnar.

**W. J. Lindal**
**G. L. Johannson.**

**Minnihluta-álit**

Minnihluti milliþinganefndar um lagabreytingar leggur til, að 20. og 21. grein laga Þjóðræknisfélagsins verði breytt í það horf, er nú skal greint:

20. GREIN: Réttindi félaga.

Skuldlausir félagar, 18 ára eða eldri, hafa heimild til að greiða atkvæði á þingum. (Sjá ennfremur 21. grein).

,21. GREIN: Réttindi deilda.

Hver deild félagsins skal á þingi hafa jafnmörg atkvæði og nemur tölu skuldlausra meðlima hennar.

Með atkvæði hverrar deildar skulu fara þar til kjörnir fulltrúar, skuldlausir meðlimir deildarinnar, er kosnir hafa verið á löglegum fundi ekki síðar en ½ mánuði fyrir þing. Skulu umboð fulltrúa staðfest með undirskriftum forseta og skrifara deildarinnar.

Enginn fulltrúi skal fara með fleiri en 20 atkvæði.

Nú æskir einhver skuldlaus meðlimur sjálfur að sækja þing og neyta þar atkvæðisréttar síns, og skal þá forseti í hvert

sinn áður en gengið er til kosninga kanna, um hve marga einstaklinga svo muni vera ástatt, og tala þeirra vera dregin frá því atkvæðismagni, er fulltrúar hlutaðeigandi deilda fara með.

**Finnbogi Guðmundsson**

Er álitið hafði verið borið upp og samþykkt að taka það til umræðna, kvaddi Árni Eggertson lögfræðingur sér hljóðs og rifjaði upp ýmis atriði í lögum félagsins. Taldi hann, með tilvitnun til laganna, að ótímabært væri að bera þetta mál upp til úrskurðar, heppilegra mundi að leita fyrst álits aðstoðarutanríkisráðherra í Ottawa, þar sem ágreiningur hafi orðið um lögmæti tillagnanna. Eftir talsverðar umræður var gerð tillaga um að skjóta málinu austur, en áður en til atkvæða kæmi um hana, var samþykkt breytingartillaga Ólafs Hallssonar að vísa þessu lagabreytingamáli frá.

Fundi slitið kl. 5.

## FIMMTI FUNDUR

Fundargerð síðasta fundar lesin upp og samþykkt.

Ólafur Hallsson las upp nefndarálit þingnefndar í byggingarmálinu í fjórum liðum:

### Álit þingnefndarinnar í byggingarmálinu

Nefndin leggur til:

1. Að þingið þakki milliþinganefndinni fyrir ágætt og vel unnið starf á s.l. ári.

2. Að fráfarandi milliþinganefnd sé endurkosin og henni sé gefin heimild til að bæta við sig starfsmönnum.

3. Að milliþinganefndinni sé síðan falið (sbr. 2. lið þingsályktunar síðasta þings í húsbyggingarmálinu) að leita fyrir sér með fjárhagslegar undirtektir einstaklinga annaðhvort með frjálsum framlögum eða sem hluthafar fyrirtækisins.

4. Að stjórnarnefnd sé heimilað að leggja fram peningaupphæð allt að $250.00 fyrir starfskostnað milliþinganefndarinnar á komandi starfsári.

**Ólafur Hallsson**
**Hálmfríður Daníelsson**
**Guðmann Levy**
**Björg Ísfeld**
**Gísli Jónsson**

1. og 2. liður samþykktir umræðulaust.

3. liður samþykktur eftir nokkrar umræður.

4. lið vísað til fjármálanefndar til athugunar. Nefndarálitið síðan samþykkt með áorðinni breytingu.

Richard Beik lagði fram álit nefndarinnar í samvinnumálum í sex liðum.

### Nefndarálit þingnefndar í samvinnumálum við Ísland

1) Þingið færir Þjóðræknisfélaginu á Íslandi þakkir fyrir góða samvinnu á liðnu starfsári og viðtökur þær, er það og ýmsir aðilar aðrir á Íslandi veittu Vestur-Íslendingum, er þangað komu í heimsókn.

2) Þingið fagnar yfir ferðum Vestur-Íslendinga til Íslands, þakkar þeim öllum, sem á þeim ferðum sínum hafa unnið að aukinni kynningu Íslendinga yfir hafið, og jafnframt minnir þinigð á hið mikla þjóðernislega gildi slíkra heimsókna. Þingið lætur sérstaklega í ljós ánægju sína yfir Íslandsför þeirra hjóna dr. Richards og Berthu Beck og þakkar þeim fjölþætt kynningarstarf bæði í ferðinni sjálfri og að henni lokinni.

3) Þingið þakkar sr. Braga Friðrikssyni forgöngu hans um samband það, er tengt hefir verið milli bæjanna Lundar og Selfoss, og væri óskandi, að aðrir bæir kæmu á svipaðri samvinnu sín í milli.

4) Þingið þakkar komu ýmissra góðra gesta frá Íslandi og víðar að, og hefir forseti þegar getið þeirra í setningarræðu sinni.

5) Þingið telur mjög athyglisverða hugmyndina um kvikmynd af Vestur-Íslendingum, sem Kjartan O. Bjarnason mun fáanlegur til að taka, þakkar ríkisstjórn Íslands fjárveitingu í því sombandi, og felur væntanlegri stjórnarnefnd frekari framkvæmdir í því máli.

6) Þingið fagnar því, að málið um tollfrjálsar gjafasendingar til Íslands er farsællega til lykta ráðið. Er þinginu það sérstakt ánægjuefni, hve þessi nýbreytni hefir reynzt vinsæl, og vonar, að fólk færi sér þetta tækifæri til gjafasendinga heim um haf vel í nyt í framtíðinni.

**Richard Beck**
**G. L. Johannson**
**Finnbogi Guðmundsson**

1., 2., 3. og 4. liður samþykktur. 5. liður samþykktur eftir nokkrar umræður. 6. liður samþykktur. Nefndarálitið í heild sinni síðan samþykkt.

Séra Philip M. Pétursson lagði fram nefndarálit í sex liðum:

### Álit útgáfumálanefndar

1. Að þar sem ritstjóri Tímaritsins Gísli Jónsson hefir nú aftur, eins og að undanförnu, leyst af hendi ritstjórn Tímaritsins með ágætum, þá vottar þjóðræknisþingið honum þakkir og vonar að hann haldi áfram því verki.

2. Að þingið votti einnig Mrs. Björgu Einarsson þakklæti fyrir starf hennar við auglýsingasöfnun í ritið.

3. Að þingið þakki Þjóðræknisfélaginu á

